## Innihald.

# Tilskipan,

med hvørri
á Íslandi
stiptast

# Lands Yfir-rettur.

útgefin á
Fridriksbergs-Sloti, þann 11'ta Júlí 1800.

Vér Christján hinn Sjøundi, af Guds Nád Konúngur til Danmerkur og Norvegs, Vinda og Gauta, Hertogi í Slesvík, Hólsetulandi, Stórmæri, Péttmerski og Aldinborg.

Gjørum kunnugt: ad þegar Vér yfirvegad høfum allt þad, er Réttargánginn snertir, med tilliti til ad gjøra hann svo stuttann og audveldann, sem møgulegt er, erum Vér komnir ad raun úm, ad sú nidurskipan Yfir-dómstólanna, sem nú er á Voru landi Íslandi, ecki leidir ád þessu takmarki; bædi þared þessir Yfir-réttir eru tveir, hvørr yfir ødrum, og ad þeir háldast ecki nema einusinni á ári; verda því málasóknir vegna slíks dráttar, lángvinnar og kostnadarsamar fyri þá, er neydast til ad sækja rétt sinn edur verja á þíngum. Til þess ad burtrydja þvílíkum hindrunum, og létta þessum þúnga af Vorum kjæru og trúu

íslendsku þegnum, höfum Vér, samqvæmt þeim reglum, sem birtar eru í Lagasetníngu Vorri af 3ja Júní 1796, um Réttarins tilhlýdilegu og skjótu framqvæmd; ásett ad afleggja bædi Yfir-réttinn og Løgþíngin, og í þeirra stad ad stipta almennann Lands Yfir-rétt, einninn svo ad niðurskipa þessum nýja Dómstóli, ad Vorum ádur umgétna Landsfødurlega tilgángi megi svo fullkomlega þar med ná, sem møgulegt er.

Vor skipan og Reglugjørd þarum, er sem fylgir:

## 1. Kapituli.

### Um Lands Yfir-réttarins Stiptun á Islandi, í stad Yfir-réttarins og Løgþinganna.

§. 1.

Yfir-rétturinn og Løgþíngin á Islandi, skulu vera afløgd. I þeirra stad skal stiptast almennur Yfir-réttur fyrir allt landid. Skal hann nefnast: Lands Yfir-réttur, og án tafar nidurskipast, og til verka taka. Einninn skal Alþíng, sem haldid hefir verid vid Øxará, vera aftekid.

§. 2.

Lands Yfir-rétturinn skal haldast í Reykjavíkur Kaupstad, hvar Vér høfum giørt þá rádstøfun, ad naudsynlegt hús til þessa verdi uppbygt; en, þángad til þad verdur fullbúid, má Rétturinn

inn haldast, annadhvert í húsum þess látínska Skóla edur Tukthússins.

§. 3.

Frá Maí mánadar birjun, til Októbers mánadar enda, á Lands Yfir-rétturinn ad haldast einusinni í viku, en á hinum mánudum ársins, einusinni hvørn 14da dag, nema svo sé, ad á þessu sídar nefnda tímabili kunni til ad falla Jústitz- edur Pólitie-mál, því þá skal Rétturinn ad eins koma saman einn dag í viku hvørri, medan slík allsherjar mál ecki eru til lykta leidd. Hvørs vegna þeir tilskipudu Dómendur skulu vera búsitjandi í Reykjavík, hvar Rétturinn haldast á; og enginn af Réttarins limum má láta undanfalla ad mæta í Réttinum án gyldrar orsakar, sem ritast skal í Þíngbókina. Svo á og Forsetinn ad senda árlega til Vors Cansellies, skírslu um, í hvørsu mørgum málum, á sérhvørju umlidnu ári, dómar gengnir eru, og hvørsu opt adrir hafa settir verid í stad þeirra tilskipudu Dómenda, ad sitja í Réttinum.

§. 4.

Eins og Norsku Laga 1 Bók. 5. Kap. 21 Artik. býdur: "ad Kóngsins Befalingsmenn "skuli sjálfir í egin persónu vitja Løgþíng-"anna, og sjá til ad Réttarhaldid framfari "med tilbærilegri vyrdingu"; svo viljum Vér einninn, samqvæmt þessu laga-bodi, hérmed útnefna Stiptamtmanninn til Praesidents edur

Forseta í Lands Yfir-réttinum. Því skal þad vera skylda hans ad taka sæti í Réttinum svo opt, sem adrar hans Embættis annir þad leyfa, og tilsjá ad hann haldist med sóma, og ad stjórn Réttargángsins fari reglufast og náqvæmlega fram. Finni Stiptamtmadurinn ad óregla nockur, í þessu tilliti, smeygi sér inn, þá ber honum ad vara Réttinn, og einkum Júftitiarium vid því, svo ad hún afleggist og réttist; en ef sú advaran eckért ávinnur, þá skal hann géfa Oss sjálfum þetta til kynna, med Voru danska Cansellii. Ad ødru leiti skal Stiptamtmadurinn enga hlutdeild taka í málanna medferd edur dómi á þeim, heldur skal þvíumlíkt vidkoma Júftitiarii og hinna tilskipudu Dómenda adgjørdum; þessir skulu því einúngis standa Hæsta-rétti fyrir þær til andsvara.

## §. 5.

Tilskipadir Dómendur í Lands Yfir-réttinum skulu vera: Júftitiarius og 2 Assessórar; í nefndum Rétti skal og vera Júftits-Sekretéri, sem heldur Þíngbókina, og skrifar Stefnur og Acta. Þessum Embættismønnum géfum Vér Sjálfir laun. Þar á mót skal Løgmannstollurinn og Réttar adgjørda borgun (er á sama hátt gialdast skal, sem ad undanførnu til Løgmannanna), borgast til Vorrar Féhirdslu. Skal Sekretérinn veita hvørjutveggja móttøku, og árlega standa reikníng á því til Vors Rentukammers, en Júftitiarius vitna um þann reikníng.

Ann-

Annars á Sekretérinn ad rita á hvørt Réttarins bréf, bædi med tølu- og bók-støfum, hvørsu mikid honum hefir verid goldid á sérhvørt.

## §. 6.

Retturinn má ei setjast med færri Assessórum, enn tiltekid er í nærst undanførnum §. Ef einhvørr þessara ecki gétur mætt vegna sjúkdóms edur annara løglegra hindrana, þá géfur Jústitiarius Stiptamtmanninum þad til vitundar, hvørjum hér med géfst myndugleiki til, þegar svo vidber, ad setja løgvísann Embættismann, í stad þess Assessórs, er vantar. Sá tilskipadi setst þá í sæti þess Assessórs í Rettinum, í hvørs stad hann sitja á; sama skal og vera, þegar einhvørr af Réttarins Limum er løglega undanþeginn ad sitja dóm, vegna svo nákomins skyldugleika edur mægdá vid málspartana, sem telst ad ødrum lid, ellegar vegna annarar løgmætrar orsakar.

## §. 7.

Jústitiarius á ad hafa hinn ædsta sess í Réttinum nærst Stiptamtmanni (án þess ad vyrdínga-trappa nein, vegna nafn-bótar edur titils, adgætt sé.) Ad embættis-hefd skal Jústitiarius annars vera jafn vid Assessórana í Hæstarétti, og hinir adrir tilskipudu Dómendur,

jafnir þeim Assessórum, er ad fornu verid hafa í þeim norska Yfir-hofrètti. *)

§. 8.

Þad skal vera Jústitiarii embættis skylda, ad standa fyrir framqvæmd alls þess, er Rèttin-
um

*) Þared sú konúnglega Tilskipan af 14da Oct. 1746, um **Rang**, edur Hefdar-stig manna eptir Embættum og Titlum, er á Islandi óþeckt, og bodord þessarar greinar í Tilskipun: um Lands Yfir-rettinn, þess vegna óljóst, hlýdir hjer ad nefna; ad Rang-tilskipanin skiptir þessum hefdar-stigum øllum í 9 flocka, af hvørjum hinn fyrsti og ædsti flockur heldur 12 læckandi hefdar-stig; annar flockurinn 17 læckandi stig; Þridji 9 þesshattar stig; fjórdi 10 læckandi stig; fimti 8 læckandi stig; sjøtti 13 læckandi stig; sjøundi 12 læckandi stig; áttundi 7 læckandi stig og níundi flockur 13 læckandi stig.

Allra þessara manna Konur nefnast: Frúr og standa á sømu hefdar-stigum sín á milli og menn þeirra.

A Islandi ná fá embætti enn þá þessum hefdar-stigum, og einúngis þessi eptirskrifud:
Stiptamtmanns er á 16da stigi í ødrum flocki.
Biskupa á 9da stigi í þridja flocki.
Jústitiarii í Lands Yfir-rettinum er, eins og Assessóranna í Hæsta-retti sídan 7da Jan. 1791, jafnt virkilegum Jústits-rádum á 3dja stigi í fjórda flocki.
Amtmanna á 2ru stigi í fimta flocki.
Assessóranna í Lands Yfir-rettinum á 10da stigi í sjøunda flocki, og
Jústits-Sekreterans í sama Retti á 13da stigi í níunda flocki.

um vidvíkur, fyrir utan þau eginlegu Dómara-verk. Hann skal láta auglýsa málanna fyrir-tekt, og med þau birja eptir þeirri rød, sem stefnur í þeim útgéfnar eru. Hann skal hafa tilsjón med, ad málanna bréf-søfn ecki ónaud-sýnlega apturhaldist hjá Assessórunum, þegar þau berast um medal þeirra, til dóms-atqvæda. Hann skal samantaka dómana eptir flestum atqvædum, lesa þá opinberlega upp fyrir Réttinum, og útgéfa þá undir egin hønd og med áþrycktu Réttarins Innsigli. Hann á ad sjá til, ad í Réttarins bækur skjallega ritad sé, og ad Ac-tarnir skrifist út, svo fljótt sem vera á. Í einu ordi: hann skal stjórna øllu því, og til fram-qvæmdar koma, sem heyrir til þessa Dómstóls innvortis stjórnsemdar, og sjá fyrir øllu því, er útheimtist til ad vidhalda Ordu í Réttargáng-inum. Ad ødru leiti skal hann taka jafnann hlut med hinum ødrum Tilskipudu í málanna medferd og dómum. Í fjærveru Júrstitiarii, á sá efsti Réttarins Assessor ad standa fyrir Embætti hans.

§. 9.

Lands Yfir-réttarins Innsigli skal vera Is-lands einkennis-merki, med þessu umkríng settu: Hins Konúnglega Lands Yfir-réttar Inn-sigli. Annars ega bréf þau øll, er frá Rétt-inum sendast til þeirra Konúnglegu Kollégia ellegar Embættismanna, í erindum þeim, er á-þræra Vora þjónustu, og á hverium þetta Inn-

sigli stendur, ad berast kauplaust, en Júst itia-rius skal um þau géfa sinn vitnisburd, samqvæmt því sem áqvardad er, edur sídar náqvæmlegar áqvardast kann, um Póst-bréfa-burd á Islandi.

## 2. Kapítuli.

### Ahrærandi hvar Lands Yfir-réttarins adgjørdir nái til, og hvør þau mál séu er heyra skulu undir þessa Dómstóls umdæmi.

§. 10.

Øllum þeim málum, er eptir Løgum og Tilskipunum, hefir ad undanførnu stefnt verid til Løgþínga og Yfir-réttar, skal hédan af, þegar áfríad er, apellera til Lands Yfir-réttarins, ef um meira er ad gjøra, enn 2rdli., edur þeirra andvirdi, og skal þad hér eptir fyrirbodid vera Yfirvøldum, med úrlausnum edur dóma samþyckingum ad skéra úr egin misklídum manna, en þær skulu ætíd dæmast af Réttunum þegar þeir, sem mál egast vid, ecki ná innbyrdis sættum vid Sátta Nefndirnar; þó megu Stipt- og Amtmenn í Pólitie-málum þeim, er áhræra smá-yfirsjónir, gjøra þeim seku útlát allt ad 2 rdla. vyrdi; en vardi málid meiru, skjóti þeir því til Pólitie-Réttarins, hvadan þad kjærast á fyrir Lands Yfir-rétti, og þar, líkt og fyrir Undirrétti, sluttlega ad útkljást.

§. 11.

Dómar (Commissariorum) kónglegra Nefndar=manna, skulu einninn stefnast til Lands Yfir=réttar, ef andvyrdi þess, sem umþrætt er, ecki stigur til 200 lóda sylfurs edur þeirra verds; en sé málid svo mikilvægt, ad þad eptir NL. 1 B. 6 Kap. 16 Art. megi koma fyrir Hæsta=rétt, þá skal því einnidt þangad stefna; svo megu og kjærumál um Réttar=neitun, edur kúgandi Rétt=arspjøll, stefnast beint til Hæsta=réttar, svo ad málid sjálft dragist ei til óþarfa. Þó má sá, er ákjærir, velja um, hvørt hann heldur vill stefna þesshattar málum fyrir Lands Yfir=réttinn.

§. 12.

Auk þess dæmandi myndugleika, til ad skéra úr Réttargángs þrætum, sem eptir þessa kapít=ula 10da og 11ta §§. er Lands Yfir=réttinum í høndur fenginn, skal hann og framqvæma allt annad, sem hingad til hefir vidkomid embættum Løgmanna, svo sem: ad þinglýsa affals= og pant=setninga=bréfum, velja til Nefndir manna til Náms adfara, med ødru fleiru, hvørju nafni, sem heita kann.

§. 13.

Þau mál, sem stefnd hafa verid til Yfir=réttar edur Løgþinga, enn ecki þar fallid dómar á, vid byrjun Lands Yfir=réttarins, egu (eptir stefnum þeim, er vid fyrrnefnda Dómstóla tekn=ar eru) ad sækjast fyrir, og dæmast af Lands Yfir=réttinum; og þeir Løgþingis dómar, sem

gengnir eru ádur enn Lands Yfir-rétturinn hefir birjad störf sín, ega ad stefnast til þessa Réttar, ef átaldir verda, sé málid af minna verdi, enn 200 lóda sylfurs; en sé þad af meira, lýtur málid beinleidis undir Hæsta-réttar dóm.

Audvitad er annars, ad hafi nockurr Lands Yfir-réttar Assessor, sem Lögmadur, dæmt í einhvörju máli, sem kjært er fyrir nefndum Rétti, á hann ad víkja úr Dóminum, og annar ad koma í stad hans, sem til þess verdur settur, á sama hátt, sem bodid er í þessarar Tilskipunar 1 Kap. 6. §. Vér bjódum annars: ad Stiptamtmadurinn skal, undir eins og þessi Vor Tilskipan er honum í hönd komin, tafarlaust sjá um, ad hún til framqvæmdar komist, innann eins mánadar, og þad birt verdi fyrir öllum Vorum þegnum á Islandi, hvörn dag sá af Oss stiptadi almenni Lands Yfir-réttur byrjar.

## 3. Kapituli.

### Um Stefnur og Stefnufrest til Lands Yfir-réttarins, og um Réttargángs reglu fyrir þessum Dómstóli.

§. 14.

Stefnur og Aktar útgéfast í nafni Jústitiarii og hinna Tilskipudu, med áþrycktu Réttarins innsigli; stefnurnar útgéfast med Sekretérans undirskrift, en Aktarnir undir Jústitiarii hendi.

§. 15.

§. 15.

Sá stefndi fær 14 daga stefnu-frest, ef hann býr í Gullbríngu-, Kjósar-, Borgarfjardar-, Mýra- edur Arness-sýslum; 4ra vikna frest í bádum Skaptafells-, Rángárvalla-, Hnappadals-, Snæfellsness-, Dala-, Bardastrandar-, Stranda-, Húnavatns- og Skagafjardar-sýslum; en í Isafjardar-, Vodlu-, Þingeyjar-, bádum Múla- og Vestmannaeyja-sýslum 6 vikna frest; sé sá ákjærdi utanlands, þá eru Legin og Tilskipanin af 3ja Júní 1796 5 Kap. 16 §. til eptirbreytni.

§. 16.

Málanna sókn og vörn fyrir Lands Yfirréttinum, skal skriflega framfara, á íslendska túngu, nema hvörrtveggja, sækjandi og verjandi, séu Danir edur Nordmenn, því þá skal þeim leyfast ad slytja mál sín á danska túngu. Annars á sem nákvæmlegast ad breyta eptir og framfylgja þeim reglum, sem í tilliti til málssókna eru fastsettar í Tilskipuninni af 3ja Júní 1796 um Réttarins tilhlýdilegu og skjótu framqvæmd.

§. 17.

Assessóranna Dóms-atqvædi egu skrifleg ad vera og dómarnir stýlast af Júst¡tiarió, eptir flestum atqvædum; skal hann og lesa þá upp fyrir Réttinum, og sídan útgéfa undir Lands Yfirréttarins Innsigli og Júst¡tiarii hendi, eins og bodid er í þessarar Tilskipunar 1 Kap. 8 Art.

Þad

Það er audrádid: ad bædi Dóms-atqvædi og Dómar, egu ad ritast í Atqvæda- og Dóma-bækurnar.

§. 18.

Þegar Lands Yfir-réttarins dómum verdur stefnt til Hæsta-réttar, skulu vidkomendur framleggja danska útleggingu Aktanna, fyrir Lands Yfir-réttarins Limi til yfirskodunar, svo ad þeir vitnad géti um, hvørt útleggingin sé rétt edur ecki, ádur enn Hæsta-réttar stefna er fáanleg.

§. 19.

Vegna þess, ad í saka-málum er ecki naudsynlegt, ad sá, sem fyri søk er hafdur, komi fram fyrir Yfir-réttinn undir nýja ransókn, sé málid í héradi granskodad, sem ber, og med røkum saunad; og þared optlega henda kann, ad sakamannsins færsla, med vøktun, frá fángelsi hans til Yfir-réttar, sé bædi ollandi tíma- og peninga-spillirs, bjódum Vér hér med: ad þegar Lands Yfir-réttinum þykir þørf frekari upplýsingar af saka-manninum, skal þessi Réttur senda Undir-dómaranum þær spurningar, er í þessu tilliti þykir um varda, og skipa honum med nýrri ransókn, ad taka saka-mannsins ýtarlegri andsvør á þingi; en ef fánginn er á þeim stad, hvar Lands Yfir-rétturinn haldinn er, edur þar nálægt, skal hann sjálfur færast fram fyrir þenna Rétt. Loksins, þyki málid ánægjanlega prófad fyri hérads-rétti, skal dómur falla í því fyri

Lands

Lands Yfir-rétti, án frekari spurnínga saka-manninn áhrærandi.

§. 20.

I málum þeim, er vidvíkja skóga-skiptum, Landa-merkjum edur þess háttar, sem eptir NL. 1 B. 16 Kap. krefja yfirskodunar á þrætu-plátsinu, ádurenn dómar gánga; skal ætíd afstødu-málun þrætu-landsins gjørd vera, eptir bodi Tilskipunarinnar af 31ta Martsí 1719, svo ad Lands Yfir-rétturinn dæmt géti í slíkum málum, án þess, sjálfur ad þurfa ad koma á þann stad, sem þrætan af rís. Veri þad annars vid, ad yfir Undirdómarans áreidar- edur -skodunar-gjørd, qvartad verdi, þar hún tjáist svikul eda raung, skal Amtmadurinn, ef einhvørt málspartur beidist þess, tilnefna 2 skynuga menn, til Nefndar-manna, er fari um þrætu-stadinn og ransaki kjæru-málid, og skal þá þessi nýja yfirskodunar- og -ransóknar-gjørd leggjast fram ásamt afstødu-máluninni, fyri Lands Yfir-réttinn, er med dómi málsins á ad álykta þann seka, hvørt sem heldur er Dómarinn, edur sá er kjærdi, skyldann ad borga kostnad þann, er þurft hefir til þessara adgjørda.

§. 21.

Lands Yfir-réttarins dómar egu ad áfrýast ádur enn eitt Ar og Dagur séu lidin, frá því þeir féllu.

§. 22.

I Saka- og Júſtits-málum setur Stipts-amtmadurinn talsmenn, er þurfa, annadhvørt

Sýslumenn, er búa á nálægum stødum, edur adra løgkjænamenn. Sama skal og vera, þá vid Civilmál er ad fást, og hlutadegendur hafa fengid beneficium paupertatis, edur fátæktar lidsinni. Ef annars nockurr málspartur ecki gétur sjálfur komist til þings, edur sjálfur talad þar máli sínu, á einninn ad setja honum løgkjænann mann, er standi fyrir málinu hans vegna, fyrir sanngjarnlega borgun. Vér viljum annars leyfa: ad þeir sem í Júftits-málum settir eru sækjendur og verjendur, ellegar fátækum til forsvars, megi njóta lítilvægrar borgunar af Júftits-kassanum, fyri kostnad þeirra og mædu, þegar dómur áqvardar þeim ecki borgun hjá enum sakfellda, edur þeim parti, er fellur á máli sínu.

Eptir þessu viti allir hlutadegendur allraundirgéfnast ad hegda sér. Géfid á Voru Sloti Fridriksbergi, þann 11ta Júlí 1800.

**Undir Vorri konúngl. Hendi og Innsigli.**

Christján R.

(L. S.)

Moltke.

Schow. Colbjörnsen. Rejersen. Feddersen. Cold.

Riett útlagt vitnar:

M. Stephensen. Júftitiaríus.

B. Grøndal. Isl. Einarsson. Assessóres.

# Auglýsing.

Jústitiarius í þeim Konúngliga Lands Yfir-rétti á Islandi, Jústitsráð Magnús Stephensen Gjørir kunnugt:

1.) I tilliti til hér ad framan prentadrar Konúnglegrar Tilskipunar um Lands Yfir-réttinn, ad hverr sem héreptir beidist stefnu til Lands Yfir-réttarins, á ásamt undangengnum Hérads-Prócessum og dómum í því máli, sem apellerast, ad innsenda til Jústitiarii fullkomid stefnu-uppkast, stýlad í Jústitiarii og tilskipadra Assessóra nafni, og med ánægjanlegum laga-fresti, ad øllu svo samid og hreinskrifad, ad stefna þessi einúngis þurfi vid Réttinn ad undirskrifast, hans innsigli ad á þryckjast og þíngdagurinn í þar til ætlad audt rúm fyrir hann ad innskrifast; hvørs vegna hlutadegendur framvegis kénni sjálfum sér, ef eitthvad er áfátt í þeirra innsendu stefnu-uppkøstum, samhljóda hvørjum ad øllu, stefnurnar útgéfnar verda.

2.) Ad sérhvørr hlutadegandi skal á tilteknum døgum, þá Rétturinn heldst, vera þar til stadar strax, þegar hríngt er í 3ja sinni og hann upphrópadur er; hvorr sem þá lætur sig vanta, og ecki mætir ádur enn Sessiónin er endud, verdur álitinn eptir Tilskipuninni af 3ja Júní 1796 1 og 2 Kap. En þared Réttarins Sessiónir ad forfalla-lausu birja, ádur enn edur um þad leitid, ad kluckan er 9 ad morgni dags, þá viti hlutadegendur sér þareptir ad hegda.

3.)

3.) Hvørr sem þarf talsmans vid, til ad taka máli sínu fyrir Lands Yfir-réttinum, hafi útvegad hann hjá Stiptamtmanninum svo tímanlega, ad sá sem honum verdur settur fyrir talsmann, géti mætt í tækann tíma fyrir þessum Rétti, og þurfi ei tímans naumleika fyrir sig ad bera, í forfalla stad, sem ad engu haldi kémur þeim, er vanrækir skyldu sína í þessu.

4.) Þar ed Tilskipanin af 11ta Júlí 1800, 1 Kap. §. 5. skipar Réttarins Sekretéra ad taka á móti Løgmanns-tollum af Sýslunum, árlega fyrir þá ad standa reikníng því Konúnglega Rentu-kammeri, og Júśtitiarió ad vitna um þann reikníng, hefi eg í embættis-bréfi til Sekretérans áskilid, ad vidkomandi Sýslumenn árlega fyrir honum legitímeri Løgmanns-tollsins upphæd, med greinilegum tíunda-reikningum búendra og búlausra í hvørjum hrepp, útdregnum af Sveita-bókunum og sønnudum med hlutadegandi Prests og tveggja Hreppstjóra undirskriftum, án hvørs engin fullkomin qvittering fyrir Løgmanns-tollana, verdur af Sekretéranum útgéfin, né heldur Júśtitiarii attestatión uppá hans reikníng, hvad hérmed øllum til adgjætslu auglýsist.

5.) Med Cancellie-bréfi af 2rum Aug. 1800 er Lands Yfir-rettinum á hendur falid, á íslendska túngu ad útgefa allar hjereptir útkomandi Tilskipanir fyrir Island, Tilskipunina af 11ta Júlí 1800, og þær eldri, sem almenníngi eru markverdastar. Birjanin er hjermed gjørd, hvørs vegna þeir, er þetta medtaka, gjøra vel í, ad geyma þad safn vandlega framvegis, uns mátulegt vyrdist komid í hvørt bindi ser, til hvørs þá vænta má Titilblads og Registurs. Leirá, þann 29da Júlí 1801.

M. Stephensen.




# Tilskipan
um
# Sætta-Stiptanir á Landinu í Norvegi.

Kaupmannahøfn, þann 20ta Janúarí 1797.

Vér Christján hinn Sjöundi, af Guds Náð Konúngur, etc.

Gjørum kunnugt: að vegna þess Vér, með mikilli ánægju, sjeð høfum þau bestu not af Tilskipun Vorri, sem útgéfin er þann 10da Júlí 1795 (með hvørri gjørðar eru Sætta-Stiptanir allstaðar í Danmørku, en fyrst um sinn einúngis í Norvegs kaupstøðum), og Vér af reynslunni erum leiddir til að grenslast eptir, og með umhyggju að uppgøtva þau meðøl, er hentugust vyrðast mættu til niðurskipunar og framqvæmdar þessari nytsømu ráðstøfun á landinu í Norvegi, hvar hún þókti sameinuð vera ýmsum ørðugleika, søkum afstøðu sumra bygðarlaga; þá gjørum Vér fullnægiu bæði Vorri hjartans ósk og því konúnglega loforði, í áðurnefndri laga-setníngu, þegar Vér hér með áqvørðum, að hún einninn gylda skuli á landsbygðinni í Norvegi, með þeim umbreytíngum og náqvæmari niðurskipun, er afstaða

og bygda-løgum þessa ríkis krefur. Annars efumst Vér ecki um, ad þessu Voru landsfødurlega Løgmáli verdi á móti tekid af Vorum kjæru og trúu sveita-búendum i Norvegi, med enu sama þacknæmi, og eptir því lifad med hinni sømu gódvilíugu alúd, sem annarstadar i Vorum ríkjum, hvar Forlíkunar-Stiptananna framgángur hefir sámqvæmur ordid Vorri von og tilgángi. Þær reglur, er Vér i þessu tilliti áqvørdum, eru sem fylgir:

## I. Kapituli.

### Um nidurskipun Forlíkunar-verksins á landinu i Norvegi.

§. 1.

Til ad hindra óþarfar og kostnadarsamar þínga-þrætur medal Vorra kjæru og trúu þegna, er búa á landinu i Voru ríki Norvegi, skulu þar á hvørjum stad setjast Forlíkunar-Nefndir, er stunda skulu ad sætta þá missáttu málsegendur, ádur enn þeim leyfist ad løgsækja hvørr annann fyrir rétti; flýtur þá hér af, ad engin mál (ad þeim einum undanteknum, er þessi Tilskipan einkanlega tilgreinir) megu fyrir Dómstólunum sækjast, eda dómur falla á þau, nema sækjandi sýni bréflegar røksemdir þær, er sanni, ad einsleg forlíkan hefir reynd verid, en ecki ordid framgeng.

§. 2.

Forlíkunar=verkid á einúngis ad vera undir stjórn Amtmannsins sjálfs, í þeim hlúta af Amtinu, er næst liggur bústad hans, en í þeim fjærliggjandi Héredum tilnefnir hann sín vegna rádvanda og skynsama menn, er vera skuli Forlíkunar=Nefnd eda Sátta=menn.

§. 3.

Sérhvörju Amti skal skipta, eptir stærd þess og bygdanna afstödu, í viss fylki edur sveitir, er þanninn afmarkast, ad enginn af þeirra innbyggendum hafi lengra ad ferdast til þess stadar, hvar Forlíkunar=Nefndin saman=kémur, enn 2 eda 3, og þá lengst er, 4 mílur.

§. 4.

Þegar fylkin eda sveitirnar þannig eru af Amtmanni takmarkadar, skal hann tilsjá ad auglýsing þar um verdi géfin á Prédikunar=stólunum, svo allir viti sér þar eptir ad hegda.

§ 5.

Þared Forlíkunar=verksins nidurskipan er til almenníngs nota, má enginn sá, er býr innan þeirra afmörkudu sveita, mælast undan ad takast þetta heidurlega embætti á hendur, þegar hann til þess er matinn hæfilegur; þó skal hann ecki skyldur vera ad þjóna í þessari stétt lengur enn í 3 ár. Málaslutníngs=menn

(Prókúratórar) einir megu vera undanskyldir til þessa starfa.

§. 6.

Í hvørri Forlíkunar-Nefnd skulu vera 2 menn, nefnilega: einn verdslegur embættis-madur, Prestur eda annar dugandis madur, sem ecki er bóndastands, og einn valinkunnur Bóndi. Hinn fyrri af þessum tveim skal rita í Prótókollinn (hvørn Amtmanni ber med uppá-skrift sinni ad løg-gylda), en bádir setja þeir nøfn sín undir þad, sem í hann er skrád.

§. 7.

Í þeim smá-þorpum (Hledslu-plátsum vid sjóarsíduna) í Norvegi, hvar fleiri eru enn 20 búsitjandi húsfedur, skal Amtmadurinn til-nefna 4 menn, af hvørjum innbyggendurnir mega velja 2 í Forlíkunar-Nefnd á þeim stad; en þessir 2 tilkjørnu menn skulu, ad því búnu, skickadir verda af Amtmanni. Annars á þad, sem bodid er í Tilskipuninni af 10da Júlí 1795, 2rum Kap. §. 12ta og 13da, um Forlíkunar-verksins nidurskipun í kaupstødun-um, ad vera regla í þeim smá-þorpum, hvar valid skér á þann hátt, sem nú var umgétid.

§. 8.

Hid fyrsta sinn, er þeir vøldu menn taka til verka, sem Forlíkunar-Nefnd, skulu þeir fyrst rita og undirskrifa þeirra embættis-eid í Prótókollinn, á þenna hátt: Eg

Eg N. N., sem er valinn og nefndur til Forlíkunar-manns í N. N. afmarkada bygdarlagi, heiti því og sver: ad eg af fremsta megni skal kappkosta, ad framfylgja einslegri Forlíkun millum hlutadegenda, í øllum þeim málum, er koma fyrir umgétna Nefnd, og ad eg skal til þess studla af ytrustu krøptum med allri alúd og hreinskilni, eins og eg, eptir samvitsku minni, hefi best vit á. Svo vil eg ad Gud hjálpi mér og hans heilaga ord!

§. 9.

Forlíkunar-Nefndin á almennt ad halda samkomur sínar einusinni í byrjun hvørs mánadar; skal því lýsa á Prédikunar-stólunum 8 døgum ádur, ad sérhvørr sá, er mál hefir ad kjæra, géti ordid sannfródur um þá tíd, sem til er tekin. En í Nordurlanda og Finnmerkur Ømtum, sem og í sjó- og fjall-bygdum annarstadar, hvar vegalengd og annar ørdugleiki bannar, ad þessari reglu náqvæmlega fylgt verdi um sérhvøru árstins tíma, einkum á vetrar-døgum, viljum Vér setja í hlutadegandi Amtmanna vald, ad áqvarda þá tíd, er þar til þykir hentust, eptir ástandi sérhvørs bygdar-

lags. Þó skulu þeir gēfa Voru danska Canselli þad til vitundar, þegar þannig vikid er frá þeirri almennu reglu, og hvørjar orsakir hafi gjørt þad naudsynlegt ad víkja frá henni.

## 2. Kapítuli.

### Ahrærandi hvør mál túlkast skulu fyrir Forlíkunar-Nēfndum.

§. 10.

Øll borgaraleg mál yfir høfud, hvørt sem þau heldur snerta ódul, eignir, tilkøll, skulda-krøfur eda annad, skulu koma fyrir Forlíkunar-Nefndir. Hēr frá undanskiljast:

a) Mál um vexla *).

b) Skulda-heimtur í sterfbúum, Fallit- og uppbods-búum **), þared málskostnadur

ecki

*) Eptir annari Tilskipun af 20ta Janúarí 1797, ega þau mál, sem ríſa af Vexla-Obligatsíónum, (Gjalds-brefum) og áhræra Vita-skuldir, ad koma fyri Forlíkunar-nefndir, ádur enn málsókn um þær se stofnud fyri Retti. En sá af sætta-mønnum, er stefnu-sedla útgefur, skal vera skyldur til, ad rita á þesskonar Gjalds-bref, ad um þær se kjært ádur enn gjald-dagi er kominn, edur, ad ødrum kosti, gefa kjæranda þarum breflegt skírteini.

**) Fallit-bú kallast þad, frá hvørju egandi þess hlaupinn er med leynd, þared hann, vegna ein-

hvørra

ecki borgast í þesshattar málum, þegar þau í fyrsta sinn dæmd eru; þó skal Skipta-rétturinn sjálfur kappkosta ad forlíka þá missáttu hlutadegendur ef vidþarf.

c) Þegar málum til upplýsíngar þarf vitni ad taka, og þau annadhvert liggja veik, eda eru í ferdalögum, svo vitnisburdir þeirra missast kynnu vegna undandráttar, skal þad leyft vera ad ná þeirra vitnisburdum, ádur enn málid kémur fyrir Forlíkunar-Nefnd, en annars ecki. En þegar málsins hlutadegendur ecki géta komid sér saman um þess sönnu undir-rót, og vitni þess vegna þarf ad leida, skal Forlíkunar-Nefndin skjóta málinu á frest á medan vitnaleidsla er tekin, en byrja



hvörra sinna yfirsjóna, þorir ecki ad vidhaldast vegna skulda. Þad er og Fallit-bú, ef skuldaheimtu-menn krefjast ad Yfirvaldid skipti, edur skipta láti einhvörs búi, þeim til skulda-lúkninga, og þessari þeirra beidni se framfylgt.

Uppbods-bú kallast: þá egandi þess óttast fyrir ad hann ecki hafi fjármuni til ad borga öllum þeim, er hann stendur í skuld vid, og þessvegna beidist, ad búi hans megi skipta af þeim mönnum, sem hann tilnefnir.

sídan aptur med þad, framhalda því og til fullkominna lykta leida *).

§. 11.

*) Þad konúnglega danska Cansellii, hefir þann 27da Janúari 1798, gefid úrlausn eptirfylgjandi þriggja spursmála, er Sætta-stiptanin ollad hefir.

1.) Um þad: hvørt laganna bod 1 B. 2 Kap. 15. og NL. 12. Art. er segir: ad þau mál, sem andlegrar stettar menn hafa sín á millum, er strax án lagasókna kunna ad leidast til lykta af Prófastinum, og ecki mega koma fyrir verdslegann Dómstól, skuli enn þá hafa fullann krapt, sídan hin almenna Sætta-nefnd er stiptud?

2.) Hvørt þad kjærumál, er leikmadur einhvørr hefir á móti Presti þeim, er neitad hefir ad taka hinn til skripta og Altaris, skuli klaga fyri þeirri almennu Sætta-nefnd?

3.) Hvørt þad mál heyrir til umgetinna Sætta-nefnda, þá af 2 trúlofudum persónum, ønnur óskar ad trúlofanin se ad engu gjør, en hin ecki, og hvørt hin fyrri egi þá ad koma med kløgun sína fyrir Sætta-nefndir?

Þeirri fyrstu spurningu hefir Cansellíid þannig svarad: „þared þad umgetna lagabod, er „ecki svo náqvæmlega áqvardad, sem þetta efni „sídan alþýdlega er, med Tilskip. af 10da Júlí „1795 §. 19. og 20ta Janúari 1797 §. 10. „hvørjar ed gjøra þad ljóst, ad øll borgaraleg „málefni yfir høfud, hvørt sem þau áhræra eign-

„ar-

§. 11.

Þess ber og ad gjæta, ad þegar eitthvørt mál byrjar med forbodi eda kyrrsetníngu (Ar-
B 5 resti),

„ar-rett, tilkøll edur gjald-krøfur, skuli gjørast ad á-
„litum af þeirri nýju Forlíkunar-stiptun; svo
„skal einnig med øll þau mál, er snerta andlegr-
„ar stettar menn, byrja til adgjørda fyri þeirri
„almennu Sætta-nefnd, ef þau einúngis áhræra
„borgara- edur veraldlegt umtals-efni.

„Þad annad spursmál heyrir til fullkom-
„inna adgjørda Yfirvaldsins, sem í þesshattar til-
„fellum er hid andlega, og eptir mála-vøxtum,
„skjótast á til Hierads-prófastsins.

Til þess þridja spursmáls svarast: „ad þar-
„ed Tilskip. af 19da Febr. 1783 áqvedi hvørsu
„hjer med egi ad fara; svo vidkomi ecki þesshátt-
„ar mál þeirri almennu Forlíkunar-nefnd, ne
„kunni af henni ad verda á móti tekin til adgjørda,
„heldur skuli med þau fara, sem umgetin Til-
„skipan áqvardar."

Þess konúngloga danska Cansellíes úrlausn, af 24da Decembr. 1799 er þeirrar meiníngar: ad eckert þad mál, er konúnglegir, edur af Yfirvaldinu settir embættismenn, eptir bodi Tilskip. af 27da Septembr. 1799 §§. 10 og 11 eru skyldir ad reisa, vegna þeim gefinna sakargipta, áhrærandi þeirra embættis-verk, edur annann ærukreinkjandi áaustur um breytni þeirra utan embættis: eck-

vesti), ad sækjandi strax ad því verki aflokuu, kalli sinn mótstødu-mann fyrir Forlíkunar-Nefndina. En náist ecki sættir á málinu, þá á kyrrsetningunni edur forbodinu, med løglega byrtri stefnu, fram ad fylgja þann fyrsta dag, sem réttar-gángur er haldinn, þegar málinu er af Nefndinni vísad til Dómstólanna.

§. 12.

J tilliti til þeirra mála, er ecki kunna ad metast, nema eptir ransókn á þrætu-plátsi, þá skulu hlutadegendur, ádur enn þeir leita til Forlíkunar-Nefnda, láta gjøra naudsynlegar yfirskodanir, málinu til upplýsingar, sem í laganna 1stu B. 16da Kap. bodnar eru, nema því ad eins ad Forlíkunar-Nefndin sjálf sé tilleidanleg ad ransaka málid á þrætu-plátsinu.

§. 13.

Hvørt heldur einum er nidrad í ordum eda verkum, skal þad einnig, þegar áfríad er af þeim, sem fyrir søk verdur, kjærast fyrir Forlíkunar-Nefndinni, ádur enn til réttar-gángs kémur, og laganna 1—22—8 skal ecki hindra hlutadegenda innbyrdis sætt á þessháttar málum, þó af þeim kunni ad leida bar-smída,- ofríkis- edur 3ja marka-bætur.

§. 14.

ecki megi kjærast fyri Sætta-nefndum, heldur skuli þeim tafarlaust stefna til vidkomandi Rettar.

§. 14.

En þeim málum, er á allsherjar kostnad sækjast, edur skipad er ad byrja med, eptir tilhlutun hlutadegandi Collegía, edur embættismanna, ber án tafar ad stefna til réttar; þó viljum Vér ecki ad barsmída- né ofríkis-mál sækja skuli á þann hátt, nema því ad eins, ad allsherjar fridi sé af þesskonar orsøkum raskad. Hér af flýtur, ad þegar einhvørr hefir kjærumál um sér gjørdann vansa á líkama edur eignum, svo ofríkis- edur barsmída-bóta krafist verdi, skal þad af þeim, er fyrir vansanum vard, eins og hvørt annad innbyrdis mál-efni, kjærast fyrir dómstóli, ef bætur og sættir nást ecki þingdeilda-laust og skal þeim, er varhluta gjørdist, veitast fátæktar hjálp (Beneficium paupertatis) og Talsmadur kauplaust, ef hann sjálfur ecki hefir efni til ad fylgja máli sínu fram fyrir rétti.

§. 15.

Ad sídustu skulu laganna 1stu B. 5ti Kap. 2ar Art., og þeirra 3ju B. 4di Kap. 4di Art., er høndla um ærukreinkjandi áburd gefinn Yfirvaldinu og réttarins þjónum, vera í fullu gyldi.

§. 16.

I Ektáskapar málum skulu Forlíkunar-Nefndir reyna til, þá hvørttveggja ekta-hjónanna kémur til fundar, ad koma sættum á milli þeirra, og ad þau búa vilji í samlífi framvegis.

is. En verdi engri sameiníngu ákomid, megu þó ecki Forlíkunar-Nefndir leysa sér, hvørki ad gjøra hjóna-skilnad, svo ektaskapur sé ad engu gjørr, né heldur leysa skilnad frá bordi og sæng, er einúngis heyrir til hlutadegaudi rétta og Yfirvalds fullkominna adqvæda; þó má þad leysast, þegar hid seinna tilber, ad Sætta-nefndin taki á móti samníngi ekta-hjóna, um þá skilmála, eptir hvørjum þau verda ásátt ad setja hvørt ødru fjærvistir, svo þetta kunni gjørast ad álitum, ef skilnadur yrdi þeim leysdur seinna meir.

§. 17.

Þegar mál eru kjærd fyrir Politie-rétti, skal hinn sami reyna til, þá málid er vidvíkjandi persónulegum vansa, ad koma gódgjarnlegri forlíkun á millum vidkomenda, fyrr enn eginlegar réttarins adgjørdir byrja, án þess ad tillit sé haft til laganna 1—22—8.

§. 18.

Á líkann hátt skal fara med Gésta-réttar málefni, þar líklegt er, ad þeim ecki skjóta megi á frest.

§. 19.

Þau í þessum sídustu tveim §§. umgétnu mál, egu þess vegna ecki ad koma fyrir þær almennilegu Sætta-nefndir; en þær gjørdu forlíkanir, ega þó ad leida hid sama eptir sig,

og

og hafa þad gyldi og krapt, sem hinar, er fyrir Forlíkunar-Nefndunum fást kunna og ákomid verdur.

## 3. Kapituli.

### Um skyldu Forlíkunar-Nefndanna; hvörsu þær fara egi med mála-ferli; um þad, er af sættum leidir, og fleiri áqvardanir, er snerta Sætta-Stiptunina yfir höfud.

§. 20.

Þeir, sem kjærumál eitthvørt edá kløgun hafa, er eptir ádur umgétnum reglum góðmótlega má sættum ákoma, skulu bréflega eda munnlega géfa þad ádur Forlíkunar-Nefndinni til vitundar, og þarum leita þess Nefndar-lims, sem ecki er bónda-stéttar.

§. 21.

Til þess hvørr og einn viti, hvar hann egi ad leita til þá svo ber vid, á Forlíkunar-Nefndin ad gjøra heyrum kunnugt, hvørr sá tími og stadur sé, sem hún áqvardad hefir til ad taka á móti kjærumálum manna, og þessi ávísan á þannig ad ské, sem hér er skipad í 1. Kap. 9. §.

§. 22.

Þegar einhvør umqvartan edur kløgunar tilkynning er komin, géfur sá Forlíkunar-limur, er tekid

hefir móti hinni sømu, tafarlaust med sedli bréflega ávísun um, hvønær bádir hlutadegendur skuli koma fyri Sætta-Nefndina. Ef sá, er klagar, hvørki býr, né er ad vistum innan þeirra afmørkudu Forlíkunár-takmarka, stefnist hans svara-madur, edur hann, sem vegna hins fyrra hefir med kløgun framkomid. Þessa stefnu á kjærandi ad fá í hendur, og sjálfur ad sjá fyrir hún auglýst verdi þeim, sem yfir er klagad, og þareptir á hún sjálf ad leggjast fram fyri Forlíkunar-Nefndina.

§. 23.

Stefnan birtist af þeim, í hvørri sókn, tilteknu stefnuvottum, er eptir bodi Tilskipunarinnar af 3 Júní 1796 bréflega sanna, ad slíkt sé af þeim gjørt. Sá sem stefndur er, á annars 4 daga frest.

§. 24.

Fyri stefnu birtíng borgist hvørjum stefnuvotti 12 skildíngar, en sé kjærandi fátækur madur, egu þeir enga borgun ad fá.

§. 25.

Hvørr og einn vidkomenda, sem er innan Forlíkunar takmarka, skulu sjálfir koma fyri Sætta-Nefndirnar, þó má þad leyfilegt vera, þá hlutadegandi er løglega hindradur, ad senda annann vandadann mann fyri sig, er hafa verdur ánægjanlega fullmakt, til ad sættast á mál-

málid vegna þess er honum hefir fullmakt gefid; en ad øllu leiti skal þad bannad vera, ad taka med sér málafylgis-menn (Procuratores) edur senda þá fyri sig, til þess ad túlka mál fyri Forlíkunar-Nefndinni.*)

§. 26.

*) Med Rescripti af 19da Októbr. 1798 er þetta, af konúnglegri Hátign, eptir gjørdri fyrispurn um: hvort þeir málafylgis-menn er aptur hafa skilad þeirra veitinga-brefum, samt Fullmektugir hjá Embættismønnum, megi koma fyri Sætta-nefndir annara vegna, þannig náqvæmlegar áqvardad: „ad „þared Tilskipanirnar um Sætta-stiptanir, ein„úngis banni fastsettum málafylgis mønnum ad „koma sem Fullmektugum (fyrir Sætta-nefndir) „en ecki ødrum; svo þoli þessi reglunnar undan„tekníng ecki neina útvídkun í hennar útleggíngu; „hvaraf fljóti: ad ádurnefndum persónum megi „ecki frávísa, þá þær hafa fullmakt frá þeim hlut„adeganda málsins, er vegna løglegra hindrana „ecki kann sjálfur ad koma til Sátta- funda.“

Med brefi af 15da Decembr. 1798, hefir þad konúnglega danska Cansellie aptur leyst þannig úr því spursmáli, sem risid er af þessari grein: „Tilskipanirnar af 10da Júli 1795 Kap 5 §. 38 „og 20ta Janúarí 1797 §. 25, einnig Rescr. af „19da Októbr. 1798 ega þannig ad skiljast: ad „Fullmektugum hjá málafylgis-mønnum og Con„tóra þjónum ecki megi leyfast ad koma fram fyri „Sætta-nefndir vegna mála hlutadegenda, sem „eru

§. 26.

Ef einhvørr, sem til sætta er bodid fyrir Forlíkunar-Nefndinni, afsakar sig frá ad koma, eda kémur ecki, né leidir røksemdir til, ad hann hafi løglega hindradur verid, þá skal hann, (samqvæmt og líkt því, sem skipad er í NL. 1—5—7), sem sá, er hryndir sættum, og einkanlega vill þrætu hafa fyri rétti, dæmdur verda til ad borga sínum mótstødumanni málskostnad allann, þá málid verdur fyri dómstóli til lykta leidt. *)

§. 27.

„eru innan þeirra løgsøgu takmarka, er Sætta-„nefndin er yfirskipud."

*) Sama Rescript býdur einnig: „ad allir, sem eru „innan áqvardadra Sætta-nefnda takmarka, „egu án undantekníngar ad vera skyldir til ad „koma persónulega fyri Sætta-nefndina, þá þeir „eru þángad stefndir, nema einhvørr hindradur se „frá því, vegna sannadra og løglegra forfalla; „einnig þegar svo tilber, náqvæmlega til vitundar „gefa þá orsøk, vegna hvørrar hann var neyddur „til ad senda annann mann fyri sig. Ef annar „hlutadegandi kemur fram í egin persónu, og hinn „lærur fulltrúa fara sinna vegna, þá hefir hann, „er sjálfur kom fram, rett til, þá lagasókn byrjud „er, (ef einslegar Sættir ecki hafa ordid fram-„gengar), ad krefja mótpart sinn til ad gjøra „røksemd fyri, ad pad ecki hafi verid honum møgu-„legt

§. 27.

Forlíkunar-giørdir, sem fyrir Nefndinni framfara, skulu ské innan luktra dyra.

C §. 28.

„legt vegna veikleika hans, embættis-, handverks-
„edur húslegra starfa, ad koma siálfur á sátta-fund,
„án þess ad giøra ser andsiáanlegañ og mikiñ skada,
„med því ad undanfella mikilvæga skyldu þá, er
„ecki mátti á fresti skióta. Hvørt afsakanin se gyld
„edur ecki, egu dómendur ad meta, og dæma
„um eptir løgum, sannsýni og málefnis atvikum.
„Nú vill sá hvørki ne kann, er ecki kom á sátta-
„fund, gefa røksemd fyri løglegum fiærvistum sín-
„um, þá hann er til þess krafinn, og skal þá full-
„kominn dómur skylda hann til ad borga mótstødu-
„manni sínum, málssóknar-kostnad eins og áqvard-
„ad er í þeim 39 §. Tilskip. af 10da Júlí 1795,
„og þeim 26ta §. í Tilsk. af 20ta Jan. 1797.„

Ef hvørugur málsegenda kemur siálfur fyrir Sætta-nefndir og sá eini af þeim leidir røk til, þá lagasókn fer fram, ad hann ecki hafi koma kunnad fyri Sætta-nefnd, vegna þvílíkra hindrana, sem ádur er umgetid, þá fær hann sama rett, sem hann eginlega siálfur komid hefdi fyri Sætta-nefnd; þann nefnil ad krefia af sínum mótstødumanni, ad hann leidi røk til þess sama af sinni álfu, edur, ef þau bresta hann, þá ad krefiast ad hann dæmdur verdi til ad borga kostnad málssóknarinnar. Ef annars fielli svo, ad annarhvørr máls-

eg-

§. 28.

Til þess ad hlutadegendur géti fullkomlega reidt sig á Forlíkunar-Nefndanna máls-túlkun, og þeir øruggt og óhræddir gengid fái ad sætta-leitun, svo þrætur þeirra þingdeildalaust verdi útkljádar, skal það vera med øllu bannad, ad géfa vitnisburdi um eda leida vitni til þess, sem af hlutadegendum fyrir Forlíkunar-Nefndinni er vidgengid eda rádgiørt, nema það sé af bádum málsegendum samþyckt, og áhræri einhvør sérleg atridi í sjálfri sættinni. Af þessu flýtur: ad þegar gódmótlegri sætt verdur ecki ákomid, má alls eckért skriflegt géfast af því, sem fyrir Nefndinni gjørdist, heldur á það ómerkilegt og ógyldt ad vera. Þegar þannig vidber, afhendist klaganin aptur þeim,

egenda þæktist geta fært fram þá kjæru, ad Sætta-nefndin, án løgmætra orsaka, hefdi neitad ad taka á móti sínum Svara-manni; þá ber Yfirvaldinu fyrst ad gjøra tilraun til ad þesskonar þrætur leidist eptir samkomulagi til lykta, ádur enn málsókn af þeim reisist. En verdi á þennan hátt ecki framgengt um mála-lok, og laga-sókn taki vid, á málinu umsvifalaust ad stefna fyrir Hærsta-rett. Í þessu tilfelli megu þó Sætta-nefndir vænta ser ad fá máli sínu fylgt kostnadarlaust, og talsmenn ser tilsetta ókeypis, svo þær ecki þurfi ad óttast fyri kostnadi og peninga-tjóni, þegar þær eru neyddar til ad taka málstad vegna sinna egin embættis adgjørda. (Sjá annars §. 29 þessarar Tilskipunar.)

þeim, er kjærdi, med þeirri uppáskrift, ad sættir hafi ecki fengist fyrir Forlikunar-Nefndinni, og málinu sé þess vegna vísad til Réttarins adgjørda. En hafi klaganin einúngis munnleg verid, þá géfst þó sækjanda engu ad sídur skírteini um, ad sætta hafi leitad verid í málinu, en þær ecki fengist.

§. 29.

Hverskallist nockurr i því ad koma á sáttafund, géfur Nefndin þeim komna hlutadegandа skírteini þar um, svo hann géti fært sér þad í nyt, þegar málinu er framfylgt fyrir Dómstólunum.

§. 30.

Verdi málinu kemid til sætta, þá skal sáttmáli sá, med øllum þeim kjørum, sem hann er med gjør, ritast ordrétt í Prótókollinn, med málsegenda nøfnum undir, ef þeir kunna ad rita; skulu þá sáttmálar þessir hafa alla ena sømu verkun og krapt, sem óhneckjandi dómur, er enginn má kjæra, og skulu því á sama hátt fullgyldir gjørast, med þvingandi fjár-upptektum án frekari laga-sókna.

§. 31.

Ahræri málid gjald-krøfu, edur lúkist þad med lofun um peninga útsvørun, þá skal viss gjald-dagi setjast eptir hlutadegenda samkomu-

lagi*). En ef málefni fyrir Sætta-nefnd á-hrærir eitthvørt skyldu-verk, sem gjørast á, t. d. þegar

*) Pad konúnglega danska Cansellíi, hefir med brefi af 11ta Augústi 1798 gefid eptirfylgjandi úrlausn um þetta efni: „Pared sá 44 §. í Tilskipuninni um „Forlíkunar-verkid (í Danmørk) af 10da Júli „1795. ad ø..a leiti gefur þad serhvørjum þeim í „vald, er mál hafa fyrir, og sættast ega, ad á-„qvarda þá tíd, innan hvørrar uppfylla ber þá sætt, „sem gjør var; svo getur enginn efi verid á því, „ad þegar Skuldaheimtu-madur og hinn er skuld „á ad lúka, ern ordnir ásáttir um, ad hinn seinni „megi fá lengri frest, enn eitt ár og 6 vikur ad „borga skuld sína, ad Skuldaheimtu-madur se rett „kominn til ad krefjast umsvifalaust þess uppfyll-„íngar, er á Sátta-fundi var gjørt, þegar sú á-„qvardada tíd er á enda. En gefi þannig sá 44 „§. heimild þeim, er sættast egu, til ad verda á-„sáttir um, ad skuldin skuli ecki borgast af þeim, „er henni á ad lúka, fyrr enn eptir lidid ár og „dag; svo má þad einnig vera hlutadegendum í „sjálfsvaldi ad áqvarda, hvørt skuldin borgast skuli „á vissum tilteknum gjalddøgum frampegis, og þad „jafnvel þó þessi tíma-bil samanlogd, sen lengri „enn ár og dagur; og eptir þessu kann Skulda-„heimtu-madur bædi í því sídarsi nefnda og fyrst „umgetna tilfelli, ad hafa krøfu-rett til, ad þær „gjørdu sættir verdi endurnýjunarlaust fullkomn-„adar. Þó má ecki Skuldaheimtu-madur fresta „fjár-

þegar einhvørr skyldast til vatns-afleidínga, vørdslu-gards hledslu, vega-rudníngs eda þess-háttar, þá skulu ætíd á sætta-fundi áqvardast tilhlýdilegar og nægar bætur, er med kúgun megi þvínga til ad borga, ef því er ecki hlýdt, sem áqvardad er, svo málid verdi ad fullu útkljád og til lykta leidt.

§. 32.

Mál þau øll, sem koma fyrir Forlíkunar-Nefndir, skulu vera útkljád og til lykta leidd inn-



„ fjár-uppteктum fyrir hvørt tíma-bil, sem lidíd er, „ lengur enn ári og degi svari, því annars er naud-„ synlegt, ad endurnýjunar-dómur fenginn se, til „ ad ná þeirri skuld, sem þannig er ofgømul ordin."

Sama Collegium hefir einnig, í úrskurdi af 17da Decembr. 1799 verid þeirrar meiníngar: ad eins og því, er gjørt verdur fyri Sætta-nefndum, þá hann sem skuld á ad gialda, lofar ad borga þá sømu á vissri tíd, er med Tilskip. af 20ta Jan. 1797. gefinn jafn kraptur og gyldi, til fjár-upptekta, sem eptir óhnecktum dómi; svo á einnig med slíkar sættagjørdir ad fara, í tilliti til forrettar og ordu í fjár-upptektum, sem í løgunum um dóma er áqvardad. Þó er skyldt ad kunngjøra þess-konar Sætta-gjørd, þá fyrst er rettur haldinn næst eptir á Varnar-þíngi þess, er skuld á ad lúka, bædi hlutadeigandi rettarins þjónum til athugasemdar, og ødrum, svo þeir ecki sídan geti afsakad sig med því, ad þeim hafi þad ecki verid til vitundar gefid.

innan 4ra vikna, ad reikna frá þeim tíma, sem med þau var byrjad á sætta-fundum. Lengur mega ecki málin dragast, nema bádir málseg-endur séu þar um ásáttir, edur einhvörra røk-semda þurfi hjá vitnum ad leita, og skal þá 2ars Kap. §. 10. c. vera regla sú, er eptir á ad breyta.

§. 33.

Til þess ad gjøra sættir audveldari, og koma þeim á gáng medal Vorra kjæru og trúu þegna, viljum Vèr leyfa, ad allt þad, sem bædi brèflega framleggst fyrir Forlíkunar-Nefndir, gjørist fyrir þeim og þadan útgèfst, megi rita á óstimpladann pappír.

§. 34.

Ef einhvørr sætta-madur hefir sjálfur mál ad kjæra fyrir Nefndinni, edur hann er ein-hvørjum málseganda svo nákominn ad skyldug-leika eda mægdum, sem svari ødrum lid; þá ber honum, í fyrra tilfellinu, ad gánga úr Nefnd-inni, en sè hinu ad gègna, skal hann fyrst spyrja hinn málsegandann: hvørt honum sè til gèds, ad hann, þó skyldugleiki eda mægdir séu hinsvegar, gjøri sér afskipti af sætta-leitun og forlíkun? sè ecki málseganda þetta á móti, má sætta-madurinn halda sessi sínum, þar audveld-lega skè kann, ad hann, sem sannsýnn og góð-ur madur, fái svo heppilega talid um fyrir skyld- edur vensla-menni sínu, ad sættin verdi

fram-

framgeng; en óski ecki kiærandi ad hann sitji kyrr, þá ber honum ad víkja.

§. 35.

Þegar einhvørr sætta=madur ecki má sitja í Forlíkunar=Nefnd, vegna þeirra orsaka, er strax vóru taldar, edur annara løglegra hindrana, skal sá sætta=madur sem eptir er, klára þesshattar einfaldt mál, annadhvørt einsamall, edur ásamt ødrum gódum manni, er hann til þessa velur og tilgreinir.

§. 36.

Þegar Amtmennirnir ferdast um þau Hérød, sem þeim eru afmørkud, skulu þeir láta Forlíkunar=Prótókolla fyri sig leggja, og med athygli skoda þá, sámt rita í þá sømu, ad þeir séu þeim framvísadir.

§. 37.

Vid enda sérhvørs árs, skulu Forlíkunar=Nefndirnar senda hlutadeganda Amtmanni Upptalníngu þeirra mála, sem fyrir Forlíkunar=Nefndina komid hafa á því ári, og undir eins skíra frá, hvør af þeim séu forlíkud og hvørjum frávísad til réttargángs, edur á frest skotid af Forlíkunar=Nefndinni *). Skírslur þessar skulu



*) Med brefi frá því konúnglega danska Cansellii af 19da Janúarí 1799 er þess óskad: ad Stiptamtmadur skipi serhvørri Sætta=nefnd í hans Amti, ad

skulu sídan, ádur enn nærsta árs Januari mánudur endar, sendast Voru danska Cancellíi, hvørs skylda þad skal vera, ad leggja þær enar sömu fram fyrir Oss, svo ad Vèr Sjálfir gètum dæmt um, hvørt gagn þessi Vor nýtsama Lagasetníng hefir verkad, og jafnframt ad álitum giørt, hvørt einn edur annar hefir í þessu tilliti sèrílagi styrkt til framqvæmdar þessa góð-verks med alúd og kostgæfni.

§. 38.

Í þeim málum øllum, er einhvør bidur um fátæktar-styrk, edur kostnadarlausann rèttargáng (Beneficium paupertatis edur Processus gratuiti), á Yfirvaldid ætíd ad fá skirslu frá Forlíkunar-Nefndinni um, hvørt sá er sækir, hefir audsýnt sig viljugann til ad sættast einslega á málid á sanngjarnann hátt, edur ecki. Þessi skirsla á ad fylgia Yfirvaldsins áliti um bónar-brèfid, svo hennar verdi gád, þegar því er ad fullu svarad, því annars er þad á móti Vorum vilja, ad þrætu-giørnum mønnum skuli veitast þesshàttar vel-giørníngar.

§. 39.

ad gefa hlutadegandi Sóknar-prestum, ad hvørju ári endudu, vitnisburd um: hve miklar bætur fátækra Fehyrdslu hlotnast hafi í Sætta-nefnd hvørri, og ega þá þessir vitnisburdir ad fylgja med þeim reikníngi, er Sókna-prestar skulu árlega gjera fyrir tekjum fátækra manna í sveitinni.

§. 39.

Þegar einhvørr Sætta-madur hefir í 8 ár þjónad embætti sínu med fastri ástundun og rádvendni, viljum Vér audkénna hann, sem dugandis mann, annadhvørt med upphafníngu til vidurqvæmilegrar metorda-trøppu, edur sæma hann med ødru virdíngar merki.

§. 40.

Annars á Forlíkunar-Nefndinni, og þeim, er ritar í Prótókollinn, ad borgast af kjærauda, 40 skildíngar fyrir ómak þeirra, og 24 skildíngar af þeim, sem fyri søk er hafdur, hvør laun þó einúngis egu ad greidast þá málid verdur med forlíkun til lykta leidt, en annars ecki. Sá þridji hluti þessara launa, fellur þeim af Sættamønnunum í skaut, er tekur ad sér ad rita í Prótókollinn. Ef einhvørr hlutadegenda er svo efna-lítill, ad hann ecki gétur borgad þetta gjald, þá megu þó sættir þess vegna ecki hindrast. Annars er sjálfsagt, ad þad einnig í sættaleitun kann ad áqvardast, sem eitt af forlíkunar-kjørum, ef annarhvørr hlutadegenda býdst til ad borga þann umgétna kostnad.

§. 41.

Ef Sætta-menn naudsynlega þurfa ad ferdast til þess stadar hvar Nefndin á ad verda, þá skal reisu-kostnadur þeirra jafnast til útborgunar af Amtsins innbyggendum, ásamt

ødrum þeim útgiftum, er á almennanu kostu-
ad gialdast ega. A sama hátt skal þad einn-
ig jafnast til út-borgunar, er Nefndin þarf
ad kosta uppá sínar Gjørda-bækur.

§. 42.

Af þessari Tilskipun skal nægilegur fjøldi
útskiptast á millum almúgans á landinu, svo
hvørr og einn gèti fengid hèr um fullkomna
ávísun.

§. 43.

Ad sídustu bjódum Vèr: ad Amtmenn
Vorir skulu tafarlaust, hvørr í sínu Amti,
gjøra þessa Vora lagasetníngu gyldandi, og
eptir þad reglugjørdinni er niðurskipad á sèr-
hvørjum stad, og hún er komin í brúkun, ega
þeir allra-undirgéfnast ad géfa Oss þad til
vitundar.



Til-

# Tilskipan
áhrærandi
# Veitínga- og Leyfis-Bréf.

Kaupmannahøfn, þann 23ia Maí 1800.

Vér Christján hinn Sjøundi, af Guds Náð Konúngur, etc.

Gjørum kunnugt: ad vegna þess Vér óaflátanlega óskum og viljum gjera sérhvørja byrdi léttari, fyrir Vora kjæru og trúu þegna, ad svo miklu leiti, sem møgulegleiki og kríngumstædur leyfa; svo hefum Vér einnig, med tilliti til þessa augnamids, gjørt ad álitum: ad þau Veitínga- og Leyfis-Bréf, er útgéfast af Voru danska Cansellií, optlega eru ollandi þeim, sem beidast þeirra (einkum í fjarlægum stødum), bædi tíma-spillirs og ecki lítils kostnadar søkum bréfburdar-gjalds, stimplads pappírs, borgunar til bónbréfana ritara og þeirra, er koma skulu þeim á framfæri, med fleiru þar ad lútandi, hvøru kostnad fátækir menn verda einnig fram ad leggja, þótt Vér géfum þeim upp, ørbyrgdar vegna, þad, er gjaldast á til Vorrar Féhyrdslu.

Þegar Vér nú snúum athygli Vorri til þessa efnis, og yfirvegum þau medøl, fyrir hvør

Vor

Vor umgètni lands-fødurlegi tilgángur nást kynni, høfum Vèr ecki látid í vegi standa, þótt þad sé Féhyrdslu Vorri til skada: 1) ad aftaka sum Veitinga-brèf, er oss þykja mest þyngja á Vorum fátæku undirsátum; 2) ad léna Yfirvøldunum myndugleika til ad útbýta ødrum, og 3) ad trúa þessum Embættis-mønnum fyrir, ad láta beidendur fá nockur af þeim Veitinga-brèfum, er útgèfast med Voru ásettu signeti, og samqvæmt þeim reglum, er Vèr í þessu tilliti høfum gjert fyrir hlutadegendur. Vor áqvárdan og skipan um þetta efni er, sem fylgir:

## 1. Grein.

### Hvør þau Veitinga-brèf séu, sem nú eru úrfelld og ónaudsynleg metin.

§. 1.

Giptingar millum Skyldra og Vensladra, í þeim lidum, er Tilskip. af 14da Decembr. 1775 í 2rum §. tiltekur ad leyfilegar séu, megu hédan af framfara, án þess ad hlutadegendur þurfi í því tilliti, ad sækja um Veitinga-brèf; þar á móti skulu giptingar øldúngis forbodnar vera í jefnum upp- og nidur-stígandi Skyldugleiks- og Vensla-lidum, samt í sídu-linunnar fyrsta lid; þared samlag slíkra persóna er blódskømm, vid hvørt óbótamál liftjón er lagt. Til varúdar einum og sérhvørjum, og til þess ad einginn skuli sekum vanþeckíngar falla í þvílík stórbrota-mál, ítrek-

ítrekast hérmed alvarlega Laganna forbod móti giptíngum og samlagi øllu millum foreldra og þeirra barna, stjúp-foreldra og stjúp-barna, tengda-foreldris- og tengda-barna, einnig fortakslaust, millum nidja hvørs og eins þessara í nidurstígandi lidum, sem og millum systkyna. Í tilliti til giptínga med bródur-, fødur-bródur og módur-bródur ekkju, þá mega þær ecki leysast, nema Vér sjálfir géfum til þess einkanlegt Veitíngar-bréf.

§. 2.

Þared þad, eptir løgum, er Fjárhalds-manna skylda, ad hafa gætur á fjármunum þeirra, er þeir ega fyrir ad sjá; svo skal einnig Yfir-valdid, þá Fjárhaldsmadur beidist, ad arfur þess, er hann hefir fjárhald fyri, flytjast megi frá ann-ari løgsókn til þeirrar í hvørri hann sjálfur býr, vera skyldugt til, med Krøfu-bréfi til Yfirvalds-ins á þeim stad, hvar arfurinn tæmdist, ad sjá til þess ad arfa-hlutinn komi í vørdslur Yfirfjár-haldsmanna á þeim stad, hvar Fjárhaldsmadur er vistferlum. Af þessu flýtur: ad Veitinga-bréf til þess ad mega flytja arf, ecki eru naud-synleg í ádur umgétnu tilfelli.

§. 3.

Vér viljum framvegis hlífa þeim, er falla í legords-mál, fyrir ad kaupa þau, med Tilskip. af 8da Júní 1767, áqvørdudu Veitínga-bréf, um fríun frá ad neyta vatns og brauds, í stad þeirra opinberu skripta-mála, sem med ádur um-gétinni Tilskip. eru aftekin.

§. 4.

Veitinga-bréf fyrir Eckjumenn og Eckjur, ad mega giptast á ný, fyrr enn sú, í Tilskip. af 14da Aprílis 1752, tiltekna tíd frá ektamakans dauda-degi, er umlidin, skulu einnig ónaudsynleg álítast; en þar þad er gódri sidsemi mótstrídandi, ad kona nockur á þeirri tíd, sem hún þúngud er eptir mann sinn dardann, gipti sig ødrum; svo skal þad ecki leyfast nockurri Eckju, sem á þeim aldri er, ad hún vera kynni svo ásigkomin, ad inngánga nýtt hjónaband, fyrr enn ad lidnum 9 mánudum frá þeim tíma hennar Ektamaki deydi, nema dúglegur læknir eda reynd yfirsetukona stadfesti þad, ad hún ecki sé med barni á þeirri tíd, er hún giptir sig.

## 2. Grein.

Hvør Veitinga-bréf hér eptir megi gefa af Kaupmannahafnar Borgarrádi, og á ødrum stødum af hlutadegandi Stipt- og Amt-mønnum.

§. 5.

Leyfis-bréf fyrir Ektahjón ad skilja sæng og samneyti, þá þau ecki med sátta-leitun verda forlíkud, og fengin til ad lifa saman hvørt med ødru í eindrægni.

§. 6.

Leyfis-bréf til ad borga svo mikid út af ómyndugra arfahluta, sem þarf til uppfósturs

þeim, edur þeirra gagnsmuna á annan hátt; þó med þeim kjørum, ad bædi Fjárhalds-menn og þeir, sem yfir þá eru settir, séu samþyckir i, ad þad, sem þannig er leyft ad borga, midi til sannarlegs ágóda edur nytsemda fyri þann, sem féd á; en séu þeir ecki einungir hér um, á þad málefni, med øllum þess atvikum, ad túlka fyri Cancelliinu til fullkominna adgjørda.

§. 7.

Leyfis-bréf fyri qvennfólk, ad sauma qvennfatnad; þessi bjargrædis hjálp á einkum ad veitast eckjum, sem eru þurfandi, og ad líferni sidsamar.

§. 8.

Leyfis-bréf til ad selja kinesiskann og austindía varning i Kaupstødum, eptir þeim áqvørdunum, sem innfærdar eru i þau Leyfis-bréf, sem um þetta efni hafa ádur gefin verid af Cancelliinu.

§. 9.

Veitinga-bréf um ad méga erfida med eigin høndum i handverkum, sem frjálsir meistarar. Þesshattar bréf, mega géfast duglegum og rádvøndum sveinum, einkum þeim, sem giptir eru, og hafa fyri børnum ad sjá; þó má þetta ecki veitast þeim, nema þeir ádur hafi þjónad sem sveinar ad minsta kosti i 4 ár.

§. 10.

§. 10.

Leyfis-bréf ad mega baka og selia Rúg-braud, med þeim kjørum, ad hafa ætíd vissann vidurqvæmilegann forda af Rúgi fyrirliggiandi, bæarmønnum til atvinnu, og skal Yfirvaldid áqvarda, hve mikill þessi fordi vera egi.

Eckert þeirra Veitingar-bréfa, sem um er gétid í þessari grein, þurfa hlutadegendur ad borga, nema þau sem til eru tekin í þeim 8 §. er kaupast skulu, eptir sidveniu, med 11 rd. 93 ß. er borgast sem inngiald til þeirrar konúnglegu Féhyrdslu.

## 3. Grein.

Þau konúnglegu Veitinga-bréf og erindagjørdir, sem á hønd eru faldar Borgar-rádinu í Kaupmannahøfn, samt Stipt- og Amt-mønnum, til ad afhendast hlutadegendum.

§. 11.

Greftrunar-bréf.

§. 12.

Veitínga-bréf um endurnýiadann krapt undir-réttar dóma og adgjørda, þegar þess er beidst innan 3ja árá, ad reikna frá þeim degi, sem dómurinn eda álynktanin fallin eru.

§. 13.

Veitinga-bréf, til ad mega bréflega innkalla skuldaheimtu-menn í sterfbúum, uppbods- og fallit-búum.

§. 14.

Leyfis-bréf fyrir eckjumenn og eckjur ad mega halda óskiptu búi, ásamt børnum þeim, er þau hafa saman átt, og ecki eru komin til lög-aldurs.

§. 15.

Samanvígslu-bréf, med hverjum leyfi gêfst, ad hjóna-vígsla megi framfara í heima-húsum.

§ 16.

Leyfis-bréf ad mega samanvígjast af óvidkomanda Presti.

§. 17.

Testamentis-gjørda Stadfestíngar fyrir þá, er Testament gjøra *), og engin børn edur lífs-erfingja ega.

D Vér

*) Vid Testamenti og þessháttar brefmála er athugandi ens danska Cancelliis Auglýsing, af 23ja Januari 1789, sem býdur: „ad hvørr og „einn, er til konúnglegrar stadfestingar innsendir „Testamenti, Ektaskapar skilmála, Maka- „skipta-bref og þesskonar gjørninga, skuli láta „medfylgja ordretta danska útleggingu þeirra, af „hlut-

Vér hefum annars gefid ádur-nefndum Vorum Embættis-mønnum (til hvørra hlutadegendur framvegis mega leita med bóna-bréf sín um þær veitingar; hvørra getid er í þessari grein) náqvæmar og fastar reglur um þau tilfelli, þá Vér, ad yfirvegadri beidendanna fátækt, viljum annadhvørt veita þeim linun í borguninni, edur fullkomna eptirgjøf hinnar sømu, eins og Vér líka bodid høfum, ad þad, sem Vorri Féhyrdslu ber af borgun fyrir þessskonar Veitinga- og Leyfis-bref, skal ritast á þau af Cansellíisins Féhyrdir, bædi med tølu og bók-støfum, ad sérhvørr gæti verid fullviss um, ad hann ecki hafi meira borgad enn honum med réttu bar.

„hlutadegendum undirskrifada, sem ásamt bóna„brefunum geymast í Cansellíinu til eptirsjónar, „ef vidþarf, en adalbrefin sendast, ásamt stadfest„íngunni, eignar-mønnum þeirra til baka aptur."



Til-

# Tilskipan

um

## Vitna-stefnur og þeirra ítrekanir, Fallsmáls-bætur og Vitna afheyrslu, etc.

Kaupmannahøfn, þann 3ja Martsí 1741.

Vér Christján hinn Sjötti, af Guds Nád Konúngur, etc.

Gjørum øllum kunnugt: ad Vér med sérlegri misþócknun, høfum ordid varir vid, hvørsu vitna-sakir vid suma Rétti í Voru Kóngs-ríki Danmørku og Norvegi skulu standa ó-útkljádar í lánga tíma, og þaradauki ýmislegar óreglur ské vid afheyrslu vitnanna á stundum, søkum vitnanna þrjótsku í ad mæta eptir stefnunum, líka og vegna stefnandanna egin forsómunar, og stundum vegna partanna og þeirra Fullmektugra frekju og óassakanlegs athæfis, er opt skal hafa æfst og vidgengist réttinum til hneckirs; því høfum Vér, til ad hindra og aftaka þesshattar ósæmilega Réttar-tálmun og misbrúkun, allranádugast álitid naudsynlegt hér um ad bjóda og tilskipa þannig, sem eptirfylgir:

§. 1.

Uppá þad, ad hvørr og einn, sem til vitnisburdar stefnist, viti, ad þad er hans sønn skylda, ad segja hvad hann veit, þegar hann er til þess krafinn, undir þad í Løgunum áqvardada straff, sem og til þess, ad enginn géti afsakad sig med því, ad hann hafi ecki undir Laganna straff verid stefndur, né heldur Dómararnir fái skotid því fyrir, ad þeir ecki kunni dæma þad, hvar uppá ecki sé stefnt; þá viljum Vér allranádugast: ad allar Stefnur til vitnisburdar, hvørtheldur þær eru skriflegar edur munnlegar, skuli med berum ordum tiltaka, ad þau stefndu vitni, í hvørri helst stétt og standi, sem þau vera kynnu, innkallist undir Fallsmáls-bætur. Þetta skulu Dómararnir nákvæmlega adgæta bædi vid stefnanna útgéfningu, þegar þær veitast af Réttinum, og eins vid þeirra vidtøku, þegar þær koma í rétt; og skyldi þad seinnameir henda, ad nockur stefna til vitnisburdar kjæmi fyrir rétt, í hvørja þetta atridi vantadi, þá skal Dómarinn strax vera skyldugur, án frekari málalengíngar, ad frávísa þvílíkri stefnu uppá saksóknarans kostnad.

§. 2.

Þegar vitnin eru þannig, undir Fallsmáls-bætur stefnd, og þó annadhvørt øll eda nockur ecki mæta, án þess ad géfa til vitundar sínar løglegar hindranir, og þarmed audsýna Réttinum tilbærilega hlýdni, þá skal Dómarinn áqvard-

qvarda þeim ókomnu vitnum vissann tíma til ad mæta undir Fallsmáls-straff, og skal sá, sem stefnt hefur, tafarlaust taka þessa áqvørdun skriflega, sjá til ad hún verdi løglega birt og réttinum afhendt á tilteknum tíma. En gefi þad vitni, sem ecki mætir, sín forføll til kynna, og þannig gegni stefnunni, þá skal Dómarinn meta þessa forfalls gyldugleika og skjóta málinn á frest til løglegs tíma, þá vitnid er skyldugt undir Fallsmáls-bætur ad mæta.

§. 3.

Ef þeir málspartar eda Fullmektugir, sem hafa stefnt til vitnisburdar, forsóma ad taka strax skriflega ítrekunar stefnu og hana í tækann tíma løglega birta fyrir vitnunum, sem ecki mættu, þá skulu þeir, fyrir þessa forsómun borga 2 lód sylfurs til Jústits-kassans, ádur enn þeim megi veitast nýtt fyrirkall, hid sama gyldir og, þótt þeim kynni hafa verid allranádugast veitt Beneficium paupertatis (fátæktar lidsinni) ellegar þeir, eptir skipun, ættu ad sækja misgjørnings edur adra søk.

§. 4.

Mæti vitnid, sem þannig bædi med stefnunni og hennar ítrekun er advarad um sínar Fallsmáls-bætur, enn þá ecki á tilteknum tíma, þá skal Dómarinn án allrar hjáhlidrunar edur undandráttar strax á þinginu dæma þad ókomna

vitni fyrir þeſs þrjótſku og óhlýdni gégn Réttinum til ad borga Fallsmálid, Sakſóknaranum og Kónginum med 10 lódum ſylfurs hvørjum, og þó engu ad ſídur vera ſkyldugt til, undir ſama ſtraff, ad mæta næſta þingdag, ſem því fyrirleggſt.

§. 5.

Þeſſar Fallsmáls-bóta ályktanir med þarí innifølduum ſtefnu-ítrekunum, ſkal ſá, ſem ſtefnt hefir, ecki einúngis án undandráttar fá útſkrifadar og auglýſtar og þar eptir framlagdar í Réttinn á áqvedinni tíd, undir þad ſtraff, ſem §. 3. umgétur, heldur ſkal hann og láta Vora Fógeta eda rétta vidkomendur, út-taka bæturnar; en forſómi hann þad, þá ſkal hann fyrir ſína hjáhlidrun borga til Júſtits-kaſſans 2 lód ſylfurs, og þaradauki vera Oſs anſvarlegur fyrir þeim hluta bótanna, er Oſs bar, ſvo framt hann, søkum óløglegs undandráttar, ſkyldi tapaſt. Þeſs vegna er þad einnig Vor allranádugaſta ſkipan: ad Vórir Fógetar og ødrir vidkomendur ſkuli ſtrax ſem óſkad er, jafnvel án undangángandi auglýſíngar, úttaka hjá þeim ſeku þeſsháttar fallsmáls-bætur, nema því ad eins ad yfir-réttarins ſtefna þar uppá framvíſiſt.

§. 6.

Til þeſs ad Vor alvarlegi tilgángur, um þverbrotinna vitna þvíngun, géti til hlítar nád ſínu verkun, þá viljum Vér allranádugaſt ad

med

med øll vitni, sem af mótþróa hafa ecki mætt, en hefir þó verid løglega stefnt; skuli verda farid á ádursagdann hátt, uns þau audsýna Oss og Vorum løgum þá tilbærilegu og skyldugu hlýdni, hvad yfir-réttirnir skulu náqvæmlega adgæta í dómum sínum, svo opt nockurr falls-máls úrskurdur verdur undir þá stefndur; en ef svo kynni til ad bera ad nockurt þverúdar-fullt vitni hefdi med óløglegum undanbrøgdum edur og ógrundadri Appellatsión, svo lengi dregid tímann, ad adal-málid, í hvørju þess vitnisburdar var leitad, yrdi fyrir adra upplýsingu á enda kliád, og hans vitnis þyrfti ecki framar; þá skal Dómarinn fyrir þvílíka hans vjelafulla þrjótsku og Vorra laga forakt, uppáleggja honum tøluverdt peninga-straff, til gudlegrar brúkunar og til Júst:ts-kassans, eptir stétt hans, formegun og málavøxtum.

§. 7.

Ef sá, sem hefir stefnt eda fengid itrekunar-stefnu, hvørtheldur þad er adal-málspartur eda fullmektugur, mætir ecki sjálfur edur lætur mæta í áqvedinn tíma, er málid á ad fyrirtakast, þá skal hann fyrir útivist sína borga 2 lód sylfurs til Júst:ts-kassans, og eins mikid til hvørs af þeim stefndu vitnum, sem mætir, hvørjar bætur skulu umsvifalaust út-takast. Vilji saksóknarinn enga ad sídur áfram halda med vitnaleidslu, ber honum þar til ad útvega nýja itrekunar-stefnu.

§. 8.

Þegar stefnandinn, sökum löglegra forfalla, ecki gétur sjálfur mætt edur látid yfirheyra þau stefndu vitni á áqvednum tíma, og honum þess vegna er frestur géfinn, þá skal Dómarinn tilhalda honum á eginn kostnad löglega ad birta bædi vitnum og málsparti þann tiltekna þingdag, nema því ad eins, ad þeir séu til stadar á þinginu, og þess vegna um frestinn fullkunnugt.

§ 9.

Bidur nockurr um frest í einhvörri Adalsök, til ad leida vitni, þá má honum af Dómaranum eptir sannsyni og hlutanna kríngumstædum géfast svo lángur frestur, ad hann hæglega géti vitnin yfirheyrt og fengid þingsvitnid útskrifad; þegar sá áqvardadi þíng-dagur kémur, ber þeim, sem þingfresturinn var veittur, annadhvört ad framleggja þad tekna þingsvitni, ellegar og skírteini frá þeim Rétti, hvar vitnin áttu ad leidast, ad þad ecki hafi verid mögulegt á þeim géfna tíma ad útvega þingsvitnid, ennþótt hann hafi varid allri kostgæfni þar til; og í þessu tilfelli má og á fresturinn ad lengjast af Dómaranum; en ef ad sakfóknarinn á þeim tiltekna þing-degi ecki framleggur þad tilætlada þingsvitni, ellegar skírteini um orsökina til þess undandráttar, þá sé haldid áfram med Adalsökina, eins og ad aldrei hefdi verid neinn frestur kjörinn eda veittur. Finnist þad og ad

nock-

nockurr málsegandi eda Fullmektugur hafi beidst þíngfrests, einúngis til málalengíngar og mótpartinum til kostnadar, þá ber Dómaranum, þegar til adqvæda kémur, ad dæma bædi málseganda og hans umbods-mann, ecki einúngis í sektir, heldur og til ad bæta mótpartinum allann þar af orsakadann kostnad og skada. *)

§. 10.

Þegar málspartar eda Fullmektugir finnast ad hafa med óþarfa vífileingjum edur króka-legum dregid vitnaleidslu edur ómakad Dómarann med ónaudsynlegum úrskurdum, ellegar og, eptir gjørda advørun, haldid áfram med ein og ønnur, málinu óvidkomandi spursmál, skal þess í adal-dóminum minnst verda, og þeir dæmdir í tilbærilegar sektir, eptir málavøxtum.

§. 11.

Þegar vitni skulu leidast, þá er þad undir saksóknarans kjørum komid, hvørt hann kýs heldur ad vitnid sjálft skuli skíra frá, hvad því um søkina er kunnugt, ellegar hann vill med spurníngum ná vitnisins svari; hvørt sem hann heldur útvelur, þá skal vitnid einúngis tala til Réttarins og fyrir honum, og má enginn, hvørki málsegendur, þeirra Fullmektugir, né adrir, hvørr sem vera kynni, tala frammí, eda glepja fyrir á medan vitnid talar, enn sídur leggja því ord í munn, afbaka þess fram-



*) Sjá Tilskipun af 3ja Júni 1796 Kap. 3 §. 10.

burd, eda leitast vid ad fá hann ødruvísi innfærdann í þíngbókina, heldur enn vitnisins eginleg ord og meiníng hefir verid; ecki heldur má sá spyrjandi laga þannig spursmálid, ad því einu verdi svarad, er hann vill, heldur skal Dómarinn einúngis vera sá, er vitnid á málstad vid, og til hvørs vidkemendur ega ad halda sig, ef þeir hafa nockud ad ámálga vid vitnisins framburd. Hvada spursmál sem annarhvørr parturinn hefir til vitnisins ad framsetja, skulu þau med Dómarans leyfi af skrifaranum innfærast í þíngbókina, og móttekur Dómarinn sjálfur, en enginn annar, vitnisins svari þaruppá, eptir ad þad er því skírlega lesid af þíngbókinni, og lætur Dómarinn Skrifarann innfæra vitnisins svar, sem svo les því þad; þar vitnid sjálft á ad segja til, hvørt þad í sínum ordum og meiníngu réttilega er bókfett, og ef ad nockur umbreyting edur vidbót skér þarvid, þá á hún sömuleidis rétt ad tilfærast þíngbókinni.

§. 12.

Finni nockurr af pørtunum naudsynlegt tilefni af vitnanna svørum til ad gjøra ytrari spursmál, þá sé farid med þad á sama hátt og eptir Dómarans tillátsemi.

§. 13.

Finni Dómarinn nockurt vitni óstødugt í sínum framburdi, þá á hann ad advara vitnid um þad med hæglæti, og gefa því tíd til

ad

ad hugsa sig vel um, einkum ef þad skér af einfeldni og skilníngsleysi um spursmálsins eginlegu merkingu, og í þessu tilfelli á Dómarinn ad framsetja og laga þannig spursmálid, ad þess rétta meining sé vel skiljanleg, svo ad vitnid ecki trublist.

§. 14.

Enginn partur eda Fullmektugur né adrir vid Rétti nálægir mega dyrfast, án þess Dómarinn gefi þartil leyfi, ad tala vid þau stefndu vitni, eptir ad Rétturinn er settur, og á medan hann er haldinn, enn sídur freista vitnanna, hvad þau muni bera, edur leggja þeim ord í munn, heldur skal sérhverr, sem vid Réttinn er nálægur, med allri virdíngu vera fámálugur, stilltur, og eckért annad tala enn þad, er hann hefir til þingbókar ad láta færa. Breyti nockurr hér á móti, þá skal Dómarinn láta setja nafn hans í þingbókina, med alvarlegri áminníngu, ad heidra Kóngsins Rétt; haldi hann engu ad sídur áfram í þessari vanskickun, þá, ef hún er framin af málsparti edur fullmektugum, skal Dómarinn áqvarda honum ad gjalda 2 lód sylfurs til Júštits-kassans, en í annad sinn tvøfaldt, og skulu þessar bætur lúkast þegar á þinginn, annars hafi Dómarinn makt til ad láta grípa hinn seka og setja í vardhald þángad til hann borgar. Skédur þad optar og af þvermódsku, þá fellist hann í tøluverdari bætur, edur uppáleggist annad

straff,

straff, eptir stétt hans og ástandi og yfirsjónarinnar ásigkomulagi; en sé þesskonar ósæmilegt framferdi framid af einhvørjum óvidkomandi, sem vid réttinn er nálægur, en hefir þó enga hlutdeild í málinu, þá hefir Dómarinn myndugleika til, svo framarlega sem hinn ecki gégnir þeirri fyrstu advørun, ad reka hann út frá réttinum, og ef hann lætur ecki ad því, þá ad láta draga hann út.

Eptir þessu viti einn og sérhvørr, auk þess, sem hér um í løgunum er fyrirskrifad, allraundirgéfnast ad hegda sér.



# Tilskipan

um

## Fé=sekta útlag eptir Dómi og líkamlegt straff fyrir hinn sakfallna, þegar hann er gjald=þrota.

Kaupmannahøfn, þann 6ta Decembr. 1743.

Vér Christján hinn Sjötti, af Guds Náð Konúngur, etc.

Gjørum øllum kunnugt: ad þared Vér høfum ordid varir vid, ad þær lítilvægu og eptir hvers manns kjørum lempudu fé=sektir, sem løgin hafa lagt vid ymsar yfirsjónir, ecki medfæra þá nytsemi, er þau tilmida, nefnilega: þolanlega refsingu fyrir þá brotlegu, og þaraf eptirvænta betrun þeirra, en ødrum til vareygdar, ad þeir ecki falli í þvílík misbrot, søkum þess, ad eptir þeim løgsettu bótum er ecki svo ørduglega gengid, sem ber, veldur því opt fávísleg medaumkan, afskiptaleysi, edur og sérplægni, svo ad misverk verda opt látin óstrøffud, og løgin, þeim til mikillar vanvyrdu, yfirtrodin og brotin, hvar vid og bætist, ad vidkomendur eru einatt í efa um, hvers þeir skuli krefja,

krefja, í þeim tilfellum, hvar lögin ecki áqvarda né nafngreina neina vissa upphæd á bótunum; þá, til þess ad lögin megi haldast í tilbærilegum heidri, og ad þeirra tilgángi, med bóta álögur, sem verka ega undirsátanna betrun, eptir mögulegleikum verdi nád, hefum Vér álitid naudsynlegt ad bjóda og tilskipa um fé-sektir og þeirra útlag þannig, sem eptirfylgir:

§. 1.

Þegar einhverr hér eptir verdur, fyrir framin afbrot, dæmdur í bætur eda peninga útlát, vid hvern hellst Rétt, fyrir hverja yfirsjón, eda til hverrar brúkunar sem er, þá skúlu Dómararnir tilhalda skrifurunum, ad þeir strax fyrir Réttinum, og ádur enn honum er uppsagt, teikni í þingbókina: nafn, embætti og bústad edur heimili hins dæmda, hvada bætur hann er felldur í, og til hverrar brúkunar þær eru lagdar í dóminum; og skúlu skrifararnir vid hvers mánadar enda senda Stiptamtmönnunum í þeim skatt-löndum, hvar dómurinn er uppsagdur, ellegar og til Vors Borgmeistara og Ráds í Vorum konúnglega Adseturs-stad Kaupmannahöfn, svo framt sá dæmdi, (úr hverju helst umdæmi sem hann er) uppiheldur sér þar, ordrétta útskrift af því, sem í þingbókina var teiknad, hvar med skal fylgja tvöföld útskrift, á óstimpludum pappír, af þeirri í málinu föllnu dómsályktun; og svo ad Stiptamtmennirnir géti haft því skilmerkilegri skirslu, hverjar og hvad mikl-

viklar bætur séu tilfallnar, þá skulu skrifararnir þaradauki við enda sérhvørs árs, senda þeim ágrip af þingbókunum yfir þær á því ári dæmdu bætur; en í þeim løndum hvar fleiri Stiptamtmenn eru enn einn, svosem í Nordur-Jótlandi og í Norvegi, sendast þesskonar skirslur og útskriftir einungis þeim Stiptamtmanni, í hvørs umdæmi sá dæmdi á heima. Við þá Rétti, hvar enginn tilskickadur skrifari er, svo sem við Nefndir (Commissíónir), annast Dómararnir sjálfir það, sem skrifurunum er almennilega uppálagt. Skyldi einhvørr þingskrifari forsóma ad senda Stiptamtmanni þær tilskipudu mánadar eda árs útskriftir og skirslur, svo ad nockrar bætur fyrir þá skuld verda óinnkalladar, þá stendur sami skrifari í ábyrgd fyrir þær, en eigi þó adgáng ad þeim, er bæta áttu.

§ 2.

Þegar Stiptamtmennirnir hafa þannig fengid vitneskju um, hvørjar bætur fallnar eru, skulu þeir tafarlaust senda hana hlutadeigandi Amtmønnum, undir hvørra umdæmi þeir sakføllnu finnast; en Amtmennirnir skipa sinum undirhafandi Fógetum án dvalar uppá løglegann máta, og þannig, sem þeir ætla ad svara fyrir, ad innkrefja þær, ad því leiti Oss Sjálfum ber, eda til almennings gagns er lagt, svosem: til Jústits-kassans, vors Frelsara Kirkju, Barna-húsins eda annarar gudlegrar stiptunar, því á Fógetanum og ad sendast ennur

ur afskrift dómsslúttníngarinnar, sem skrifarinn hafdi sendt Stiptamtmanni. Hid sama hafa og Stiptamtmennirnir ad annast í þeirra Dæmum, en skyldi sá seki ecki eiga heima í því Amti edur Stipti, hvar dómurinn féll, þá skipast Fógeta þess stadar, hvar hann á heima, ad framfylgja dóminum, hvar til allir Vorir þénarar af borgaralegu og strids-standinu, sem nockur yfir-rád eru tiltrúud, skyldast ad hjálpa honum, þegar þess er óskad.

§. 3.

Sá Fógeti, som af sínum yfirbodna Amtmanni eda Stiptamtmanni er skickadur til ad innkrefja fé-sektir eptir dómi, skal án forsómunar rækja embætti sitt eptir lögum, og útleggja af hins seka bái svo mikid, sem þarf til bótanna lúkníngar, er hann ad svo búnu tekur til geymslu, þó svo, ad hinn seki egi kost á ad innleysa þá til borgunar útlögdu hluti, innan 4ra vikna; verdi þeir ecki innan þess tíma leystir, lætur Fógetinn halda á þeim opinbert uppbod, til ad verja þeim í peninga, hvørja hann strax sendir á nærstu Amtstofu, sem þar, án ytrari skipunar, skulu móttakast og færast til inntektar móti tvøfaldri qvitteríngu, af hvørri Fógetinn geymir þá einu, en sendir hina til þess Amtmanns eda Stiptamtmanns, sem adførina hefir skipad. Verdi vid uppbodid meira úr því, sem útlagt var hjá þeim seka, á Fógetinn ad skila honum afgánginum á móti hans qvittansíu.

§. 4.

§. 4.

Fógetanum, sem útlagid giørir, skál einnúg leyft vera ad útleggja um leid til handa sjálfum sér, af búi hins seka, naudsynleganu og sanngjarnann kostnad fyrir adførina, og skal hlutadegandi Amtmadur eda Stiptamtmadur skéra úr ákjærum þeim, er þar af kynnu rísa, án frekara dóms; en svo ad hinir seku mæti ecki ofþúngum kostnadi, né á móti vilja sínum sæti fjár=upptektum, þá sé þeim leyft sjálfum ad borga bætur sínar í Amtstofuna, hvørjum þar skal vidtaka veitast, og fyrir þær tvøføld qvittánzía útgéfast borgunarlaust, sem þeir sídan ega ad afhenda Fógetanum, er fer med hana eins og hér í §. 3. er skipad. Á sama hátt er þad sérhvørjum leyfilegt, sem fyrir yfirrétti ætlar ad áfríia afsagdann dóm, ad leggja til geymslu í Amtstofuna þær dæmdu bætur, uns málinu er lokid, og skal honum þá, auk ádurnéfndrar tvøfaldrar qvittánzíu, géfast geymslu skirteini, eptir hvørju honum, svo framt hann frikénnist af yfir=réttinum, gjald þetta apturskilast úr Amtstofunni, eptir Amtmannsins tilhlutun.

§. 5.

Þegar hinn seki hefir þannig, med borgun eda geymslu=setning, giørt Fógetanum skil fyrir bótunum, þá skal þessi, ef beidst er, géfa honum ordrétta afskrift af dómi þeim, eptir hvørjum borgun, geymslu=setning eda útlog er

skéd, og nedan á hana skrifa sína qvittanzíu, ad þær dæmdu bætur séu skilvíslega borgadar, sem vera skal hinum seka gyld røksemd fyrir lúkníngu bótanna.

§. 6.

Ef hinn seki, þegar hans er vitjad med fjár-upptektum fyrir dæmdar bætur, framleggur Yfir-rettarins stefnu yfir þeim fellda dómi, þá skal Fógetinn skjóta fjár-upptektinni á frest, uns dómur er genginn fyrir Yfir-réttinum. Framleggi hinn ecki Yfir-réttar stefnu, þá skédur adferin beint eptir løgunum, þared enginn Fógeti má, nema uppá egin ábyrgd, skjóta henni á frest fyrir einbera lýsíngu hins seka, ad dóminum skuli verda stefnt. Jafnframt skal sá, er framleggur Yfir-réttar stefnu, og þar med stansar adferina, vera skyldugur til einusinni hvørn 3ja mánúd, á medan málid er undir Appelli, ad géfa Fógetanum sannada skírslu um þad, hvørt af réttinum, sem málid er innstefnt fyrir, er dómur genginn, og hvørninn hans útfall er. Forsómi hann þad, skal án tillits til Appellsins adførin hafa framgáng, og má hinn seki eckért kjæra Fógetann fyrir fjár-upptektina, þótt hann fyrir ædra rétti verdi frikénndur frá bótunum; einúngis stendur honum frítt fyrir ad beidast hjá Yfirvaldinu, ad þeim út-teknu bótum verdi sér apturskilad. En verdi nockur dæmdur í bætur af Vorum Hæsta-rétti, eda

einhvørjum ødrum, sem ecki stendur undir ædra rétti, þá ber þeim dómi tafarlaust ad fullnægja.

§. 7.

Allar dæmdar Fé-sektir skulu útleggjast eins og þær eru í dóminum áqvardadar, án minnstu eptirgjafar*), þar Vér viljum hafa Oss Sjálfum einúngis tilskilid, ad veita allranádugustu linun í þeim dómum, er af Vorum Réttum verda afsagdir.

§. 8.

Þegar Stiptamtmennirnir, sem skulu hafa ena ædstu tilsjón med bótanna út-tekt, hafa fengid þá í §. 1. skipudu skírslu, ad bæturnar séu fallnar, og eptir §. 2. alid ønn fyrir þeirra løglegu innkøllun, skulu þeir, ad minnsta kosti einusinni á hvørju hálfu missiri, grenslast eptir og fá skírslur um hjá hlutadegendum, sem Fjar-upptektin hefir verid á hendur falin, hvørsu mikid þar af sé innkomid, í hvørja hellst Amtstofu borgad, hvørt nockud enn þá útistandi, og hvørs-vegna. Hér um skulu Stiptamtmennirnir, vid hvørs árs útgáng, senda Voru Rentukammeri gløgga og ytarlega skírslu, svo þar af sjást kunni hvørjar bætur eru Oss eda almenníngi tildæmdar, hvørsu mikid af þeim er innkomid, og hvørjar enn þá séu óborgadar, til þess ad Vort Rentu-kammer géti vísad til þess borgada, handa



*) Eptir konúnglegum Urskurdi af 30ta Decembr. 1744 eru Legorðs Sektir hjer frá undanteknar.

þeim stødum og þeirri brúkun til hvørs þad var lagt, samt skipad á ný, ad þad útistandandi innkallist á nærsta ári.

§. 9.

Finni Fógeti, vid adførina, bú hins seka svo fátæklegt, ad þær dæmdu bætur verdi ecki af því útlagdar, þá skal þessi þó ecki þar fyrir sleppa frí, því fátækt á engum ad gefa frelsi til ad syndga óstraffad; heldur skal Fógetinn, þegar svo tilber, gjøra rétta og sanna uppteikn-un yfir búid, og útleggja þad, er tækilegt finnst til lúkníngar, *) en fyrir hitt, sem ecki fæst borg-ad, skal hinn seki lída líkamlega refsíngu.

§. 10.

Þó skal enginn fyrir dæmdar bætur sæta líkamlegu straffi, þegar hann annadhvørt er svo efnugur ad hann getur borgad þær, ellegar á í vissum vændum þeirra ígyldi; því þá skal Fógetinn gjøra løglega innfærslu og adtekt, svo bótunum sé borgid, ásamt med skadlausum kostn-adi, og ad svo búnu út-taka bæturnar hjá en-um seka.

§. 11.

*) Tilskipan af 15da Decembr. 1797, bannar ad arrestera hjá handverks-mønnum, edur nema eptir dómi hjá þeim, neitt þad í þeirra búi, sem þeim se naudsynlegt til síns handverks framqvæmdar, á medan nockud annad er til í búinu, af hvørju skuldaheimtu-mennirnir geti notid nægs betalíngs sinnar løglegu krøfu.

§. 11.

Ef ad sá seki er af Adli, eda jafntiginn og réttgengur sem Adals-fólk, og hann, þegar Fógetinn vitjar hans med Fjár-upptekt, skyldi bera þad fyrir: ad adfør megi ecki gjørast hjá sér nema eptir Løgþingis-réttar dómi, annadhvørt af Løgmanninum eda Nefnd þeirri er þar til yrdi skickud, þá, eins og Vér allranádugast viljum engann svipta sínum løgmætum fríheitum, þegar Vor edur almennings réttur ecki þar vid hindrast, og ecki stofnast hætta edur naudsynjalaus kostnadur, leyfum Vér, ad þessi undanfærsla megi takast gyld, þegar hinn seki setur Fógetanum, sem adfararinnar leitar, fullkomid ved (Cautsión) fyrir þeim kostnadi, sem gánga kynni bædi til Løgþingis-réttar dóms útvegunar og Nefndarinnar, þó svo ad búid fyrir þennann drátt ecki gángi til þurdar (því fyrir øllu þessu á Fógeti ad sjá); en vilji edur megni ecki hinn seki ad setja þad ved, sem Fógetinn er ánægdur med, þá hefir hann, ad óøktudu standi ens seka, myndugleika til ad fullgjøra adførina.

§. 12.

Dómur uppá bætur medfærir ecki Forgángs-rétt fyrir ødrum løglegum skuldaheimtum, því hinn seki á ecki ad straffast med útlátum á meiru, enn hann á sjálfur, og hans skuldaheimtu-mønnum má ecki þreyngjast til ad gjalda þær sektir, sem hann er í fallinn, held-

ur stendur þeim þeirra laga-réttur opinn til hans góts og efna, eptir því sem krøfur þeirra og málssóknir eru ásigkomnar, en skyldi einhvørr hafa lánad þeim seka nockud, eptir ad hann var dæmdur í bætur, skulu bæturnar hafa for-rétt fyrir skuldaheimtu ens sama, hvørnig sem á henni stendur; því er hvørr og einn skyldugur ad hafa gætur á, ad sá er hann høndlar vid sé ecki dæmdur í neinar bætur.

§. 13.

Ef hinn seki ecki megnar ad greida dæmdar bætur, né vísa á gyldt ved fyrir þeim, þá sendir Fógeti þá af honum gjørdu uppteiknun, sem nefnd er í §. 9 til þess Amtmanns eda Stiptamtmanns, sem hefir skipad honum adferina, og skal thed Yfirvald af Oss hér med hafa myndugleika til, eins og því hér med allranádugast skipast, ad uppáleggia þeim seka likamlegt straff til ad afplána og lída fyrir þær bætur, er hann ecki megnadi ad borga; þó svo, ad ef hinn seki er af Adli, edur jafntiginn og réttarhár, þá viljum Vér allranádugast, ad hlutadegandi Yfirvald tilkynni Oss allraundirgifnast allann málavøxt, ádur enn lengra er farid, þar Vér allranádugast viljum hafa Oss Sjálfum tilskilid ad áqvarda þad straff, sem þvílikur sakfallinn skal lída, géti hann ecki borgad bæturnar.

§. 14.

§. 14.

Almúgafólk skal afplána þær fé=sektir, sem það ecki megnar úti ad láta med erfidi; karl=menn lætur Yfirvaldid Fógetann færa til þess í umdæminu fyrir=rádandi Hershøfdíngja, sem á=qvardar í hvørri Festingu þeir skuli erfida; en qvennfólkid sendir Stiptamtmadur til erfidis í Spuna=húsid, og skal Yfirvaldid um leid, í sínum medfylgjandi skriflega úrskurdi tiltaka, hvørsu lengi þeir seku skuli á líkamanum straff=ast, og reiknast þá eins dags erfidi á móti hvør=ju einu marki dønsku, sem þeir ecki géta borg=ad af bótunum.

§. 15.

En skyldi Yfirvaldid finna kríngumstædur hinna seku vera, svo á sig komnar: ad þeirra velgengni og mannord kynni tapast vid þvílíkt opinbert straff, þá má í þess stad snara þeim í Fángelsi til ad neyta vatns og brauds þann=ig: ad bætur, frá 1 til 10 rdla., bádum tølum medreiknudum, mega afplánast med 4ra daga fángelsi; frá 10 til 20 rdla. med 8ta daga; frá 20 til 40 rdla. med 12 daga; frá 40 til 60 rdla. med 16 daga; frá 60 til 80 rdla. med 20 daga; frá 80 til 100 rdla. med 24 daga, og frá 100 til 120 rdla. med 28 daga fángelsi uppá vatn og braud. Enginn má set=jast uppá vatn og braud í styttri tíma enn 4ra daga, og enginn lengur enn í fullar 4ar vikur, sem er 1 náttúrlegur mánudur eda 28

 dag=

dagar. Er skuldin meiri enn 120 rdlr., þá skal Yfirvaldid allraundirgéfnast tilkynna oss þad, og setja til Vorrar nádar og mildi, hvørt Vér, í tilliti til ens seka sýnilega velferdar-tjóns, og þeirrar vonar, er vera kynni um betrun hans, allranádugast vildum leyfa, ad gjørvøll skuldin mætti, med 28 daga fángelsi uppá vatn og braud, verda afplánud; og skal því bída med ad fullnægja dóminum nus Vor allranádugasti vilji er hér um til vitundar géfinn. Stipt-amtmennirnir skulu, hvørr í sínu Stipti, eptir Fógetans bón, fyrirsegja, í hvørjum kaupstad Stiptisins hinn seki skal í fángelsi setjast, hvar eptir Fógetinn sendir hann til þess stadar B fógeta, sem lætur innsetja hann í stadarins Arrests-hús, í ærlegt kamers útaf fyrir sig; og skal Fánga-vaktarinn hafa gódar gætur á, ad hinn seki neyti ecki, um þann tiltekna tíma, nockurs annars dryckjar eda matar enn hreins, heilnæms vatns, og góds, velbakads rúgbrauds, sem Fánga-vaktarinn daglega lætur í tje á móti 2ja skildínga borgun; þaradauki fær hann og fyrir varatekt 4 skild. daglega, er Yfirvaldid, undir hvørs yfirrádum hinn seki átti heima, elur ønn fyrir ad greiduglega lúkist. Sjái Fánga-vaktarinn ígégnum fíngur vid hinn seka, og annadhvørt sjálfur færir honum, eda lídur ad honum sé fært í fángelsid nockurr annar matur eda dryckur enn áqvedinn er, missi Fánga-vaktarinn eins mánadar laun, og gisti sjálfur í fángelsi 8 daga med sømu kjørum.

§. 16.

§. 16.

Hafi hinn seki nockra stund lidid uppálagt líkamlegt straff, bædi med erfidi og fángelsi, en hann sjálfur eda og vinir hans vilja leitast vid ad kaupa hann fríjann frá því, sem eptir er af tímanum, þá skal þad leyst vera med því móti: ad undireins og hann fær skírteini frá Fógetanum, ad bæturnar séu lúktar, má hann á móti afhendingu ens sama skírteinis lauslátast úr vardhaldinu af hlutadegandi Kastala Høfdingja (Commandant), eda Byfógeta.

§. 17.

Þared fátækt eda ørbyrgd ecki stendur nockrum í sjálfs valdi, og þessvegna á ecki ad leggjast neinum til lasts eda vansa, fyrirbjódum Vér alvarlega einum og sérhvørjum, undir tøpun Vorrar hylli og nádar, samt annad straff eptir atvikum, ad bríxla nockrum um þad, þótt hann fyrir dæmdar ærlegar bætur, hafi hlotid, sokum fátæktar, ad lída líkamlegt straff, eptir Yfirvaldsins tilhlutun.

§. 18.

Fé-sektir mega ecki út-takast hjá nockrum leigulida, ef hann ecki megnar ad borga þær, án þess ábýlis-jørd hans þar af spillist, ecki heldur hjá þeim, sem vegna þess yrdi ad sakna atvinnu og forsorgunar, heldur ega þesskonar bætur ad afplánast med líkamlegu straffi.

§. 19.

Þegar Dómari úrskurdar nockurn til ad greida bætur, þá skal hann med skírum og skilmerkilegum ordum áqvarda í dóminum hvørsu mikid lúkast skuli eptir peninga reikníngi, svo ad Fógetinn, sem á ad taka út bæturnar, viti eptir hvørju hann hefir ad gánga; þess vegna skal Dómarinn, þar sem løgin nefna viss lód sylfurs í bætur, eda kénna bæturnar vid málid, t. d.: Ofríkis-bætur, hálfar, fullar eda tvøfaldar Legords-bætur, Manngjøld og þesshættar, tiltaka í dóminum bótanna upphæd, svo ad Fógetinn þurfi ecki ad standa þar um í efa.

§. 20.

Þar sem løgin ecki eginlega tilgreina og áqvarda útlátin, t. d.: þá einn skal fyrir þjófnad dæmast til ad borga Igjald og Tvígjald, svo skal Dómarinn af gjørdum yfirheyrslum nákvæmlega ransaka og uppgøtva þeirra stolnu fémuna rétta og sanna verd, svo ad þar eptir verdi greinilega sétt í dóminn, hvad mikid í því tilfelli skuli borgast; þad sem í Igjald tildæmist, krefur og tekur sá, sem fyrir missirnum vard, þó ad hann yfirláti málid til Yfirvaldsins sóknar, en Tvígjaldid reiknast Oss til inntektar, þegar málid sækist Vor vegna af Yfirvaldinu *).

§. 21.

*) Tilskipanin af 20ta Febr. 1789, aftekur Tvígjalds bætur.

§. 21.

Þegar nockurr dæmist til ad hafa tapad Høfud-lód sinni, þá tilkémur ecki Dómaranum ad áqvarda í dóminum, til hvørrar upphædar hún á ad reiknast, heldur er þad Fógetans embætti undireins og hann verdur þess vís, ad høfud-lódin muni verda forbrotin, ad láta uppskrifa og virda góts og fjármuni hins seka, og sídan þá endilegur dómur er fallinn, en ecki fyrri, ad verja því í peninga med løglegum hætti; skal þá af sameginlegum fjármunum, eptir løg-legri adferd, útleggjast til skuldaheimtu-manna ens seka og konunnar, þad þeim med réttu ber; af því sem afgángs verdur, yfirlætur hann helm-ínginn móti qvittánsin til konu hins seka, sem hennar høfudlód, enn hinn helmínginn er ein-úngis ad álíta sem høfud-lód þess seka, sem ept-ir dóminum verdur upptæk, og fellur hún Oss en engum ødrum til handa, þegar Vér høfum látid Yfirvaldid sækja málid.

§. 22.

Þegar nockurs yfirsjón er af því ásigkomu-lagi, ad hann, eptir løgunum, á fyrir hana ad straffast á ytrustu formegun; þá til þess ad Fó-getinn standi í engum vafa vid út-tøkuna, hvørsu mikid þar í skuli leggjast af egum hins seka, høfum Vér allranádugast álitid naudsynlegt ad gjøra hér um svofellda Tilskipun: ad þegar þesshattar mál hér eptir koma fyrir rétt, þá skal Dómarinn og Fógetinn (sé hinn ecki á-samt

samt Fógeti) tala sig saman, og bádir svo nákvæmlega ransaka og eptirgrenslast fjáreign og megun hins ákjærda, ad þeim verdi til hlítar kunnugt ástand hans. Gjørd þeirra um þetta ega þeir ad senda hlutadeganda Yfirvaldi, til væntanlegs samþyckis, og þegar Dómarinn hefir fengid alla þá vitneskju, sem møguleg er, á hann med dómi ad fella hinn seka, fyrst í tvøfaldt svo miklar bætur, sem løgin áqveda fyrir þesskonar yfirsjónir, og þar nærst ad áqvarda straffid á ýtrustu formegun til vissrar tiltekinnar summu, sem Vér allranádugast viljum ad sé $\frac{1}{10}$ partur af hans uppgøtvudu formegun; þó, ef hins seka fjármagn yfirstígur 10,000 rdli., á straffid ecki ad reiknast hærra enn til 1000 rdla., hvørsu mikid fé sem hinn seki kynni ega; en tjedar bætur sækir Fógetinn á sama hátt, sem ádur er sagt.

§. 23.

Þar Vér med misþócknun høfum komist ad raun um þad, ad sumum Herramønnum og Lands-drottnum er mikid annt um sókn á bótunum, þar sem reidu peuínga er ad fá, og minnst umstáng fyrir útlaginu; en eru þar á móti eins afskiptalausir í því, ad uppátala misgjørnínga og fylgja þeim til dóms, ef þeim annars er med því nockurt ómak eda kostnadur gjørr, þvert á móti Vorra elskulegu kjæru Forfedra allranádugasta og hærstloflega tilgángi, sem hafa unnt Herramønnum og Landsdrottnum sektir og saka-

sakafall af sínum þénurum, ecki til ad audga Herramennina af afbrotum sinna undirgéfinna, heldur til ad uppørfa þá, ad þeir med þess meiri alvørugéfni framfylgi løgunum og sjái til ad misverk verdi tilhlýdilega strøffud; en þar á móti vyrdist þad nú vera hardtnær komid í þad horf, ad almúginn megi ad ósekju syndga, þar hann stólar uppá vanefni sín, og líka hitt, ad Herramadurinn, sem eckért vinni þarvid, varla muni halda því til laga, og þó Yfirvaldid stefndi um þad, muni samt húsbóndinn einhvørnveginn fría hann frá straffi; þá til ad hindra þessar óreglur og ósóma svo mikid, sem verdur, er Vor allranádugasti vilji og skipan: ad hvørr Herramadur og Landsdrottinn, sem eru eptirlátnar sektir og sakaføll sinna undirgéfinna, skuli framvegis njóta sømu herløgheita, þegar hann í stadinn, eptir skyldu sinni, løglega uppátalar þá misgjørnínga, sem á hans góts kunna fremjast; en skyldi þad uppá nockurn Landsdrottinn edur Herramann verda sannad, ad hann med vilja hafi sjed ígégnum fíngur vid nockurs honum undirgéfins drýgt lagabrot, sem þannig verdur álitid, ef hann ecki í 3 mánudi, eptir ad hann med røkum er ordinn þar um viss, annadhvørt stefnir eda ávísar þad Yfirvaldinu (hvar yfir Landfiskalarnir ega ad hafa tilbærilega og náqvæma tilsjón), þá skal hann ecki einúngis hafa tapad þeim rétti, sem honum annars bæri af máls-bótunum, hvørjar enganveginn kunna tilfalla honum, þegar hann

ecki

ecki lætur sækja málid, heldur skal hann og fyrir þvílíka sína forsómun sektast í fyrsta sinn um 30 rdli. til gudlegrar brúkunar; og finnist hann í ødru sinni ad hafa skotid hjá sér afbroti síns undirgéfins, þá skal Yfirvaldid á leglegann hátt láta taka dóm yfir honum til missirs á honum unntum sekta- og sakafalls-rétti, hvørri hann aldrei framar má ødlast; þó fortøkum Vér ecki, ad léna þad allranádugast eptir atvikum hans erfíngjum eda eptirkomendum á gótsinu, þegar þeir ecki hafa hlutdeild átt í hans yfirsjón.

## §. 24.

Þegar nockurr Herramadur eda Húsbóndi sjalfur tiltalar og tekur dóm uppá bætur, þá skal sá partur af bótunum, sem honum í løgunum er tillagdur, vera honum tilheyrandi, og lúkist hann ecki med adfør í peníngum, þá hefir hann myndugleika til sjálfur ad áqvarda hvørt líkamlegt straff hans undirgéfnir skuli lída, þó med því móti, ad straffid enganveginn má verda eptirgéfid, miklu sídur leggiast á med þeirri hørku, ad yfirgángi þau takmørk, sem Yfirvøldunum eru hér med fyrirskrifud.



Til-

# Tilskipan

um

## Obóta-mála medhøndlun í Danmørku og Norvegi.

Fridarborg, þann 21ta Maí 1751.

Vér Fridrich hinn Fimti, af Guds Náð Konúngur, etc.

Gjørum øllum kunnugt: Ad Vér erum komnir ad raun um, hvernin Illverka- og Obóta-mál sumstadar í Danmørku og Norvegi, ecki leidast til lykta med þeirri árvekni og alvørugéfni, sem vera ætti, heldur medhøndlast opt svo hyrdulauslega, ad hin naudsynlegasta upplýsíng í málum þeim, er áhræra æru, líf og velferd manna, kémur þess vegna ecki í ljós, hvar af orsakast, ad Vor Hærsti-Réttur finnur sig neyddann til ad heimvísa þesshattar málefnum, til løglegri medhøndlunar og náqvæmarari prófunar, hvar med almúganum orsakast óþarfa þýngsli og kostnadur í þjófnadar,- ráns,- manndráps- og mord-brennu-málum, søkum Embættis-skyldu forsómunar annara; því høfum Vér, til ad fyrirbyggja þessa óreglu í framtídinni, allranádugast álitid naudsynlegt, med þessari Vorri prent-

udu

udu Tilskipun, alvarlegá ad áminna allar Vorar Yfirvalds-persónur, og þá af þeim skickada Saksóknara og Talsmenn, eins og Yfir- og Undir-réttina í bádum Vorum Ríkjum, Danmørku og Norvegi, ad þeir med allraundirgéfnastri alúd hér eptir framqvæmi allt þad, sem í løgum og Tilskipunum um Obóta-mál og þeirra medferd er allranádugast áqvardad og bodid, og sérílagi taka vara á eptirfylgjandi greinum:

§. 1.

Þegar einhverr verdur ákiærdur fyrir drýgdann laga-glæp, þá sé almenn skylda, ad uppgøtva og sanna sakamannsins fædslugar-stad, aldur, atvinnu-veg og þesshättar fleira, er hans persónu áhrærir, af kirkju-bókinni *), ellegar á annann hátt,

*) Sjá Tilskipun af 3ja Júní 1796, §. 38, en einkum Kóngs-brefid af 5ta Maí 1797, sem býdur: „Ad þegar lángann tíma þurfi til vitnisburdar „útvega af kirkju-bókum, eptir Tilskipun af 21ta „Maí 1751, megi saka-persónunnar játníng um „aldurinn, og Rettarins álit um hann eptir út- „litinu, gylda í þeirra vitnisburda stad, eins í „Lífs- og æfinlegs frelsis-tøpunar málum, þó „svo, ad hinu ákjærdi hafi í sveitinni svo lengi „þecktur verid, ad ná megi vitnum til, ad hann „se fullra 15 ára, ellegar hann siálfur skíri svo „greinilega frá æfisøgu sinni, ad af tímaskiptum „í henni megi med vissu ráda, ad hann eldri se, „edur

hátt; einkum þegar dómurinn yfir honum skal þar uppá byggjast.

§. 2.

Eptir ad saka-madurinn er af Rèttinum yfirheyrdur, sem ætíd á ad skè án banda og þvíngunar, og hann hefir bædi medkènnt sinn drýgda glæp, og líka svarad uppá allar þær spurníngar, er þèna kunna til upplýsíngar um íllverksins ásigkomulag, hvørjar spurníngar ega ad framsetjast fyrir saka-manninn af Sækjandanum, Talsmanninum og Dómaranum; svo má þar þó ecki strax fellast dómur yfir enum sakada, án ýtrari røksemda, heldur skal þad vera bædi Sækjanda og Talsmanns skylda, med løglegum vitnum og skilríkjum, ad leita á undan allrar þeirrar upplýsíngar, sem fást kann, ecki einúngis um fáng á íllvyrkjanum, heldur og glæpinn

F

„edur og, hafi hann giptst, stadid í borgaralegum „sambøndum, eda notid borgaralegs rettar ad, „sem myndugur madur, med fleiru, sem sømu vissu „vyrdist ad gefa; má þá þvíumlíkt, eins í ákjærum til ens klagada Lífs- og frelsis-tjóns, álítast sem skilríki um hans løgaldur, án þess ad „vitnisburda af kirkju-bóknm vidþurfi, ve di þeim „ecki nád, án lángs uppihalds, hvar um Rettarins „álit þó skal fylgja edur færast inn í þíngbókina „og Prósessinn; skal Retturinn samt enganveginn „forsóma ad dæma líka um aldurinn af útliti hins „ákjærda, eptir Tilskipun af 3ja Juni 1796, „§. 38."

inn og þar vid skéd atvik, allt eptir málsins og misgjørningsins náttúru og kríngumstædum, uppá þad ad þar af kunni sjást og sannast, hvørt saka-mannsins søgu-søgn sé í raun og veru sønn edur ecki, og sérílagi ad uppgøtva þar vid allt þad, sem þénar til ad sýna og sanna misgjørningsins meiri edur minni stærd og ljótleika; svosem: hvørt þar finnist sjónar-merki eda Corpus delicti í málinu, hvørt þjófnadur edur innbrot er skéd á vídavángi ellegar á náttarþeli, og sérhvad annad er mida kann til strafsins herdslu edur linunar.

§. 3.

Allar þær persónur, sem saka-madurinn hefir í sinni medkénníngu sakborid eda talad um, annadhvørt sem samseka, medvitara, ellegar þvílíka, er kynni hafa vitneskju um íllvirkid, eiga óumflýjanlega, ádur enn dómur gengur ad yfirheyrast, og afleggja sinn vitnisburd í málinu, svo framt menn vita eda géta komist eptir, hvar þær uppihalda sér; og ef einhvør þeirra kynni heyra undir adra løgsøgn, þá skal saksóknarinn eda Talsmadurinn tilkynna þad sínu Yfirvaldi, sem þá ber ad óska af Yfirmanni þess umdæmis, ad sú tilvísada persóna verdi tekin undir próf, og jafnvel, ef naudsyn krefur, láta hana og Sakamanninn verda innbyrdis áheyrsla; má þessu ecki á hvøruga sídunna synja né tregda; enn þeir sem í málinu eru samsekir eda flæktir, skulu af hlutadegandi Yfirvaldi

irvaldi áklagast, og sæta straffi og gjøldum eptir lága adferd.

§. 4.

Þegar mords- eda vígs-mál tilfalla, skal þad fyrst og fremst ransakast, hvørt nockurt verulegt sýnis-merki eda daudibli finnst, og ef svo er, á hinn daudi likami strax løglega ad skodast, á þeim stad hvar hann finnst, og þar eptir, svo fljótt sem møgulegt er, af Land- eda Stádar-læknir og reyndum Handlæknurum ad ransakast, og þar um gjørast fullkomin og vafalaus likskurdar-skodun; lika og, hafi sá, er drepinn var haft fólk hjá sér, ádur enn hann deydi, ega vitni ad færast um hans sídustu ord, og kríngumstædur vid hans dauda.

§. 5.

I Þjófnadar-málum skulu enir stolnu fémunir ecki einúngis løglega vyrdast, og svo margir, sem vid høndina eru, fyrir Réttinn framleggjast, til þess ad Tilskipunarinnar af 6ta Decembr 1743 20ti §. um Igjalds og Tvigjalds Bætur *), géti þvi betur ordid eptirlifad; heldur skal sá, er frá var stolid, þar adauki kannast vid eign sína á þeim stolnu fiármunum, og verdi henni mótmælt, þá og sanna hana; honum ber og sverja, ad hann

F 2 hafi

*) Sjá Skíríngar-greinina hjer. ad framan, bls. 74.

hafi misst þá á móti vilja sínum; alltsaman eptir laganna bodi í 6tu Bókar 17da Kapít.*)

§. 6.

Fremji nockurr stuld á ýmsum stødum, þá skal honum tiltalast fyrir þá alla í einu lagi, á þeim stad, hvar hvar hann framdi þann sídasta, fyrir hvørn hann var gripinn, og lída þar dóm eptir mála-vøxtum, þegar þær umgétnu naudsynlegu upplýsíngar eru fengnar; nema því ad eins, ad annad Yfirvald, eptir DL. 1—2—24. og NL. 1—2—21. heimti og láti sækja þjófinn; á enum sama stad, sem hann er af Yfirvaldinu løgsóktur, skal einnig dæmast bædi um Høfud-lód og Tvígjald af øllu

*) Placat af 28da Martsí 1800 býdur:

1.) Þegar ens ákjærda egin játníng er fengin, um, ad hann framid hafi þann þjófnad, fyrir hvørn hann er løgsóktur, og Eigandinn þarhjá, eda hans vegna annar, eignar ser fólann, þarf Eigandinn ecki ad sverja ser hid stolna, til þess ad þjófs straffid verdi álagt.

2.) Þegar hinn seki játar sig ánægdann med þá vyrdíngu, er Eigandinn setur á þá stolnu femuni, sem ecki komu jafngódir aptur, þarf þessi heldur ecki um hana ad sverja; en mótmæli hinn seki sannsýni verdlagsins, er Eigandinn áqvardar, skal þessi med eidi stadfesta: ad vyrdíngin se af ser gjørd eptir samvitsku hans og bestu vitsmunum.

øllu því stolna, eins og um Igyldi af því er ecki aptur skilast.

§. 7.

Verdi það í einslegu máli uppgøtvad, ad hinn ákjærdi hafi framid nockurn almennann misgjørníng, ellegar og, á medan málid er undir ákjæru, verdi uppvíst, ad hinn seki hafi drýgt einhvørn grófari glæp, sem kynni auka straffid yfir honum, þá ber án tafar ad tilkynna það hlutadeiganda Yfirvaldi, hvar síðar ávikid illvyrki er framid; skal þá skicka Saksóknara og Talsmann í málinu, edur og, ef þeir eru skickadir, tilleggja þeim náqvæmari fyrirskipun, til þess, ad saka-madurinn kunni, med adal- eda framhalds-stefnu, verda fyrirkalladur, og eptir undaugángandi medkénníngu, prófi og ransókn tilbærilega dæmdur og straffadur fyrir sinn misgjørníng.

§. 8.

Enginn Undirdómari má hér eptir uppsegja dóm í nockru Obóta- edur Illverkamáli, fyrr en øll sú upplýsíng, sem fást kann, og um hefir verid gétid, er útvegud á undan af Sakarábera og Talsmanni, samt sérhvad, er í løgum og Tilskipunum um glæpa-málarekstur og þarí allranádugast bodna medferd, hefir verid af þeim náqvæmlega adgjætt og eptirlifad, og finnist þeir þarí hjáhlidrunar eda forsómunar-samir, á Undir-dómarinn med

milli=atqvædi ad tilhalda þeim ad fylla sína skyldu hér í. Finnist þad vid Yfir=réttina, annadhvørt ad Undirdómarinn hafi gjørt á móti þessu, ellegar ad Sakaráberinn og Talsmadurinn ecki hafi gegnt Dómarans áminningu, þá ega þeir ad heimvísa søkinni uppá þess kostnad, sem er skuld í því. Svo megit og Yfir=dómarar, ef þeir, mót von, skyldu af Vorum Hærsta=rétti verda fundnir ad því, ad hafa ecki gætt skyldu sinnar í þessu falli, allteins vænta sér ad málinu verdi heimvísad bædi uppá þeirra og Undir=dómara, Saksóknara og Talsmanns kostnad, allt eptir því, sem hvørs eins yfirsjón er mikil til.

Eptir þessu ber einum og sérhvørjum hlutadegenda allraundirgéfnast ad hegda sér.



Ovid

# Opid Bréf,

áhrærandi

## ad sú í Norsku Laga 1—22—19 tiltekna Kóngsins Sekt, megi framvegis burtfalla.

Þann 24da Októbr. nærstlidna, hefir þad þócknast Hans Konúnglegu Hátign, eptir Kansellíisins allraundirgéfnast gjørdri hugvekju, allranádugast ad úrskurda þanninn:

„Vér viljum, ad sú svo nefnda Kóngs „Sekt, sem Norsku Laga 1. B. 22. „Kap. 19. Art. tiltekur, skuli framvegis burtfalla."

Hvørr allrahærsti úrskurdur hér med auglýsist til allra hlutadegenda eptirréttíngar.

Þad konúnglega danska Kansellí, þann 31ta Oktobr. 1800.

Moltke.

Colbjörnsen. Rejersen. Feddersen. Cold. Knudsen. Monrad.



 

# Tilskipan

um

## frekari Straffa-áqvørdunn fyrir Þjófa og þeirra Medvitendur.

Christjánsborgar Sloti, þann 20ta Febr. 1789.

Vér Christján hinn Sjøundi, af Guds Nád Konúngur, etc.

Gjørum øllum kunnugt: ad þared Vér viljum ad réttlæti straff-laganna skuli leidast af svo mikilli vægd, sem almennings rósemi óhult leyfir, hefir Oss allramildilegast þócknast, einkum í tilliti til þjófnadar, sem margra orsaka vegna, er eitthvørt hid tídast æfda afbrot á medal almúga, ad áqvarda svo sanngjarnann og tilhlýdilegann jøfnud á milli íllverksins ymislegu stærdar og þess straffs, ad þetta bædi verka mætti betrun, hvar hennar vyrdist von, og líka fremqvæmast án þess ad nockur nád veitist, eda þeim sekn géfist þar um von.

Samqvæmt þessum grundvallar-reglum viljum Vér hér med allramildilegast bjóda og skipa, sem fylgir:

§. 1.

Allur einfaldur þjófnadur skal hér eptir straffast í fyrsta sinni med Tukthúss-erfidi frá

2ur mánudum til 2ja ára; skal þá einkanlega vid straffsins áqvørdun náqvæmlega adgætast: hins seka aldur, uppfóstur, undanfarid liferni og ásigkomulag, illverksins tilgángur, verd hinna stolnu muna, einkum í tilliti til ástands þess, er frá var stolid, og ad sídustu, hvørt hinn seki þá ákjærist fyrir þjófnad á fleiri stødum, edur og frá þeim, í hvørs þjónustu hann var.

§. 2.

Finnist nockurr, sem ádur er dæmdur fyrir einfaldann þjófnad, ad stela í annad sinn, straffist hann, (eptir þeim í §. 1 nefndu kríngumstædum) med Rasphúss- eda Festíngar-erfidi frá 3 til 5 ára, og sé þad qvenn-persóna, þá med Tukthúss-erfidi eins lángann tíma.

§. 3.

I þridja sinni straffist hinn seki med Festíngar- eda Tukthúss-erfidi æfi-lángt.

§. 4.

Steli nockurr hestum eda stór-gripum á vída-vángi, brjóti upp hús, steli frá skipbrots-fólki, eda fremji þesskonar grófann þjófnad, vid hvørn Vor ádur settu løg og Tilskipanir leggja hid hærsta þjófa-straff, skal sá hinn sami straffast med kagstrýkingu og Festíngar- eda Tukthúss-erfidi sína lifstíd. *)



*) Tilskipan af 3ja Júníi 1796 sýnir í §. 3, ad illverk, sem §§. 4 og 5 hier nafngreina, gjøri

§. 5.

Ef nockurr, sem ádur er dæmdur eptir 3ja eda 4da §., verdur fundinn ad þjófnadi á ný, skal hann kagstrýkjast, brennimerkjast á enni og aptur til erfidis innsetjast alla hans æfi, undir strángri vøktun.

§. 6.

Børn, sem eru eldri enn 10 og ýngri enn 15 ára, straffist fyrir þjófnad í fyrsta sinni, med hrísi af Fánga-vaktaranum undir Fógetans umsjón; en steli þau optar, þá med erfidi í Tukthúsi frá 2 mánudum til 2 ára, eptir þeim, í þessarar Tilskipunar 1 §, áqvørdudu reglum.

§. 7.

Þjófs-medvitarar og þeir, er med þeim hylla, en sem þó ecki hafa verid í verkinu med, skulu í fyrsta sinni dæmast eptir ásigkomulagi til Tukthúss-straffs frá 1 mánudi til 1 árs, og skal þad straff tvøfaldast, finnist þeir ad sømu søk, í annad sinn; hendi þad optar, vardi þad Festingar- eda Tukthúss-erfidi alla æfi fyrir saka-manninn.

§. 8.

Loksins skulu enir sekn skyldast til ad borga þeim, er fyrir skadanum vard, verd hins

stolna

Þjófa ærulausa, en ecki hin, sem adrir Art. þessarar Tilsk. tiltaka.

stolna, svo framt ad hann hefir ecki fengid sitt aptur óskémmt; en þar á móti skulu þær í løg-unum áqværdudu Tvigjalds-bætur og Bús-lódar-tøpun vera afteknar.

Ad ødru leiti er þad Vor alvarlegur vilji, ad straff þad, er þessi Tilskipan þanninn áqvard-ar, skuli framqvæma eptir þeim felldu dómum, án þess ad þar í vænta megi nockurrar linun-ar eda eptirgjafar.



Opid



# Opid Bréf,

áhrærandi

## Sektir þeirra, sem innkalladir forsóma ad mæta, eda nærstaddir, sýna þrjótsku og ósæmilegt athæfi á áqvednum Auka-þíngum, móti þeim, til ad verdleggja allt Jardagóts á Islandi, tilskickudu Commissariis.

---

Þar þad, til þess, ad Hans Konúnglegu Hátignar velgjørandi tilgángur med þá settu Commissión til ad verdleggja allt Jardagóts á Islandi, skuli géta fullkomnast, og ad Konúngsins Féhyrdslu ecki gjøriſt óþarfa kostnadur, er naudsynlegt, ad hlutadegendur mæti á áqvednum Auka-þíngum, þegar þeir innkallast fyrir Commissariana, og gódviljuglega gjøri þessum skírslu á því, sem þeir æskja; svo hefir Hans Konúnglega Hátign, þann 19da þessa mánadar, uppá Rentukammersins allraundirgéfnustu fyrirspurn, þócknast ad úrskurda þanninn:

"Vér

"Vèr viljum hèr med hafa áqvardad
"bætur til sóknarinnnar fátækra af 2
"til 10 rdla., af hvørjum þeim tíunda-
"takara, og 1 til 5 rdla. af hvørjum
"þeim almúga-manni edur bónda á
"Islandi, sem innkalladur, án sann-
"adra laga-forfalla forsómar ad mæta,
"eda nærverandi á þeim áqvednu auka-
"þíngum, sýnir þrjótsku og ósæmilegt
"athæfi móti Commissariis, sem sett-
"ir eru til ad verdleggja allt jarda-
"gótsid i landinu.

"Héradauki gèfum Vèr Commissariis
"í vald, ecki einúngis ad áqvarda vid-
"komendum sektina, og ad skicka Sýslu-
"manninum ad innkrefja hana og taf-
"arlaust útleggja, heldur og, undir
"eins og sektin er áqvedin, skulu Com-
"missarii gèfa ávísun þar um, bædi
"til Vors Rentukammers, og lika svo
"til Stiptamtmannsins eda Amtmanns-
"sins, er sjá ega til, ad sektin verdi
"innkrafin, og til Rentukammersins
"send hlutadegenda qvittansía fyrir
"hennar móttøku."

Hverr

Hvørr allrahærsti úrskurdur hér med aug=lýsist øllum hlutadegendum, til allraundirgéfn=ustu eptirbreytíngar.

Rentukammerinu, þann 24da Mart. 1802.

**Reventlow.**

Hoe. Wormskjold. Fridsch.

Rølle. Schjønning. v Essen. Meincke. Vorndran. Wadum. Evers. Arctander.

Kongslew.







# Kóngs-Bréf,

sem

## leyfir Fiskimönnum í Norvegi ad leggja Þorska-net í sjó, bædi á Sunnudags-qvöldum og líka qvöldinu fyrir Sunnu- og Helgi-daga.

Kaupmannahøfn, þann 13da Okt. 1797.

Vér Christján hinn Sjöundi, af Guds Nád Konúngur, etc.

Gjørum kunnugt: ad eins og Vér, í tilliti til fiski-ablans útvídkunar, og þeim til nota, er valid hafa þennann næríngar-útveg, høfum med Tilskipun af 21ta Decembr. 1792 áhrærandi sildar- og þorskfiski-ablann í Fosens Fógeta-dæmi í Þrándheims-stipti, leyft fiski-mønnum í nefndu umdæmi bædi ad leggja þorska-net sín á sunnudags-qvøld og líka qvøldinu fyrir sunnu- og helgi-daga.

Svo

Svo viljum Vér einnig, samqvæmt því, fiskimønnunum í Fosens Fógeta=dæmi, í áðurnefndrar Tilskipunar 1tu Greinar 10 §. og 2ar Greinar 2 §., géfna leyfi, hér með allramildilegast hafa áqvardad og skipad: ad þad skal vera einum og sérhverjum fiskimanni í Voru Ríki Norvegi eptirlátid, ad leggja þeirra þorska=net bædi á sunnudags=qvøld og líka qvøldinu fyrir þá og helgidaga, þegar fiskimenn annars skynja, ad vid þá netalagningu sé ad vænta nockurs ábatasams abla; þó viljum Vér, ad þeir, ef vedurättin leyfir þad, kappkosti ad sækja netin svo snemma á helgidags morgna, ad kirkjuferd þeirra og Guds=þiónusta ecki fyrir þá skuld hindrist.*)

*) Þetta Kóngs=bref er til eptirbreytni á Islandi híngad innsendt, og auglýst á Løgþingi árid 1798.



Til-

# Tilskipan,

med hvørri

í Kóngsríkjunum Danmørku og Norvegi med undirliggjandi Løndum, fyrst um sinn er uppábodid Afgjald af Fasteigna verdi, í hvørt sinn þær afhendast nýum Eganda, og af verdi allra annara eigna, í hvørt sinn þær gánga í erfdir; sømuleidis af Festu- Festubyggíngar- og Erfda-festu bólum, svo opt sem nýr Festarmadur, Leigulidi, eda Erfdafestarmadur gengur ad þeim.

---

Kaupmannahøfn, þann 8da Febr. 1810.

---

Vér Friderik enn Sjötti, med Guds miskun, Danmerkur og Norvegs, Vinda og Gauta Konúngur, Hertogi Slesvíkur, Holsetulands, Stórmæris, Péttmerskis og Aldinborgar.

Gjørum øllum vitanlegt: ad Vêr vegna ásigkomulags nálægs tíma, høfum fundid óumflýanlega naudsynlegt, til nýrra inngjalda fyrir Vors Skattkammers Afdráttar-høfudstól, medal annars ad uppábjóda afgjald af verdi Fasteigna, hvert sinn þær afhendast nýum eganda, og af verdi allra annara eigna, hvert sinn þær gánga í erfdir; einninn af Festu- Festu-bygsíngar- og Erfdafestu-bólum, svo opt sem nýr Festarmadur, Leigulidi, eda Erfdafestarmadur gengur ad þeim. Því viljum Vêr fyrir Vor Ríki Danmørku og Norveg, med undirliggjandi Løndum, fyrst um sinn hafa eptirfylgjandi fyrilagt og bodid:

1.

Af verdi allra fastra, bædi kaupstada og landeigna, skal lúkast ½ af hvørju hundradi (pro Cento) hvert sinn þær ad kaupum og sølum, erfdum ad løgum, eda Testamenta rádstefunum, med gjafabrêfum, eda hvørjum sem hellst løglegum máta afhendast nýum eganda.

2.

Í tilliti til áqvørdunar verdsins, af hvørju þeßi ½ pro Cento í afgjald reiknast, sê þanninn breytt:

a) Vid kaup og sølu fasteigna, skal afgjaldid borga af kaupverdisins summu, og sê í kaupverds stad ad øllu eda nockru leiti áskilid árlegt afgjald í peníngum eda landaurum, reiknast

kaup-

kaupverdid svo, ad 100 rdla. høfudstóll telst samsvara hværjum 4 rdlm. í afgjaldi, hvørt, ad því leiti þad er í landaurum, reiknast til peninga eptir algengu verdlagi, og ad til þeßa matna høfudstóls leggist þad tiltekna kaupverd annad, sem ásamt vera kann áskilid.

b) Vid makaskipti fasteigna skal, þegar nockurr þeirra er makaskipta, ásamt børgar einhvørja tilbót í peníngum, ellegar unditgengst árlegt afgjald, ½ pro Cento greidast af þeßari peninga summu, eda af þeim høfudstól, til hvørs nefnt afgjald, eptir því sem fyrilagt er lit. a), metast kann. En sé fasteignum skipt ad jøfnu, án peninga millilags eda afgjalds áskordunar af ødrumhvørjum, þá géldst engin ½ pro Cento.

c) Séu fasteignir géfnar burt í lifanda lífi, betalast afgjaldid af því verdi, til hvørs fasteignir þær, samqvæmt Tilskipun um stimpladann pappír frá 25ta Maji 1804, §. 14, í gjafabréfunum eda vid uppáskrift þeirra, metnar eru.

d) Hlotnist nockrum fasteignir í arf, annadhvørt ad løgum, eda eptir testamenta rádstøfunum, þá áqvardast verd þeirra eptir þeim løglegu virdíngum, sem leggjast til grundvallar vid skiptin, hvar þeßi af reglulegum eda ysirordulegum Skiptaforvølturum afgjørast. En skipti myndugir og nærverandi Erfingjar sjálfir med sér, eda nockurr gángi ad arfi án skipta, stíngi erfingjar uppá, hvørt fullt

verd sé fasteignanna, uppá æru og trú og samvitsku eptir bestu vitund, sem þeir vogist til ad stadfesta sannleika skírslu sinnar med laganna eidi, þá óskad er. Og skal þá $\frac{1}{2}$ pro Cento afgjaldid, af því med þvílíkum fráskírslum, eda fyrrnefndum virdíngum á-qvedna verdi lúkast, þó ad frádregnum skuldum, sem á fasteigninni liggja.

e) Þegar nýir egendur gánga ad Léns- Ættar- (Stam-) eda ödrum Fideicommiss-gótsum, skal sá nýi vidtakandi, eptir bestu vitund og samvitsku, ad hann, þegar óskad verdur, géti þarum unnid eid, tilkynna verd gótsins, til þeirrar upphædar, sem þad má verdt virdast eptir þeim ágóda og þúnga, sem vid þad lodir ávallt eda um hríd, eda, sem sama er, til þeirrar summu, fyrir hverja hann, eins og þad fyrifinnst, med ágóda og ískyldu, vildi selja þad, væri afhendíng honum leyfileg. En af þessu tilteknu verdi skal afgjaldid reikna. Sé sá nýi egandi ómyndugur, géfi formyndari hans skírsluna, en sé hann þegar fullordinn (18 til 25 ára), þá hann og Tilsjónarmadur hans (Curator).

§ 3.

Af verdi allra annara eigna, hvort sem heldur eru peníngar, skip, báshlutir, lausaurar og þessháttar, sem ecki verdur talid med fasteign, skal í hvört sinn, sem þær annadhvört ad lögum eda testamentagjördum, gánga í arf, sömuleidis lúk-

ast

ast ½ pro Cento. Og skulu frá þessu afgjaldi einúngis frîteknir vera þeir penínga høfudstólar, sem í Vorn Ríki Danmørk hafa forrétt í fasteignum, af hvørjum penîngum, eins og ber, goldid er þad afgjald, sem Tilsk. af 4da Sept. í fyrra, eitt sinn álagdi, þó svo framt høfudstólar þessir komi til erfdal fyrstu 4ra ára tímabili, frá 31ta Júlii 1809 ad reikna.

4.

Eptirfylgjandi skal athuga vid afgjalds-reikníngin, sem undangángandi 3 §. áqvedur:

a) Afgjaldid skal lúkast einúngis af haldinni summu arfsins, ad frádregnum skuldum og ískyldum, er á honum liggja. Og er þad sjálfsagt, ad høfudlód sú, sem eptirlifandi ektamaki á, telst ecki til afgjalds.

b) Verd búshluta og lausafjár med ødru, sem ei er innifalid í reidu penîngum eda útistandandi høfudstólum, sem afgjald á af ad lúka, áqvardast samqvæmt því, sem í §. 2 lit. d), er tiltekid, eptir løglegum virdînga- og auktions-gjørdum, á hvørjum skipti grundvallast hvar þau fyrirakast af reglulegum eda yfirordulegum Skiptaforvøltunum.

c) Skipti þarámot myndugir og vidverandi erfíngjar sín á milli, eda nockurr gángi ad arfi án skipta, skulu þeir, er arf taka, eptir bestu vitund og svo, ad þeir þarum gæti aflagt eid, nær sem krafid er, eins og í §. 2, lit. d), um fasteigna verd er fyrilagt, á-

samt segja frá fullu verdi annars haldins arfs þeirra.

5.

Af arfi, er tilfellur þeßháttar erfingjum, sem ega af honum ad gjalda þad, med Tilskip. af 12ta Sept. 1792, áqvedna afgjald, 4 pro Cento, skal haradanúi reikna þad $\frac{1}{2}$ pro Cento afgjald, sem hérmed er fyriskipad.

6.

Hvørt sinn til festujarda og erfdafestu-jarda í Vo u Riki Danmørku — ad því leiti þær sidarnefndu til nÿrra erfdafestumanna ecki afhendast til eignarhalds, med þínglÿstu afsalsbréfi — koma nÿir festarmenn eda erfdafestarmenn, skulu þeßir, af því, bædi akurs og engja, skógar og mylnuskyldu hartkorni, sem þeßháttar festujørd eda erfdafestujørd er skuldsett fyrir, hvørt heldur privilegerad eda ecki, gjalda 1 rdl fyrir hvørja tunnu. Og skal sama afgjald af hjábylum hér í Ríkinu gjaldast, hvørt sinn nÿr festarmadur eda erfdafestarmadur kémur ad þeim, sé svo ad undir þau liggi 4 sképpur hartkorns af jørdu, eda enn meira. Sømuleidis skulu í sérhvørt sinn, sem ad festu-, festubyggingar, eda erfdafestu-bólum, í Voru Riki Norvegi, koma nÿir leigulidar eda erfdafestar menn, þeßir gjalda af þeirra skuldsetníngu, hvørt sem er privilegerud eda ecki, 2 rdli 24 ß. af hvørri skippunds þÿngd, 1 rdl 48 ß. af hvørjum smjørlaup, 1 rdl 48 ß. af hvørri kornskjólu, og 72 ß. af hvørri vog fiska. Þó skulu þau býli

sem

sem skuldsett eru undir 5 Lispunda þýngd, 1 pd. smjørs, 1 eyrir korns, eda 2 pd. fiska, vera frí vid þetta afgjald. Vid reikníng afgjaldsins skal annars meta adrar skuldsetníngar tegundir á venjulegann hátt vid einhverja af þeim, sem hér eru tilnefndar. Og, eins og vid Nr. 3—14—25 er þegar fyrirskipad, ad byggíngarbréf lesast skuli á næsta þíngi, eptir þad þau eru útgéfin, svo viljum Vér hérmed, bædi til þeß, ad nauðsynleg skilríki um fyrrnefnt afgjald verdi fengin, og þared þad auk þessa álltst í fleiru tilliti þarflegt, allranádugast skipad hafa, ad féstubréf og erfdafestubréf í Voru Ríki Danmørk, skuli lesast á næsta þíngi, eptir þad þau útgéfin eru, svo framt þau skulu komid géta Festar- eda Erfdafestarmønnum til nockurs gagns, hvarhjá Amtmønnum í bádum Vorum Ríkjum uppáleggst, vid þá, med stimplada pappírs Tilskipuninni frá 25ta Maji 1804, §. 28., skipudu skodun Festuprótókolla, ad umsjá, ad þau Festubréf, Byggíngarbréf og Erfdafestubréf, sem héreptir verda útgéfin, séu, sem ber, þínglýst, í hverju tilliti sú áteiknan, sem rétturinn géfur þeßum skjølum um þínglýsínguna, ásamt innfærist í Festuprótókollana*).



*) Auk þeß, ad audsjáanlegt er, ad þeßi 6ti Artikuli þessarar Tilskipunar, ecki á heima á Íslandi, heldur í Danmørku og Norvegi, eptir þar gengnum afgjalds reikníngum, bætist enn framar vid eptirfylgjandi Utdráttur af Brefi ens konúnglega

7.

Afgjald af fasteigna verdi vid kaup og sölu, gjöf og makaskipti, einninn af festu- festubyggíngar- og erfdafestu-bólum, afgreidist ádur enn afsals- gjafa- makaskipta- festu- byggíngar- og erfdafestu-brefin eru þínglýst. Því má og eckert þvílíkt skjal af réttarins Embættismönnum medtakast til þínglýsíngar, nema fyri þeim sannist med hlutadeganda gjaldkéra qvittanzlu, ad afgjaldid sé, sem ber, lokid.

8.

Afgjaldid, bædi af fastra og annara eigna verdi, þegar þær gánga í erfdir, er fallid vid burtköllun þess, er arf leyfir, og skal þad goldid fyrir skiptalok, hvar nockur framfara, og skulu reglulegir Skiptaforvaltarar vid skipti, sem þeir afgjöra, en yfirordulegir Skiptaforvaltarar, svo sem

---

Rentukammers, þann 26ta Maji 1810, til Íslands Stiptamts, mjer til auglýsíngar sendur, og hjer einmidt heimaegandi:

M. Stephensen.

„Annars tilkynnist til undirvísunar og opinberrar „auglýsingar rádstöfunar, ad Hans konúnglegu „Hátign hefir allranádugast þóknast, þann 1ta „Febr. þ. á., ad úrskurda: ad Island fyrst um „sinn megi undanskilid vera frá afgjaldi af Festu- „byggíngar- og Erfdafestu-bólum, vid tilkomu „nýrra leigulida eda Erfdafestarmanna."

In fidem. Isl. Einarsson. Frydensberg.

sem Commissarii, Executores testamenti, Samfrændur og þessháttar, vid skipti, sem þeir afgjøra, vera í ansvari fyrir, ad afgjaldid tímanlega verdi goldid; en erfíngjar, sem sjálfir skipta med sér, standi fyri skilvísri lúkníngu afgjaldsins ádur skiptum er lokid, og séu á medan einn fyrir alla og allir fyrir einn í vedi fyri því. Gángi myndugur og vidverandi erfíngi sjálfur ad arfi sínum óskiptum, lúki hann afgjaldinu innan árs og dags eptir fráfall hins, eda, sé Proklama útgéfid, þá í seinasta lagi eptir 3gja mánada frest, frá því þad útrann. Og, eins og øll fráføll manna, eptir Tilsk. af 12ta Sept. 1792, ega af nálægum eptirlátnum erfíngjum ens dána, eda hverjum sem í húsinu er, undir 100 rdla sekt, strax ad tilkynnast sérhvørs stadar reglulegum Skiptaforvaltara, sem uppteiknar allar þvílíkar fráskírslur í Skiptabók sína, svo skulu og til hans af yfirordnulegum Skiptaforvølturum, hvar þeir gésast, og af erfíngjum sjálfum, þegar þeir sjálfir skipta med sér, eda gánga ad óskiptum arfi, í tiltekinn gjalddaga, skírslur sendast um upphæd afgjaldsins, og hvar og hvønær þad goldid sé, er hann þá, samqvæmt þessum frásøgnum, teiknar stuttlega í Skiptabók sína.

9.

Vanti betalíng afgjalda, sem Tilskipan þessi fyrileggur, lúkist þau tvøfeld. Og sannist þad nockurntíma, ad nockurr med launúng reyni ad skjóta sér undan borgun afgjaldsins, greidist þess upphæd þrefeld.

10.

Afgjöldin lúkast í Vorum Adseturssstad Kaupmannahöfn til Vors Zahlkassa, í ödrum Kaupstedum og á landinu í Voru Ríki Danmörku, til Amtsforvaltaranna, í Kaupstedum í Voru Ríki Norvegi til Magistratanna, og þar á landinu til Fógetanna, en í Vorum Löndum Íslandi og Færeyum til Landfógetanna. Og, ad því leiti, sem afgjald snertir af fasteigna verdi vid kaup og sölu, gjöf, makaskipti, og af festu- festubyggíngar og erfdafestu-bólum, semuleidis af arfi, hvar yfirordulegir Skiptaforvaltarar umannast skiptin, eda hvar erfíngjar sjálfir skipta med sér, eda gánga ad óskiptum arfi, skal hvad eptir betala, eins og afgjald þetta, eptir §§. 7 og 8, gjaldast á, en undir. þess eda þeirra hendi sem betala, ega 3 samhljóda fráskirslur um afgjalds summuna, og af hvorju hún géldst, ad skrásetjast, af hverjum skirslum 1. med gjaldkérans prima qvittanzíu, egi afgjaldid ad lúkast af arfi, innsendist strax til Vors Rentukammers, en lúkist þad í ödru skyni, af því sem fyrrtalid er, afhendist hún Réttarins Embættismanni, þegar skjalid, sem því vidkémur, þínglýsist; önnur skirslan med áteiknadri secunda qvittanzíu, vardveitist af þeim er betalar, en hin 3ja geymist med tekju reikníngunum. Þær afgjalds summur þarámót, sem leida af arfi, hvar reglulegir Skiptaforvaltarar höndla med skiptin, ega þessir í einu ad afhenda sérhvert missiri, nl.: til hvers árs 14a Jan. og 14da Júl. Þeir ega og vid afhendínguna undir egin hendi ad semja 3 samhljóda lista yfir

þær

þær summur, sem betalast, og bú þau, af hverjum þær gjaldast, m. fl. Af þessum listum verdur 1 eptir vid tekju reikníngana, 2rum, med gjaldkérans secunda qvittanzíu, heldur sá eda þeir, sem skila, og 3ja, med áteiknadri prima qvittanzíu, skal strax senda vidkomanda Yfirvaldi, sem med vitnisburdi sínum sendir Vöru Rentukammeri í hvers Jan. mán. lok, þá medteknu lista, og annars vid árlega yfirskodun Skiptabókanna, náqvæmlega gengur eptir, ad afhendíng afgialdsins ætíd gjörist í áqvedinu tíma. Í Vorum Adsetursstad Kaupmannahøfn, innsendast þessir listar med áteiknadri prima qvittanzíu, í hvers Jan. mán. lok, frá Lands- Yfir- og Hoffs og Stadar-Réttinum beinleidis til Rentukammersins.

11.

Reglulegir Skiptaforvaltarar ega í listunum, sem þeir, eptir næstundangángandi §. 10, semja yfir þær afgialds summur, sem þeir medtekid hafa, ásamt ad minnast á, hvad þeim sé tilkynnt af yfirordulegum Skiptaforvolturum eda af erfingjum, hvar þessir sjálfir skipta med sér, eda gánga ad óskiptum arfi, samqvæmt þessarar Tilsk. §. 8. Sømuleidis á og í listunum ad tilnefna øll þeim á umlidnu misseri tilkynnt daudsfell, og ad hverju leiti nockur dánarbú, af hverjum eckért afgiald enn er borgad, medhøndlast af þeim, sem reglulegum Skiptaforvolturum, eda hvørsu annars med þau sé farid. Skal þessa lista lykta med útskýríngu um, ad engar fleiri afgialds summur

enn þær, sem þeir hafa tilnefnt og útlistad, hafi gétad til reiknings komid fyrir þeirra umdæmi, um aflidid mißiri. Þegar þad tilfelli, einhvörsstadar mætir, ad eckert afgjald sé ad greida, þá skal sá reglulegi Skiptaforvaltari þarum skýrslu géfa, til þess, í §. 10, tiltekna tíma, bædi til hlutadeiganda Yfirvalds, til áleidis innsendingar vid Januarii mán. lok, til Vors Rentukammers, og til gjaldkérans, sem leggur þá skýrslu med reikningi sínum.

12.

Loksins á sérhvörr Réttarins Embættismadur, fyrir lögsagnar umdæmi sitt, í hvör árslok ad senda vidkomanda Yfirvaldi lista yfir:

a) Afsals-, gjafa- og makaskipta-bréf, eda önnur þvílíklík útgéfin skjöl, um fasteigna afhendingu til nýrra egenda, og

b) Festu-, byggingar- og erfdafestu-bréf, sem þinglýst eru þad árid, í hvörru lista ásamt sé útþryckilega tilgreint þad verd, sem eptir þeim í §. 2. tiltekinn áqvördunum koma til álita til afgjalds reiknings af þeim, nýum egendum afhendtu, eignum, med þeim, undir lit. a), nefndu skjölum, ásamt því hartkorni og skuldsetningu þeirri, fyrir hvad burtufest eda bygd ból sett eru; eins ega þessum lista ad fylgja allar þær, réttarins Embættismanni, eptir § 10, afhendtu qvittanzur fyri afgjaldid af áminnstum eignum og festu-, festu-byggingar- og erfdafestu-bólum. Þar, sem engin af nefndum skjölum eru þinglýst, géfur Réttarins Embættismadur þarum, vid ársins lok, skýrslu

skírslu til Yfirvaldsins. Frá því innsendast allir listar og skírslur, ásamt qvittanzíunum til Vors Rentukammers, svo ad þad fái gengid eptir því, sem vidþarf til skilagreina fyrir afgjöldin. Ad því leiti vidkémur Lands Yfir- og Hoffs og Stadar-réttinum í Kaupmannahöfn, þá sendast listar þeßir beinleidis til Vors Rentukammers frá þessum Rétti í hvör árslok.

Hvareptir hlutadegendur allraundirgéfnast breyta skulu.

Géfin í Vorum konúnglega Adsetursstad, Kaupmannahöfn, þann 8da Febr. 1810.

Undir Vorri konúngl. Hendi og Innsigli.

Friderik R.

(L. S.)

---

Reventlow.

---

Moltke. Wormskjold. Fridsch.

---

Kongslew.

Plakat



# Plakat

fyrir

Kóngsríkin Danmork og Norveg med undirliggjandi Løndum, áhrærandi hvørsu breyta skuli í tilliti til verdleggíngar eda kaupasummu áqvørdunar, af hvørri ½ Procento afgjald lúkast á, eptir Tilskip. af 8da Febr. 1810, þegar vid fasteigna kaup og sølu í kaupasummu stad, er áskilid vísst árlegt afgjald í víss ár ellegar um daga manns.

Utgefid þann 5ta Maji 1810.

Hans konúnglegu Hátignar til Danmerkur og Norvegs; etc. etc. Præsident, Direkteur, Deputeradir og Tilskipadir menn í Rentukammer Collegio, kunngjøra hérmed:

Ad Hans konúnglega Hátign, þann 28da í nærstlidnum mánudi, hefir allramildilegast úrskurd-

skurdad: ad, þegar vid fasteigna kaup og sølu, í kaupasummu stad, anngdhvørt ad øllu edur nockrum hluta er áskilid árlegt afgjald í peníngum eda landaurum, um viss ár, eda æsi manns, skal í tilliti til þess verds, eda kaupasummu verdleggíngar, af hvørju þad ½ Procento afgjald, sem Tilskipan þann 8da Febr. þ. á. krefur, lúkast á, fylgjandi adgætast:

1.

Þegar hid árlega afgjald, hvørt heldur þad er í peníngum eda landaurum, er áskilid um 25 ár eda lengur, skal þad álítast sem stædt, og þess høfudstóls verd þessvegna reiknast þanninn, sem allrahærstnefndrar Tilskipunar §. 2. litr. a) áqvedur.

2.

Sé þad áskilid um skémmri tíma enn 25 ár, þá skal þess upphæd, eda, ad því leiti þad er innifalid í landaurum, verd þeirra leggjast saman fyrir øll þau áqvednu ár, og sá høfudstóll, sem þarvid framkémur, álítast sem kaupverd, eda — hvar annad áqvedid kaupverd úsamt er áskilid — sem partur af kaupverdi.

3.

Sé þarámót afgjaldid áskilid um daga manns, þá skal þeß høfudstóls verd reiknast, sem væri þad áskilid um 5 ár.

Hvareptir hlutadegendur skulu breyta.

Rentukammerid, þann 5ta Maji 1810.

REVENTLOW.

Moltke.

Wormskjold. Fridsch.

M. v. Essen. Meincke. Vorndran. Evers. Hjort. H. Jensen. Mandix. Arentz.

Kongslew.

Utgefid frá þeim konúnglega íslendska Landsyfirretti, á konúnglegann kostnad, og prentad ad Leirárgørdum 1810, af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.





# Kóngs-Bréf,

áhrærandi

Afleggingu þess íslendska Tukthúss fyrst um sinn.

Kaupmannahøfn, þann 3ja Maji 1816.

Vér Friderik enn Sjötti, af Guds Nád Konúngur til Danmerkur, etc. etc. etc.

Vor sérleg velunnan! Þared Stiptamtmadurinn yfir Voru landi Islandi, hefir allra undirgéfnast fráskírt: ad þarverandi Tukthús, hvers fánga forsorgun, med Vorum allrahærsta Urskurdi, frá 24da Okt. 1814, bodid var ad hætta skyldi í brád, sé í svo hrørlegu ásigkomulagi bædi í tilliti til húsins sjálfs og þess áhalda, ad þad ecki verdi sett í brúkanlegt stand, án mikilvægs tilkostnadar fjár, hvern landsins innbúar ecki megni, nú sem stendur, úti ad láta; høfum Vér, bædi þessara røksemda vegna og annara fleiri, sem Vort Danska Cancellí hefir Oss allraundirgéfnast fyrir sjónir leidt,

 og

og byggt þær á áliti margra Vorra íslendsku Embættismanna, hvert það krafid hefir, allranádugast ályktad fyrst um sinn, ad láta það á Voru landi Islandi núveranda Tukthús, vera framvegis aftekid. Þar hjá høfum Vër vid val þeirrar hegníngar, sem koma verdur í stad þess aftekna Tukthúss straffs, litid til þess, sem frla mætti Vora kjæru og trúu undirsáta á Voru landi Islandi, ad því leiti verdur, frá þúngbærum kostnadi, sem flutníngur sakamanna yfir land og sjó til einhvers strøffunarhúss í Vorum Ríkjum orsaka má, þess vegna kosid, ad láta minni afbrot afplána med líkhamlegu straffi, sem ad nockru leiti tídkadist, eptir ádur gyldandi løgum, einkum ádur enn Vor Tilskipan frá 20ta Febr. 1789 útkom, en ad nockru er á ný innleidt med Voru bréfi frá 25ta Júlii 1808; og høfum Vër vid áqvørdun tjeds straffs, hvert eckert skérda skal æru hinna seku, í ljósi látid alla þá vægd og mildi, sem Rëttvísin leyfir. Þess vegna gefum Vër Ydur hér med allranádugast til vitundar:

1.) Það íslendska Tukthús skal fyrst um sinn vera aftekid, sem fyrri.

2.) Þeir, sem eptir gyldandi løgum finnast sekir til straff-ervidis um 3 ár, skulu sømuleidis fyrst um sinn, afplána afbrot sín med þrísvar tuttugu og sjø vandarhøggum; og þeir, sem finnast ad hafa unnid til skemmra frelsis-tjóns skulu þola sámaslags sanngjarna refsingu, þeim

mun

mun vægari eptir afbrotinu, sem Dómarinn met-ur þeim hæfa, þó ecki 10 vandarhøggum minni.

3) Þar á mót skulu þeir, sem unnid hafa til lengra enn þriggja ára straffs, setjast í Kaupmannahafnar Betrunar-hús, ad því leiti þeir, eptir gyldandi løgum dæmast áttu í hid íslendska Tukt hús. Þessvegna tilskyldast vidkomandi Yfirvøld ad ala ønn um, ad áminnst-ir, eins og adrir fángar flytjist til Kaupmanna-hafnar, þanninn, ad sem óhultast og kostnadar-minnst verda megi. J sama máta sé þad og skylda allra Skipara, sem færa skip fyrir Js-lendska eda adra þegna Vorra undirsáta, til Vors Danmerkur Rikis, eda til Vorra Hertoga-dæma, ad veita móttøku, mót sanngjarnri borg-un, eptir reglum, sem nákvæmar skulu áqvardast hverjum þeim sakamennum, sem Yfirvaldid beidist.

4) Adurtøld bodord skulu einkum gylda í tilliti til þjófnadar og annara þeirra afbrota, sem Vort Kóngsbréf frá 25ta Júlii 1808 høndlar um, og skulu þess áqvardanir standa í fullu gyldi, ad því eina umbreyttu, sem leid-ir af því, ad 2ur og 3ja grein (hér ad fram-an), verdi reglur, um umbreytíngu ádur løg-skipads straffs í líkhamlega refsíngu.

5.) Fyrrgreind bodord megi einninn heim-færast til sakamanna, sem þegar dæmdir eru til straff-erfidis, nema svo verdi, ad þeir heldur kjósi ad lída straff eptir Dóminum, en þó þanninn; ad ef þessi hljódar uppá erfidi í Js-

lands Tukthúsi, setjist þeir í þess stad í Kaupmannahafnar Betrunarhús. Þar hjá viljum Vér, ad jafnvel þeir, sem ádur enn þessi Vor bodord verda kunngjørd, dæmdir eru til lengra enn þriggja ára erfidis í Islands Tukthúsi, megi afplána brot sín med enni mestu refsíngu, sem ønnur grein hér tiltekur; þó svo, ad einninn þeir eigi kost á um ad velja, hvert heldur kjósi sér ad þola hid dæmda straff í Kaupmannahafnar Betrunarhúsi.

6.) I øllum þeim tilfellum, hvar lagabrot má med fébótum afplánast, hverra upphæd er í løgum ákvørdud, leyfum Vér, ad løgsóknir í Réttvísinnar nafni megi undanfellast, svo framt hinn sekadi vilji gódmótlega lúka bótunum.

7.) Eins og Vér, med Voru allrahæsta bréfi í dag útgéfnu, høfum allranádugast skipad, ad sá, fyrir Vort land Island um stund setti Yfirkriminal-réttur nú skuli afleggjast, og ad eins megi málum hér eptir, sem ad fornu, skjóta frá Landsyfirréttinum til Vors Hæstaréttar; viljum Vér enn fremur, ad Landsyfirréttarins Dómar skuli vera óáfríanlegir í þeim tilfellum, hvar hid ídæmda straff einúngis er innifalid í einhverri hér ad framan tiltekinni líkamlegri refsíngu.

Eptir þessu eigid þér Ydur ad haga, og um þad naudsynlega rádstefnur ad gjøra. Vér felum Ydur Gudi!

Oss elskulegum, Justitiario og Tilskipudum í Vorum Landsyfirretti á Islandi.



# Tilskipan
## fyrir Island,
## Hversu med Skipti eptir Geistlega og Dóma geistlegra málefna vid Undirrétti framfara skuli.

Kaupmannahøfn, þann 27da Nóv. 1816.

**Vér Friderik enn Sjøtti, af Guds Nád Konúngur Danm. etc.**

Gjørum vitanlegt: Ad þared Vér høfum allranádugast fundid gagnlegt, ad sú, þann 5ta Dec. 1806, fyrir Vort Riki Danmørku útgengna Tilskipan, ad því leiti hún áhrærir Prófasta Skipta-løgsøgn og Yfirformyndara-dæmi, og Réttarins framqvæmd í geistlegum málum, verdi gjørd gyldandi einninn á Islandi, birtum Vér hér med þau bodord, hverjum á Voru landi Islandi allraundirgéfnast á eptir ad breyta:

§. 1. Sá Skiptaréttur og þar af leidandi skyldur í tilliti til ómyndugra, sem híngad til hafa verid Prófføstunum á Voru landi Islandi á hendur falin, skulu jafnódt, sem núverandi Prófastar deya, framqvæmast af þeim verdslegu Embættismønnum og Réttarins þjónum, sem Vér á sérhverjum stad høfum tilskipad; en fé

þad, sem nú liggur undir Geistlegra Yfir-umsjón, þar eptir skal, sem brádast verdur, afhendast hlutadegendum.

§. 2. Sømuleidis skulu Vorir fyrrnefndu verdslegu Embættismenn skyldugir til, hvenær, sem einhverr af núverandi Próföstum þess beidist, ad taka þau Skipta umrád ad sér, med þar til heyrandi Yfir-umsjón, sem Próföstum hafa tiltrúud verid, þó svo, ad allt afhendist med tilhlydilegri reglu, og ad skipti búa, sem strax verda til lykta leidd, fullgjørist ádur.

§ 3 Þegar eitthvert afhendist eptir þessarar Tilskipunar 1. og 2 §., ber þeim vidkomanda geistlega Skiptafyrirádanda, eda Dánarbúi hans, borgun af því, fyrir skiptagjørdir þær, sem þegar framqvæmdar eru í þesshátar búi.

§. 4 Réttargángs málefni, sem ecki áhræra skyldu geistlegra Embættismanna, eda breytni þeirra í Embættisverkum, skulu ecki álitast, sem geistleg mál, heldur skulu þau án undantekningar, hvert sem hlutadegendur stefnast, sem málspartar edur vitni. medhøndlast og dæmast vid þá almennilegu Dómstóla.

§. 5. Þegar Prófasta Riettarhald skipast til Dóma um geistleg málefni vid Undirrjett, á sá verdslegi Undirdómari þar, sem Rjettur sá verdur haldinn, bædi sem Dómari og Skrifari ad þjóna þeim Rjetti. Undirdómarinn og Prófasturinn skulu hafa sæti í Rjettinum, eptir hvers þeirra metorda-rød (Rang).

§. 6. Sømuleidis á veraldlega Sækjendur ad setja í þeim málum, sem vid þá Rjetti verda fyritekin.

Hvar eptir øllum hlutadegendum ber ser allra-undirgefnast ad hegda.

# Tilskipan
áhrærandi
## árlega Capítuls-Taxta á Islandi.

Kaupmannahøfn, þann 16da Júlii 1817.

Vér Friderik enn Sjötti, af Guds Nád Konúngur Danm. etc.

Kunngjørum: Ad hér eptir skal árlega setja Kapítuls-Taxta á Voru landi Islandi, og med tilliti hér til skulu Vorir Embættismenn frá Voru Rentukammeri fá þau naudsynlegu bodord. Og viljum Vér allranádugast, ad allir skattar og afgjøld til Vor, ásamt allri landskuld, tíundum og yfir høfud ad segja, øllum afgjøldum til Embættismanna og opinberra Stiptana, skuli, þegar þau áskilin eru í land-

aurum, en verda ecki af hlutadegendum afgreidd í tilteknum skileyri, gjaldast eptir fyrrgreindum Kapituls-Textum, þó svo, ad hafi sá, sem gjalda á, ødlast rétt til ad kjósa sér, annadhvert ad mega í landaurum gjalda, eda med áqvednu peníngа útsvari, egi hann framvegis vølina þanninn, sem Vor Tilskipan af 20ta Martz 1815 í §. 21. hefir áqvardad.

Hvar eptir øllum hlutadegendum ber allraundirgefnast ad breyta.



Opid





# Opid Bréf,

áhrærandi

Lenglngu þess áqvardada Stefnufrests í tilliti til Vogreka vid Island.

---

Kaupmannahøfn, þann 21ta Apr. 1819.

---

**Vér Friderik enn Sjötti, af Guds Nád Konúngur Danm. etc.**

Kunngjörum: Þar ed Vér, med tilliti til afstødu Vors lands Islands, vetrar lengdar þar, og hørkum, og þar af leidandi Póst-gánganna teppu, allranádugast høfum ásett, ad lengja þann fyrir Vort fyrrgreinda Land, med Tilskipuninni frá 4da Maji 1778, áqvardada stefnufrest, fyrir útlenda eigendur Vogreka, sem bera

þar ad landi; því bjódum Vér þessu samqvæmt, ad sá árs og dags stefnufrestur, sem fyrrnefnd Tilskipan áqvedur, fyrir þá, sem búa annar' stadar enn á Voru landi Islandi, og ega skip og vørur, sem á nefnt land ber upp, lengist framvegis til tveggja ára, frá því innkallan eigendanna (Proclama), sem um þvílík Vogrek auglýsist, í sídasta sinni á prent útgengur í Altona's Merkúr.

Hvar eptir hlutadegendum ber sér allra-undirgéfnast ad hegda.



Opid

# Opid Bréf,

áhrærandi

Gyldi Siglufjardar í Vadla Sýslu, í Islands Nordur og Austur Amti, til ad vera løgmætt Kaupverdslunar plátz, og leyfi til ad uppsigla og høndla í 2 ár á Raufarhøfn í Þíngeyar Sýslu í sama Amti.

---

Kaupmannahøfn, þann 4da Maji 1819.

---

Hans konúnglega Hátign hefir allranádugast leyft:

1.) Ad Siglufjørdur í Vadla Sýslu í Nordur og Austur Amti Islands megi álltast, sem løgmætt Kauphøndlunar plátz, þó hann ecki sé svo tilnefndur í Tilskipan frá 11ta Sept. 1816. og

2.) Ad

2.) Ad Raufarhøfn í Þíngeyar Sýslu innan sama Amts megi uppsiglast til reynslu í 2 ár, án þess, ad ályktast, sem rétt kaupverdslunar plátz, og kauphøndlan þar brúkast í sömu tíd, med þeim kjørum og skilordi, sem lögd eru fyrir samþyckta kaupverdslun á úthøfnum.

Þetta kunngjørist hér med, eptir allrahæstu Alyktun, þann 1ta þessa mánadar, til allra hlutadegenda eptirbreytni.

Rentukammerid, þann 4da Maji 1819.

Hans konúngl. Hátignar til Danmerkur, etc. Præsident, Deputeradir og Tilskipadir í Rentukammer Collegio.

MÖSTING.

Wormskjold. M.v. Essen. A. Moltke. Vorndran.
Hjort. H. Jensen. Mandix. Arentz Kongslew.
Meyer. Rothe. Vølfhagen. Knuth.

---

*Schifter.*





# Opid Bréf,

## fyrir Island

## Sem auglýsir ýmislegar áqvardanir, um Islands Penínga-gjøld og gyldi.

Kaupmannahøfn, þann 11ta Maji 1819.

---

Vér Friderik enn Sjötti, af Guds Náð Konúngur til Danmerkur, Vinda og Gauta, Hertogi til Slesvíkur, Holsetulands, Stórmæris, Péttmerskis, Lauenborgar og Aldinborgar.

Kunngjørum: Ad Oss, med tilliti til áqvardana, sem Vér, um penínga gjøld og gyldi

í Norn

í Voru Ríki Danmørku høfum fastsett med Voru Opna Bréfi frá 6ta April 1818, allranádugast hefir þóknast fyrir Vort land Island, ad bjóda fylgjandi:

1.

I øllum tilfellum, hvar gjalda skal samqvæmt Vorri Tilskipun fyrir Vort land Island, af 20ta Marz 1815, eptir því silfurs gángverdi, sem þáverandi Ríkisbánki setti, ber framvegis, ef hlutadegendur láka vilja med sedlum, gjøld þau ad afgreida á missirinu frá 1ta Júlii til sídarsta Dec., ad bádum medtøldum, eptir hálfsmissiris gángverdi því, sem þar til af Oss kjørin Nefnd sett hefir fyrir Vort Ríki Danmørku, þann 20ta Marz næst ádur; en á missirinu frá 1ta Janúarii til 30ta Júnii, ad bádum medtøldum, eptir gángverdi því, sem fyrrtéd Nefnd sett hefir þann 20ta Sept. næst fyrir. En gángi eckert skip um haustid, eda hvert sem er, komi ecki í tíma til Islands, ber sama gángverdi ad fylgja óbreyttu á missirinu frá 1ta Jan. til 30ta Júnii, sem gyldti um

næst

næst umlidid missiri. Annars má hvert skuldunautur kjósa, hvert heldur hann gjalda vill í silfurmynt eda sedlum, eptir fyrrnefndu gángverdi.

2.

Vor Tilskipan af 20ta Marz 1815 §. 3 breytist svo: ad allir samníngar um peninga gjøld, sem framvegis framfara skulu, sé ecki um gagnstædt útþryckilega samid, álítast gjørdir um Ríkisbánka peninga í reidusilfri, svo ad Lánardrottinn er ecki skyldur ad veita vidtøku ødrum gjaldmedølum enn silfurmynt, eins og áqvedid er í Vorri fyrrgreindu Tilskipun; þó leyfist hlutadegendum ad semja, ad skuldunautur kjósa megi, hvert heldur hann gjalda vill í silfri eda sedlum, med því gyldanda gángverdi, sem þessarar Vorrar Tilskipunar 1. §. áqvedur, en sé eckert áskilid um þá vøl, ber gjeld ætíd ad lúka med silfurmynt.

3.

Í daglegri verdslun og vidskiptum skulu Ríkisbánkasedlar eins og híngad til gánga og

gylda

gylda eins og þeir uppáhljóda. En í gjøld, sem lúkast eptir samníngi eda skulda-brefi, skal þessa sedla meta, sem fyrr segir; þó skal øll- um skuldbindíngum, sem híngad til gjørdar eru uppá Rikisbánka í Nafnverdi eda sedlum, frams vegis fullnustu gjera med sedlum, án tillits til fyrr umgetins gángverds.

4.

Vorrar Tilskipunar frá 20ta Marts 1815 § 5. breytist þanninn, med tilliti til þess batn- eda gángverds: ad Smáskildingar ecki medtak- ist, hvar Nafnverds gjøld ega heima, til meira verds enn svo, ad 5 ß. kúrants svari 8 rbßm.

Hvar eptir hlutadegendum ber sér allra- undirgéfnast ad hegda.

---

Videyár Klaustri, 1820.

Útgéfid frá þeim konúngl. íslendska Landsyfirretti á konúnglegann kostnad, og prentad af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.

# Opid Bréf,

## sem fyrirbýdur Auktións-höldurum ad láta sér tilslá nockud af því, sem þeir sjálfir ellegar adrir þeirra vegna vid Auktiónir selja.

---

Kaupmannahöfn, þann 19da Martz 1819.

Med allrahæstum Urskurdi hefir konúnglegri Hátign þócknast hann 10da þ. m. ad áqvarda:

1.) Ad sérhverjum Auktiónahaldara skuli fyrirbodid vera sjálfum ad kaupa edur adra sér til handa kaupa láta nockud þad á þeirri Auktión, sem hann sjálfur eda annar hans vegna heldur.

2.) Ad hann ecki halda megi Auktión á egin gótzi sínu; þó sé þad fráskilid, sem honum í launa stad útlagt verdur, sem Fógéta (Undiryfirvaldi) — og

3.) Ad sá, sem í því tilfelli skipadur verdur til ad halda Auktiónina, njóta skúli fyrir þad einúngis hálfra launa, en hin helftin vera þess, hverjum annars ber Auktiónshaldid.

Hvad hérmed kunnugt gjörist til allra hlutadegenda allraundirgéfnustu epirbreytni *).



---

*) Þó Auktiónir enn þa ecki séu hér lögleiddar ellegar adal-lagasetningin um þær frá 19da



# Konúnglegt
# Opid Bréf,

áhrærandi:

## ad gyldi þess konúngl. Opna Bréfs frá 26ta Aug. 1785 í §.§. 1. og 2, vera skuli hid sama annarsstadar (í Ríkinu), sem í Kaupmannahöfn.

---

Kaupmannahöfn, þann 2ann Júnii 1819.

**Vér Friderik enn Sjötti, af Guds nád Konúngur Danm. etc.**

Gjörum öllum vitanlegt: Ad Oss, til ad flýta endalykt Skiptagjörda, hef-

---

Dec. 1693, eru þær samt vída í venju komnar. Má því vel vid ofan-nefnt Opid Bréf minnast á nockrar nýar laga-áqvardanir um þær, svo sem:

a) Cancelli-Umburdarbréf frá 13da Martz. 1819, sem band Amtmönnum ad auglýsa Skipta- og Auktióna Fyrirádendum: ad óleyfilegur sé sá Auktióna skilmáli og gagnstædur laga grundvelli Tilskipana um Sætta-málefni, ad kaup-

ir allranádugast þóknast ad fyriskipa og bjóda, eins og Vér hér med fyriskipum og bjódum, sem fylgir:



endum birtist fyrirköll til Sætta-nefnda, einúngis hvar Auktiónirnar haldast, og ad þeir séu samt skuldbundnir til eptir því fyrirkalli ad mæta, sem megi álíka afleidíngu hafa og óleyfilegir samníngar um ad sleppa sætta-tilraunum.

b) Opid bréf frá 25ta Janúar. 1820, ad ósamþyckt bod vid Auktiónir ecki gyldi 6 vikum lengur, nema í Auktióna skilmálum áskild sé (sjá þetta sjálft hér eptir).

c) Cancellí-Urskurd 1820 (Datum er óljóst eptir Collegial-Tídindum s. á. bls. 223): ad Auktiónir á lausafé alleins halda megi uppá ríkisbánka sedla reikning í Nafnverdi eins og uppá silfur-reikning, án tillits til gyldanda gángverds þeirra.

d) Cancellí-Umburdarbréf frá 12ta Jan. 1822: ad sá Auktións skilmáli, ad kaupandi, auk kaupverdsins, gjalda skuli 10 til 12 ß. af hverju dals vyrdi í Auktións og hennar kaupverds innköllunar laun, sem eptirlátist þeim, er Auktións-verdid innkallar, mót því, ad hann standi Auktióna útgjöldin, sé gagnstædur Placati frá 3ja Júnii 1818 §§. 4 og 5, sem fyrirbjódi ad innköllunar laun Auktióna kaupverds gángi framm yfir 4 af 100, en af því, sem úti hönd géldst, yfir 2 af 100; var því

1.) Ad Skipta-úrskurdum, sem felldir verda annarsstadar enn í Kaupmannahøfn, skuli, samqvæmt bodi Plakats frá 26ta Aug. 1785 í §. 1. stefna til hlutadeiganda Yfirdómstóls innan 12 vikna frá Urskurdarins degi, dvelji vidkomendur í Danmørku, en séu þeir utanríkis, þá innan 6 mánada. Vilji nockurr áfría Yfir-réttarins Dóm til Hæsta-réttar, fái hann sama frest þar til. Þó uppreisn veitast kunni til ad áfría þá Urskurdi ad þeim fresti lidnum, skal sú áfrían ecki hindra skiptanna framhald.

2.) Sømuleidis skal §. 2. Plaks. frá 26tá Aug. 1785 vera allstadar regla í Ríkinu, svo ad í dánar- skulda- samkrøfu- og þrota-búum, hvar sá dáni eda gjaldþrotni ecki álítst ad hafa nockra verdslun, útréttíngar eda ønnur størf á hendi haft utanríkis, skal nóg vera, ad lánardrottnar vid laga-fyrikall (Proclama) stefnist med 12 vikna fresti. Þetta fyrikall skal lesa vid varnar-þíng þess dána edur gjaldþrotna og vid þann Yfirrétt, undir hvern hitt liggur. En reynist ad hann annarsstadar í Ríkinu hafi átt eigur eda sérleg vidskipti, ber þad ásamt ad lesa vid Yfirrétt

---

Amtmønnum bodid ad tilhalda øllum Embættismønnum, hverjum Auktióna høld bera, ellegar ad setja þeirra skilmála, ad halda sér fyrrnefnd bodord Plac. 3ja Júnii 1818 í §§. 4 og 5, fyrir reglu.

þess Stadar og fyrikall þad þrísvar í rød ad auglýsa í Ríkis (Stats) Tídindunum, Fréttabløðum, sem løg-gyldt eru í sérhverju Umdæmi til auglýsínga, og þar hjá í Altóna's Merkúr (Fréttabladi svo nefndu). Ad ødru leiti er audvitad, ad fyrrtéd bodord eckert áhrærir fyrikøll (Proclamata), med hverjum Erfíngjar stefnast, sem ætíd er naudsynlegt ad verdi med árs og dags fresti í þeim tilfellum, hvar óvissa er um, hvert ecki séu fleiri arfbornir til enn þeir, sem Skiptarétturinn af veit.

3.) Øll Skiptamál, sem fyri Hæstarétt stefnast, skal, eptir auglýsíngu stefnunnar med þeim fresti, sem DL. 1—4—28 (en NL. 1—4—30) áqvardar, strax fyritaka í Hæstarétti jafnt ødrum málum, sem annadhvert med almennri fyriskipun edur eptir sérlegu Konúngs leyfi er á undan øllum ødrum bodid fyrir ad taka. Þó ber útþryckilega í stefnunni ad nefna, ad málid þanninn, án sérlegs leyfis verdi, ad laga-fyrikalls frestinum hjálidnum, tafarlaust fyritekid til Dóms í Hæstarétti*).

---

*) Ad §. 3 í Plac. 26ta Aug. 1785, ellegar Plac. frá 26ta Októbr. 1792, um innkøllun skuldaheimtumanna í fátækum dánarbúum, ecki séu heimfærandi til uppbods-búa, heldur ad eins til dánarbúa, hefir hid konúngl. danska Cancellí þ. 21ta Júlii 1821 úrskurdad. (Colleg. Tíd. f. á. bls. 526.)



# Cancelli Plakat,

## um náqvæmari áqvørdun Forgángsréttar vissra krafa móti samkrøfum.

---

Kaupmannahøfn, þann 23ja Júlii 1819.

Hans konúnglegri Hátign hefir þócknast þann 7da þ. m. allranádugdst ad úrskurda:

Ad ollar þær skuldakrøfur, hverjum Løg og Tilskipanir veita for-rétt vid skulda samkrøfur fyrir einføldum handskrifta krøfum, skuli framvegis forrétt hafa fyrir krøfum, fyri hverjum ved er sett (pantur) í ødru fé enn fasteignum, þó svo, ad þessi Fyriskipan ecki skérdi annara nú þegar fenginn pantrétt.

---

# Cancelli Plakat,

## um Yfirysirvalda myndugleika til ad áqvarda kostnad í opinberum málum, nema laun málsfærslu manna.

---

Kaupmannahøfn, þann 30ta Júlii 1819.

Konúnglegri Hátign hefir þann 14da þ. mánadar allranádugast þócknast ad úrskurda:

Ad Dómstólunum skuli framvegis ecki vidkoma ad áqvarda uppheldispenínga Sóknara og Svaramanna (Actors og Defensors) ellegar ønnur útgjøld, sem þeim ber ad standa, sem í Júftits-málum dæmist til ad gjalda málssóknar kostnadinn, heldur skuli Yfirvøld (Stipt-amt- og Amt-menn) áqvarda þesshàttar kostnad, þanninn, sem Tilskip. þ. 5ta Apr. 1793 hefir fyrirskipad. Samt undan skiljast frá þessum laun Sóknara og Svaramanna, sem framvegis med dómi áqvardist samqvæmt Tilskip. frá 24da Okt. 1806 *).

---

# Konúngleg
# Tilskipan
## fyrir Danmørku,
## innihaldandi frekari áqvardanir um bætur fyrir óþarfar þrætur.

---

Kaupmannahøfn, þann 11ta Aug. 1819.

---

*) Hvad þetta Placat framar býdur um stefnur Júftits-mála frá Borgundarhólmi til ædri Rétta, vidkémur alls ecki Islandi.

Eins og Konúngurinn med Tilskipun þann 23ja Janúar 1817, hefir í tilliti til Hærstaréttar, gjört þá frekari áqvordun um bætur fyrir óþarfar þrætur, sem Tilskipan þann 23ja Dec. 1735 tiltekur, ad þær samsvarad fái sérlegu ásigkomulagi sérhvers máls, hefir Honum nú í sama tilgángi þócknast ad fyrirskipa almennilegri reglugjörd og þar hjá fundid nockra umbreytíngu hentuga í tilliti til þeirra tilfella, til hverra Hann býdur ad nefndar bætur nái, því er þetta bod Hans og fyrirskipan:

1.) Bætur fyrir óþarfa þrætur, ega framvegis ecki ad áleggjast málsparti, einmidt þess vegna, ad hann eptir réttvísinnar grundvallar reglum dæmast á til ad gjalda málskostnad mótparti sínum, heldur skulu þær heima ega, hvar málspartur álítst, án nockurra sanngjarnra roksemda, hafa mál hofdad eda neydt mótpart sinn til málssóknar, ellegar hafi hann ad ödru leiti vidhaft augljós undanbrogd til málalengíngar edur og líka til ad spilla rétti mótparts síns. Sömuleidis ber þann til þeirra bóta vid fyrsta Rétt ad dæma, sem ecki eptir skyldu sinni mætir til fyrirskipadra sætta tilrauna. Annars er sjálfsagt, ad ef breytni þess, sem sekur verdur um bætur fyrir óþarfar þrætur, einninn í ödru tilliti verdskuldar lagastraff, á ecki þeim seka ad hlífa vid þeim bótum ásamt.

2.) Þessar bætur, sem, eins og híngad til, bera Júſtitzkassanum, skal áqvarda, samqvæmt

edli yfirsjónarinnar og efnum málsparta, svo, ad vid Hærstarétt verdi þær frá 40 til 200 rbdla, vid Yfirréttina og Hofs- og Stadar-réttinn eins, vid Sjóar-réttinn og Gésta-réttinn í Kaupmannahøfn frá 10 til 50 rbdla, en vid Undir-réttina almennt frá 4 til 20 rbdla, allt í silfri.

---

# Konúngleg
# Tilskipan
## fyrir Danmørku,
## vidvíkjandi breytíngu á Réttar medferd þeirra mála, sem ad opinberri rádstøfun høfdast gégn laga-afbrota-mønnum.

---

Kaupmannahøfn, þann 13da Okt. 1819.

Til þess ad hrada Réttarins framqvæmd, sem ber, í þesshattar málum, býdur hún í

§. 1. Eins og Dómarans skylda er, eptir Tilskip. frá 3ja Júnii 1796 §. 25, ad standa fyrir þar nefndu frumprófi, sé þad og skylda, þegar samt einhverja skírslu enn vantar, sem naudsynleg er til dóms áleggíngar, þó Sóknari (Actor) og Svaramadur (Defensor)

nefndir séu, hans eins og án þessara vidurvistar ad halda fram ransókn þesshàttar máls med ítarlegri yfirheyrslu ákjærdra eda annara manna, sem skírslu fá gésid um málid, allt eins þó þessir eidfesta egi vitni sín; þó skal, ef eid ber ad vinna, Svaramenn setja til þess ad gæta réttar ens ákjærda, sé þessi í vardhaldi undir umdæmi svo fjarlægrar løgsagnar þeim stad, hvar vitni leidast, ad hann verdi ecki hæglega til vidurvistar þángad færdur.

§. 2. Med þessu frítakast samt ecki Sóknari eda Svaramadur frá fullnægjugjørd lagaskyldu þeirra, ad ala ønn fyrir fullnógri upplýsíngu málsins; en ad því leiti þad, sem hana ábrestur, útvega þarf vid ítarlegri ransókn, haldi þeir sér þar um einúngis til Dómarans, sem þá breytir eptir §. 1., sinni hann þá ransókn naudsynlega.

§. 3. Þared óþarsi er, bædi eptir edli málsins og ástædum Plakatsins frá 28da Marts 1800, þegar sá ákjærdi sjálfur kannast vid þad, sem hann ákjærist um, ad vitni, hverra framburdum ber saman vid játníngu hans, eidfesti þessa, á ecki í þvílíkum tilfellum ad kalla þau vitni til eids. Þó er audvitad, ad þessu ber ecki ad fylgja, þegar vitnisburdir áhræra eitthvad áridandi fyrir afdrif málsins, sem engin skýlaus játníng ens ákjærda finnst um, ecki heldur þá, hvar ráda má af mála-vøxtum, ad eitthvad þesshàttar megi framkoma, þegar eidur vitna er um krafinn.

§. 4. Þó ad løg bjódi skírslur ad útvega um undanfarid framferdi þess ákjærda, einkum hvert hann sé ádur ad nockru lagabroti uppvís ordinn, sem olla egi straffs herdíngar fyrir þann glæp, sem hann þá ákjærist um, framar enn annars, skal samt í þessum tilgángi enga sérlega ransókn taka þar, sem hinn ákjærdi ádur dvaldi, nema sérleg atvik gjøri líklegt; ad þar vid uppgøtvist eitthvad, sem verka megi til afdrifa málsins. En yfir høfud sé þad nægilegt, ad sá ákjærdi lýsi náqvæmlega æfi sinni og ad sú lýsíng, ad því leiti verdur, berist saman vid vitnisburdi hans og vitni frá Prestum, frá strøffunarstødum og vidønnur skilríki, sem útvega má án sérlegra umsvifa.

§. 5. Dómaranum ber, ad því leiti ásigkómulag málsins þad leysir, ad ala ønn fyrir, ad naudsynlegir vitnisburdir og skilríki annarsstadar ad, krefjist svo snemma, ad málid ecki draga þurfi þeirra vegna.

§. 6. Ad ødru leiti áminnist hverr Dómari um, sem áhyggjusamlegast þess ad gæta, ad Júst-itz-mál í øllu tilliti framist med tilætludum hrada, bædi eptir þessu lagabodi, Tilskipun frá 3ja Júnii 1796 og fleirum lagasetníngum um þessi efni, med hverju bædi hlutadegandi Yfirvøldum og Yfirdómstólum ber hid náqvæmasta tillit ad hafa.



# Konúngleg Tilskipan,

## viðvíkjandi innleiðslu stutts Réttargángs forms þeirra Privat-mála, sem áhræra ójöfnuð í orðum og verkum.

Kaupmannahöfn, þann 20ta Okt. 1819.

Svo að þesshattar prívat-mál hæglegar og kostnaðarminna enn híngað til verði upplýst, er boðið í

§. 1. Vilji nockurr átelja þann ójöfnuð í orðum eða verkum, sem eptir gyldandi lagasetníngum ecki viðkémur Réttvísinni að ákjæra, skal meðferð þvílíkra málefna framvegis vera söm, sem Pólití-málefna; þó undantakast þau mál, sem áhræra prentaðar eða skriflegar sakargiftir.

§. 2. Akjæríst munnlegar sakargiftir þess eðlis, að klagarinn áliti sér bera að krefja hinn dæmdann til þriggja marka (þ. e. ærulevsis) bóta, skal að sönnu taka mál það undir Sætta tilraun og ransókn, sem í §. 1: segir; þó undanskiljast, í Sætta tilraunar tilliti, þau tilfelli, hvar sá áreitti er skuldbundinn til að hreinsa sig með dómi frá sakargiftum, en Dómarinn skal,

verdi sætt ecki ákomid, frávísa málinu til frekari medferdar og dóms vid reglulegann (Undir) rétt, en hafi þó ádur bendt klagaranum til afleidínga þeirra, sem krafa sú kann honum ad ölla.

§. 3. (Ahrærir ad eins medferd þessháttar mála í Kaupmannahøfn, og vidkémur eckert ødrum Stødum edur landsplátsum.)

§. 4. Vid medferd fyrrnefndra mála, skal náqvæmlega fylgja lagasetníngum, sem géfnar eru um framá Pólití-mála, einkum bodordanna í Tilsk. frá 8da Martz 1799 *).

---

*) Hún býdur: „Þegar ransóknar-gjördir í „málinu framfara, ellegar þau medhøndlast vid „Pólitírétinn, hvar løg banna talsmønnum fyrir hlutadeigendar ad mæta, þá ber Dómaranum „sjálfum ad yfirheyra bædi Parta og Vitni, „og þar hjá náqvæmlega ad leita allrar mögulegrar upplýsíngar um rétt ásigkomulag málsins, „eptir því, sem hann finnur tilefni til og eptir „máls atvikum, sem framkoma kunna vid medferd „þess, svo ad Rétturinn þar med dæmt fái med „fullvissu, hverr rétt eda rángt mál hefir, hverr „sekur sé ellegar ecki.

„Forsómi nockurr Dómari edur Réttar„þjón þessa Embættis skyldu, sem er svo mjøg „áríþandi fyrir Réttarins framqvæmd og frid„helgi manna, ber Yfirréttinum ad heimvísa því „máli til nýrrar og løglegri medferdar, á hins

§. 5. Dóma Undir-rétta í fyrrnefndum málum og þessara medferd, skal, bædi á landinu og í Kaupstödum, áfría vid hlutadeganda Lands-Yfirrétt.

§. 6. (Ahrærir gjöld fyrir medferd fyrrnefndra mála, eptir Reglugjörd um Aukatekjur, frá 22rum Marts 1814, hver hér á landi er ólögleidd, vyrdist því þessi §. 6. eins og hún, hér óheimfærandi).

---

# Cancelli Plakat,

Dagsett 21ta Janúarii 1820.

birtir bodord Konúngs þann 21ta sama mánadar:

Ad Sættir, sem fyrir Réttum semjast, skuli framvegis, eins og þær, sem lyktast vid Sætta-nefndir, ödlast útlags krapt*).

---

„kostnad, og Dómarann þar ad auki ad sekta eptir makleg leikum og ásigkomulagi yfirsjónar hans „og hyrduleysis."

*) Med Cancelli-bréfi (til Justitiarii) dagsettu 16da Júnii 1821 (sjá Klpóst s. á. bls. 138—139) hefir þetta Stjórnarrád auglýst: ad kon-





# Cancelli Plakat

fyrir Danmörku,

dagsett 25ta Janúarii 1820.

## sem birtir Bodord Konúngs þann 12ta sama mánadar:

---

Ad bod vid Auktiónir, sem ecki er gyldt metid innan 6 vikna frá hennar lokum, ecki skuldbindi framar þann, er baud, nema útþryckilega áskilid sé í Auktióna Skilmálunum og þeim lýst ad lögum, ad sá, er baud, skuli lengur skyldur ad standa vid bod sitt; skal sú regla allteins gylda, hvert sem eckert (Auktións) hamars-slag skédur, svo ad ný Auktión verdi haldin, ellegar hamars-slag géfst, med skilyrdi um frekara samþycki.

---

úngl. Hátign allranádugast hafi veitt því myndugleika til, vid hvers árs lok ad yfirvega framvegis, hverjar helzt af þeim fyrir Danmörku árlega útgéfnu almennu lagasetníngum, hjódasi skuli ad verda gyldandi lög á Islandi, sem Amtmönnum sidan auglýsist til frekari birtíngar alþýdu. Því verda nú — auk þeirra Islandi sérlega géfna lagasetninga — einúngis þær af hinum frá birjun ársins 1820 á prent útgéfn-



# Konúnglegt
# Opid Bréf,

## med hverju leyfist ad semja um skuldir í sedlum og teiknum, en renta þesshátttar skulda áqvardast jöfn vid þá annars leyfdu.

Kaupmannahøfn, þann 22ann Nóv. 1820.

Friderik enn Sjötti, af Guds nád Konúngur, etc.

Gjörir kunnugt: ad med því peníngaástand landsins, eptir mikla innlausn sedla, sem Þjódbánkinn þad ár hefir framqvæmt, vottar, ad þetta hafi þeirri stadfestu náð, ad útlán og adrir skulda-samníngar, gjördir í sedlum og teiknum, ecki megi framar olla þeim skadvænu afleidíngum, sem tilgángur bodordsins: „ad allir peninga-skulda samníngar um tíma gjördir, standa skyldu uppá silfur eitt," sem finnst í Konúngsins opna bréfi frá 6ta Apr. 1818, midadi til ad afstýra, hefir Hann nú, til léttirs

ar frá þeim konúngl. Lands-yfirrétti, sem konúngl. Hátign Sjálf, ellegar Cancelliid árlega auglýsir: ad álitast skuli sem gyldandi Løg á Islandi, samqvæmt Canc. br. af 14. Maji 1803.

Peninga umrásinni, rádid þad fast, ad aptur-kalla fyrrnefnda tálmun, en þarhjá fundid, ad ádur veitt leyfi af sedla skuldum ad áskilja sér hærri rentu, en laganna bodord annars heimila, eptir núveranda ásigkomulagi ecki á framar ad gylda. Því var bodid í

§. 1. Framvegis skal aptur leyft vera, ad gjöra samnínga og útgéfa skulda-bréf, hljódandi uppá Ríkisbánka sedla og teikn, þannig: ad endurgjaldid verdi í Ríkisbánkasedlum, án til-lits til Qvartal-gángverdsins, um hvert ad ödru-leiti ádur gésin bodord í öllu skulu gylda.

§. 2. Þó skal leyfi þad, sem Tilskipan frá 5ta Jan. 1813 í §. 21. og konúngl. Ur-skurdur frá 20ta Apr. nærst eptir (auglýstur med Cancellí Plakati frá 27da sama mán.) gaf, ad taka 1 af 100 meira í rentu-peninga af láni í sedlum og teiknum, enn leyft er annars í lögum, vera aftekid, ad því leiti snertir skuldbindíng-ar, sem framvegis gjörast; hvar á mót þessi skipan eckert raska skal eldri skuldbindíngum um lán í sedlum og teiknum, med hverjum löglega samid er um hærra rentu-gjald.





# Cancelli Plakat,

dagsett 15da Decembr. 1820.

**birtir bodord Konúngs þann 6ta s. m. um birtingar fyrirkalla í sakamálum, þegar fángi er úr vardhaldi strokinn.**

Ad þegar sakamálum er stefnt fyrir ædra Rétt, skuli sú fyrirkalls auglýsíng gyld álítast, sem framfer í fángélsinu, þó fánginn kynni þadan ad vera strokinn*).



## Konúngleg
# Tilskipan
fyrir Danmörku,

**innihaldandi áqvardanir um afhendingu nockurra styckja af prent-**

*) Undir eins og hid konúngl. Cancelli med fyrrnefndu bréfi sínu (á bls. 142) frá 16da Júnii 1821, lýsti ecki fleirum enn nærstundangengnum 4 Lagasetningum frá 1820, sem gyldandi á Islandi, lét þad Justitiario þá meiníngu sína í ljósi: „ad hver (gyldandi) Lagasetníng á Islandi

ndum ritgjørdum, m. fl., til þess mikla konúnglega og Háskólans Bókasafna*).

Kaupmannahøfn, þann 19da Jan. 1821.

Vér Friderik enn Sjötti, af Guds nád Konúngur Danm. etc.

Gjørum vitanlegt: Ad Vér allranádugast viljum fyriskipa og fastsetja, ad þad, sem fyriskrifad er í Tilskipunum frá 25ta Apr. 1732 og 10da Jan. 1781, einninn í Plakati frá 5ta Febr. 1783 um afhendíngu nockurra styckja af prentudum ritgjørdum og konstverkum, til þess mikla konúnglega Bókasafns, líka ad þær áqvardanir, sem med

K 2

„sé heimfærandi uppá mál manna, þó hún ecki „almennt eda vid Yfirrétt auglýst sé, sem sannast ad vera þínglýst vid þann Rétt, sem er „varnarþing vidkomenda."

*) Ad sönnu hefir Cancelliid, í bréfi sínu frá 20ta April. 1822, ecki nefnt þessa Tilskipun medal gyldandi lagasetnínga frá árinu 1821 hér á landi, en efalaust þess vegna, ad hennar §§. 2 og 6 sjálfir lýsa hennar gyldi allteins hér, ad því leiti þessu landi gétur vidkomid.

Kóngsbréfi til Kaupmannahafnar Stadar-Yfirvalds, þann 14da Dec. 1753, géfnar eru, um afhendíngu styckja af ritum, sem prentast í Kaupmannahøfn til Háskólans Bókasafns, skuli framvegis svo umbreytt vera, sem hér eptir segir:

§. 1. Skyldan, sem híngad til legid hefir á Bókþryckjurum; ad skila ókeypis styckjum Konúngsins mikla Bóka-safni, af sérhverju; sem hjá þeim prentad verdur, og Kaupmannahafnar Háskóla Bókasafni, skal framvegis ecki liggja á Bókþryckjurum, sem Prenturum, en þess skylda skal vera, á hvers forlag eda kostnad rit eitthvert útkémur, ad skila þeim áskildu styckjum ókeypis, eins þó ritid utanríkis prentad verdi.

§. 2. Nefnd skylda, sem í tilliti til Háskólans Bókasafns híngad til hefir ecki nád út fyrir Kaupmannahøfn, skal framvegis ná til allrar Danmerkur, hvad þetta Bókasafn áhrærir, einninn til Islands og Colónial-landanna.; sømuleidis skulu Frétta- og Viku-blød, prentadir Listar yfir bækur, koparstúngur, steinprent og þessháttar, einninn yfir mynta, konsta og náttúru-verka søfn, afhendast framvegis, allteins Háskólans og Konúngsins mikla Bókasafni, en adrir Prentlistar, Auktióna auglýsíngar, Brúdkaups- og Erfi-ljód séu, sem fyrri, fráskilin afhendíngu til Bókasafnanna.

§. 3. Eins og þegar bodid er, ad annad styckid af þeim tveim óinnbundnu, sem afhendast ega Konúngsins mikla Bókasafni, sé á skrif-pappír, ber einninn ad þad eina óinnbundna stycki, sem Háskólans Bókasafni tilkémur, sé á þann pappír.

§. 4. Þó einúngis beri ad skila Konúngsins Bókasafni styckjum af sérílagi útkomnum koparstúngum, steinprenti og ødrum álíkum konstverkum, hver skylda og framvegis skal liggja á þeim, sem kostar þvílíkt konstverk, skal Háskólans Bókasafni samt bera tilkall til þeirra afmálana, koparstúngna, steinprents ellegar annara málverka, sem heyra til útgéfins rits, og sem því fylgja ega, nema svo sé, ad þau fyrst útkomi, eptir þad ritid er afhendt, og skal þeim þá skila vid fyrsta skildaga eptir þess útgáfu.

§. 5. Bóka- eda konstverka-salar eda Prentarar í Kaupmannahøfn, á hverra forlag rit útgánga eda annad, af hverju skila ber styckjum, skulu í birjun sérhvérs árs Janúarí og Júlí mánadar senda vidkomanda Bókasafni þau áskildu stycki ókeypis af þeim Forlags-ritum, sem um nærst umlidid missiri hjá þeim eru útkomin, ásamt tveim samhljóda eginhandar listum yfir þau, hverra annann þeir fái aptur med áteiknadri qvittanzíu frá hlutadeganda Bókasafni. Hvad áhrærir afmálanir, koparstúngur, stein-

prent edur annad þesskyns, sé nidurlag §. 4. þar um regla.

Komi þarámót nockurt rit eda konst-verk út á einhvers forlag, sem ecki hefir Borgara-rétt eda einkaleyfi, sem Bók- eda Konst-verka-sali eda Prentari, skal Forleggjarinn strax, og í seinasta lagi innan 14 daga, eptir þad hann útgéfur nockra auglýsingu um útkomu þess, innsenda þau áskildu stycki til vidkomandi Bókasafna. En afhendi Forleggjarinn sídan Forlagid Bók- eda Konstverka-sala eda Prentara nockrum, ber þessum ad ná fullvissu um, ad þau fyriskipudu stycki afhendt séu, því ella ber honum ad standa skil á þeim, eins og hann sjálfur væri þeirra Forleggjari.

§. 6. Annarsstadar enn úr Kaupmanna-høfn skal ecki beinleidis senda Bókasøfnun-um ritin, heldur í Umdæmunum vidkom-anda Amtmanni, á Islandi Stiptamt-manninum og í Cólonial-løndunum Stjórninni; sendast ritin sídan frá þeim þanninn, sem Tilskipan frá 10da Jan. 1781 fyrileggur. Ad ødru leiti gyldi sømu reglur, sem løgskipadar eru fyrir Kaupmannahøfn.

§. 7. Verdi nockurs Bók- eda Konst-verka-sala eda Prentara bú ad uppbods- eda þrota-búi, skulu Bókasøfnin Réttar-tilkall hafa til ad krefja þau stycki, sem þeim bera, sér afhendt úr þeim búum, sem eign þeirra.

§. 8. Sá Bók- eda Konstverka-sali eda Prentari, sem ecki innan þess í §. 5. fyriskipada skildaga, afhendir þann áskilda lista, skal bæta 4 rbkdlm silfurs fyri hvern mánud, sem hann forsómar ad gégna þeirri skyldu sinni.

Sá, sem reyniſt ad hafa ressjást um, ell-egar undanfellt nockurt rit, sem á hans Forlag er útkomid, skal bæta 2mki s. fyri hvert ark, sem þvílíkt rit heldur, sé þad einu staf-rofi minna, en 10 rbkdlm silfurs fyri sér-hvert rit fullu stafrofi jafnt og stærra, allt ad 2ur stafrofum, og þanninn framvegis 10 rbdlm s. fyrir hvers stafrofs stærd.

Sama sekt liggur og vid, þegar adrir Forleggjarar undandraga afhendínguna framyfir þann í §. 5. áqvedna skildaga. Fyri afbrot gégn þessari Fyriskipun, sem ecki verda heimfærd til fyrrtédra áqvardana, má Rétturinn álegg-ja hæfilegar sektir eptir málavoxtum.

§. 9. Öll málaferli, rísandi út af afbrot-um gégn þessari Fyriskipun, ber ad medhöndla, sem Pólití-mál, en sektir, í hverjar nockurr kann dæmdur verda, falla til Pólití-kassans.

Hvar eptir allir vidkomendur skulu allra-undirgéfnast vita ad breyta.



# Cancelli Plakat,

fyrir Danmørku

Dagsett 26ta April. 1821.

áhrærandi Aftekningu afdráttar-réttarins af útfluttum eigum millí Danmerkur og Slesvíkur og þeirra furstalegu waldeksku landa*)

# Rentukammers Plakat

dagsett 1ta Júnii 1821.

áhrærandi Rentukammerinu veittann myndugleika, til ad leyfa framandi ríkja þegnum siglingar til Islands med Timbur-farma, án þess ad gjalda þann vid Tilsk.

*) Þetta Placat álcit Cancelliid þann 20ta Apr. 1822, hér ad mega ná lagagyldi, en — ólíkleg sýnast eda miøg sialdgæf þau tilfelli verda mega, ad á þess heimfærslu hér halda þurfi og þess útlegging því um sinn óþorf.

frá 11ta Sept 1816 § 3. álagda toll af þeim.

---

Konúngleg Hátign hefir med allrahæstum Urskurdi þann 30ta Maji nærstl., med tilliti til timburs og trjávidar skorts á Islandi, allranádugast veitt Rentnkammerinu myndugleika til hér eptir, þegar — og á medan — naudsynlegt vyrdist, ad géfa framandi Ríkja þegnum siglínga pássa, til þess ad mega flytja til Islands timbur og annann trjávid, án þess þar af ad lúka þann í Tilsk. frá 11ta Sept. 1816 í §. 3. áskilda toll, en ad ödru leiti med þeim í allrahæstnefndri Tilskipun fyrilögdu skilmálum og þarhjá þeim sérlegu skilordum, sem Rentukammerid í sérhverju einstöku tilfelli finna kann hæfa.

---

# Köngs-Bréf

til Islands Amtmanna,

um Kúabólu Setníngu á Islandi.

---

Kaupmannahöfn, þann 18da Júlí 1821.

Canceellíid hafdi skírt Konúngi frá, ad enn þótt innbúar Islands eptir ýmislegum, hvad

eptir annad gjørdum rádstøfunum, séu gjørdir hluttakandi í þeim hollu afleidíngum Kúabólu setníngar, ad hún sé mønnum varnar-medal mót Barnabólu-sótt, hafi þó einkum skortur á duglegum Bólu-setjurum hindrad þar Kúabólu setníngar algjørlegann frama og vidhald, hvers vegna Konúngur — eptir heilrædum Cancelliisins — med þessu Bréfi allramildilegast fyriskipar eptirfylgjandi áqvardanir, sem fyrst um sinn gyldandi:

§. 1. Sú skal vera skylda þess Landphysici, sem á Nesi býr, árlega á þeim døgum Júlii mánadar, sem Synodus generalis eda Presta-stefna er haldin, og í hvert sinn, sem Prests-vígsla framfer í Reykjavík, þángad ad koma og kauplaust ad kénna Prestum og Próføstum, sem koma til Reykjavíkur, allt hid naudsynlega, sem vidvíkur Kúabólu-setníngu og þar hjá árlega nockra vordaga um mót Aprílis og Maji mánada, ad ferdast til Bessastada Skóla, fyrir endurgjald verulegs tilkostnadar fyrir flutníng og uppheldi sitt, til þess þar ad kénna sama þeim, sem útskrifast úr Skólanum.

§. 2. Sømuleidis skipast þeim svo nefndu Fjórdúngs- eda Hérada-Handlæknum, ad kénna Prestum í þeirra Sýslu, sem Handlæknar sjálfir í búa, kauplaust Kúabólu-setníngu eptir rød þeirri og reglu, sem Amtmadur fyrirleggur; en hvad vidvíkur Sýslum þeim, í hverjum enginn Handlæknir býr, skyldast 2 Prestar

edur adrir í Kúabólu-setníngu til hlýtar fullnuma menn, sømuleidis eptir vidkomanda Amtmanns frekari nidurskipun og áqvørdun, ad takast stutt ferdalag á hendur innan Sýslu, til ad kénna hinum Prestunum, eda hvar þessir vera kynnu óhæfir, ødrum heidursmønnum í bændastétt, allt hvad Kúabólu-setníngu vidvíkur, svo ad í sérhverri Sýslu eda Prófasts-dæmi landsins, fást kunni 6 til 8 fullnuma Kúabólu-setjarar og veitist Amtmønnum myndugleiki til ad áqvarda umbun þeirra útgjalda, sem vid nefnd ferdaløg orsakast Handlæknum, eda áminnstum 2ur Prestum, ellegar ødrum um Kúabólu-setníngu fullfródum mønnum.

§. 3. Allir þanninn mentadir Kúabólu-setjarar skuli eptir því, sem Landphysikus ellegar Hérada Handlæknar uppástínga, af hlutadegandi Amtmanni setjast til ad framqvæma Kúabólu-setníngu, fyrir 12 rbß. Silfurs kaup af sérhverjum, er sú bóla sett var med heppni, og reiknast í sama kaupi falin borgun fyrir løgbodinna vitnisburda meddeilíngu um setta Kúabólu; en egi svo fátækur í hlut, ad hann megni ecki þettad ad afgreida, ber honum kauplaust Kúabólu ad setja.

§. 4. Framvegis skal enginn vænta mega frama til Prests-Embættis á Islandi, nema hann ítarlega sanni, ad hann fullfródur sé um allt, sem vidvíkur Kúabólu setníngu og þarhjá skuldbindi sig til, annadhvert sjálfur

ad setja Sóknabúum hans Kúabólu, eda láta fullnuma hjálpar-mann gjøra þad undir sinni umsjón.

§. 5. Sérhverr Prestur fái bók, sem Yfir-yfirvaldid hafi þar til gyldt, í hverja allir, hverjum Kúabóla sett verdur, innskrifast, og þar hjá, nær Kúabólan var þeim sett, og nær løgskipadir vitnisburdir þar um vóru útgéfnir, hverjar bækur ad ødru leiti haldast skulu eptir því formi, sem tiltekid er í Plakati frá 29da Martz 1811, fyrir Danmerkur Ríki um Kúabólu setníngu.

§. 6. Kúabólu setjendum skipast áhyggjusamlega ad vardveita Kúabóluna og hennar vos, en þrjóti þetta, þá skal beidast þess af Landphysikó eda Hérada Handlæknum, hverja búa ber aptur út med hennar efni frá þeirri allranádugast tilsettu Nefnd manna í Kaupmannahøfn til Kúabólu setníngar, og ber Kúabólu-efni og vosum ad útbýta í Reykjavík og Bessastada Skóla af Landphysíkó, þegar hann skyldast til þar ad mæta.

§. 7. Allir Kúabólu-setjarar, bædi Prestar, Hérads-Læknar og adrir þar til skipadir skulu árlega til Landphysici senda Utdrætti af Kúabólu-setníngar Bókinni, hverjir Utdrættir, ad því leiti Prestum vidkémur, gyldist af vidkomanda Hérads Prófasti, en í tilliti til annara Kúabólu-setjara af Sýslu-

manni hverrar Sýslu, og ber Landphysíkó sídan ad senda þá alla í einu til þeirrar um Kúa-bólu-setníngu tilskipudu Nefndar í Kaupmannahöfn, frá hverri þeir af Cancellíinu framleggist fyrir Konúnginn til- uppiýsíngar um frama þessa mikilvæga efnis, og sérhvers Kúa-bólu-setjara meiri eda minni framqvæmd: Kostnad þann, sem leidir af þessarar rádstøfunar framqvæmd, má í 2 fyrstu árin endurgjalda af Konúngs fjársjódi, ad hverjum lidnum hverr Amtmadur á ad innsenda álit sitt, hversu Kúa-bólu-setníng framvegis framast megi, og hvert ecki bodord þau, sem Tilskip. frá 3ja Apr. 1810 og Plak. frá 19da Nóv. 1811 fyrir Danmørku innihalda, verdi med naudsynlegum umbreytíngum gjørd gyldandi á Islandi, og er Amtmanni hverjum þar hjá lagt á vald, ef vottur til barna-bólusóttar þá framkoma kynni, samqvæmt fyrirskipunum fyrir Danmerkur Ríki, en þó med sérlegu tilliti til ásigkomulags bygdarinnar, þá ad gjøra naudsynlegar rádstafanir.

Þessu samqvæmt er sérhverjum Amtmanni á Islandi bodid ad breyta og í sínu Amti adsæta og fyrirskipa hvad vidþarf.



# Cancelli Plakat,

## um réttann skilníng á DL. 1—21—20. (NL. 1—19—20).

Kaupmannahøfn, þann 30ta Nóv. 1821.

Konúngur úrskurdar (21ta Nóv.) samqvæmt edli þeirra málefna, laganna anda og reglum, sem framandi Løg í þeim tilfellum áqvarda, eptirfylgjandi løg-gylda útleggíngu þessa lagastadar.

Ad í fyrrnéfndu tilfelli skuli málinu ad øllu leiti framfylgja vid reglulegt varnar-þíng þar, hvar laga-haldid er álagt og sé þad lagt á eigur, sem Útlendíngur á í ýmsum løgsagnar umdæmum, í (Dana) Konúngs Ríkinu, þá þar, hvar haldid fyrst var álagt, nema þad mál, eptir sérlegu ásigkomulagi þess, egi fyrir annann Rétt í Ríkinu ad leggjast. Dvelji sá løgsókti ecki í (danska) Ríkinu, eda hafi þar annann Umbodsmann enn þann, sem vardveitir eigur hans, ber málinu um álagt hald þeirra ad framfylgja, eptir stefnu til þess manns. En, þó skulda-nautsins bú verdi þrota-bú erlendis, og þetta auglýst, ádur enn laga-hald vard á eigur hans lagt, skal þad ecki tálma þeim, sem haldid féck álagt, ad framfylgja því máli, eins og fyrr segir, og sídar meir af þeim kyrrsettu eignum ad fá útlag gjørt.

# Konúngleg Tilskipan,

innihelður áqvarðanir um þañ Forgaungu=rétt, sem bæði Póst=kassanum og öllum oðrum fjársjóðum Konúngs og eins ómyndugum og öðrum, hverra eigur eru undir stjórn Embættismanna, ber í þessara búum.

Kaupmannahöfn, þann 19da Dec. 1821.

Vér Friderik enn Sjötti, af Guðs náð Konúngur, etc.

Gjörum vitanlegt: að Vér, eptir kríngumstæðunum hofum fundið Oss orsakaða til allranáðugast að fyrirskipa og áqvarða eptirfylgjandi:

1.) Að bæði Póst=kassinn og allir aðrir konúnglegir Fjársjóðir, eins þeir, sem í Kammer=réttar Orðunni frá 18da Marts 1720 ecki útþryckilega nafngreinast, skuli hjá þeim, hverra skylda er að veita viðtöku Konúngs tekjum, hvert sem þessir eru þeir eginlegu svo nefndir Gjaldkérar, ellegar þeim einúngis er fyr=

ir þeim vördslum trúad, sem verki, sameinudu ödru Embætti, njóta fyrir krøfur sínar sama forgángs-réttar og vissu, sem nefnd fyriskipan ásamt Tilskipun frá 30ta Jan. 1793, í §. 40 áskilur Konúngs fjársjódum hjá þar tilnefndum Embættismönnum.

2.) Ad sá Forgángs-réttur, sem Póstkassanum ber til Gjaldkéra eigna, einninn gylda skuli um Peníngabréf og dýrgripi, sem afhendast Póst-meisturum til burtsendíngar med Böggla-póstum, fyrir hverjum Póst-kassinn standa skal í ábyrgd, ef tapast vid Póst-þjóna ótrúmennsku ellegar hirduleysi.

3.) Ad ómyndugir og adrir, hverra eigur eda fjársjódir ad laga og tilskipana bodum, setjast undir konúnglegra skipadra Yfirvalda ellegar Réttar-þjóna stjórn og vördslur, sömuleidis njóta skuli þess forgángs- og pant-réttar hjá þessum, sem §. 1. áqvedur. En hvad vidvíkur þeim Yfirformyndurum, sem ecki eru af Konúngi skipadir, má um eigur þær, sem lagdar eru í þeirra vördslur, svo fara, sem ádur fyriskipad er; hvar hjá samt áqvardast — til ad fyribyggja ólíkar meiníngar — ad forgángs-réttur sá, sem DL. 5—14—37 (og NL. 5—13—35), ásamt þeim med Cancellí Plakati frá 23ja Júlii 1819 auglýsta allrahærsta Urskurdi þann 7da nærst ádur, veitir ómyndugum í fjárhaldsmanns búi (sjá Klpt. 1820, bls. 52), allteins ber þeim hjá Yfir-formyndurum þar, sem þeim ecki pantréttur ber.

4.) Ad Vort danska Cancellí vera skuli það Stjórnar-ráð, hvar, samqvæmt Tilskipun frá 30ta Janúarí 1793, §. 40., leyfis til afhendíngar ellegar vedsetníngar beidast á af þeim í No. 3 nefndu Embættismönnum, og skal því þessvegna skírslu senda, þegar einhverr þeirra Embættismanna verdur um skuldir lögsóktur. Allteins ber samþycki þessa Stjórnar-ráds ad ödlast, ádur enn hjá þvílíkum Embættismanni verdi útlag eptir sætt framqvæmt. Þó má og naudsyn verda, ad því leiti sömu Embættismenn undir eins veita verd Vorum tekjum, einnig ad halda sér til þess Stjórnar-ráds, undir hvers umsjón þvílíkar tekjur lagdar eru.

5) Samt er audvitad, ad sá eignar ellegar Pant-réttur, sem einhver ödlast hefir á undan auglýsíngu þessarar Vorrar Tilskipunar, ecki raskast eigi af fyrrtöldum áqvördunum, ad því leiti, sem þessar láta híngad til gyldandi lagabod enn meira ypirtaka.

Hvar eptir öllum vidkomendum ber allraundirgéfnast ad breyta.





# Konúnglegt Opid Bréf,

Dagsett 13da Febrúarii 1822, býdur:

Ad skylda sú, sem almennt liggur á þeim, sem beidist fullnustugjørdar Dóms, ad leggja fram algjørlegar Dóms-gjørdir, þá útlag gjørist, og ad afhenda þær med áritadri Qvittanzíu þeim dómfellda, þegar hann gjørir Dóminum fullnustu, skuli framvegis burtfalla, þegar minna gjalda ber, eptir Dóminum, enn svari 100 rbdlm. silfurs, svo ad í øllum þvílíkum tilfellum, eins og þeim, hvar sama ádur leyft var med sérlegu laga-bodi, skal krefja mega gjalda og útlag framqvæma, eptir einberri útskrift Dóms.

---

# Cancelli Plakat,

Dagsett 7da Maji 1822.

Eins og útþryckilega ádur var leyft med allrahæstum (konúnglegum) úrskurdi frá 11ta Apr. 1821 um fjársjódi þá, sem standa undir opinberri stjórn edur umsjón, þegar pantgóts selst, í hverju þvílíkt lán stendur, þá ad áskilja sér 5 af 100 í rentu hjá eptirmanni, hafi fyrra egandans skuldabréf løglega stadid uppá þá rentu, hefir nú konúnglegri Hátign þóknast, eptir því

sem Cancelliid allraundirgéfnast hefir uppástúngid, þann 24da Apr. allranádugast ad úrskurda:

Ad einninn skuli leyft vera Privatmønnum sem løglega hafa áskilid sér af sedla-láni 5 pro Cto rentu, þegar þvílík lán framvegis standa í pantgótsi, sem nýr egandi gengur ad, þá ad áskilja sér sømu rentu, 5 af 100, í því nýja skuldabrési, sem þessi útgéfur.

Hvad hér med kunngjørist øllum vidkomendum til allraundirgéfnustu eptirbreytni.

---

# Cancelli Plakat,

Dagsett 4da Júnii 1822.

Um fulla aftekníngu alls afdráttar af eignum manna, sem milli Danmerkur og Prússa Ríkja útflytjast framvegis — og þess vegna inniheldur undantekníngu frá bodum NL. í 5—2—77-80, hver þó sjaldan edur aldrei mun á Islandi þursa heimfærslu.

---

# Cancelli Plakat,

Dagsett 2ann Júlii 1822

Birtir bodord Konúngs þann 26ta Júni:

Ad reglulegir Réttarins Þjónar, sem af einhverre orsök — hver helzt sem er — víkja verda úr Dómara-sætum, engann rétt hafi til ad krefja Réttar-tekjur fyrir þau Réttarverk, sem settir Embættis-menn í hinna stad fromqvæma *).

---

Konúnglegt

# Opid Bréf,

fyrir Danmörku,

## sem setur frekari áqvardanir um hvad adgætast skuli vid Testamenta-

---

*) Adrar enn fyrrnefndar 4ar lagasetníngar fyrir Danmörku frá árinu 1822, hefir hid konúnglega Cancellí af þeim þad ár útkomnu almennu í bréfi sínu frá 9da Sept. 1823 ecki lýst gyldandi á Islandi. En géta má hér Cancellí-bréfs frá 26ta Maji 1822 (sjá Nótu til bls. 103 Klpósts f. ár) sem lýsir Tilskipun frá 4da Oktbr. 1799 (uppá þar um gjorda fyrispurn) hér vera gyldandi; nefnil. um asteikningu innsiglunar, Dóms-gjörda og Þíngsvitna af Þíngvottum — þar ed hún útkomin sé fyrir 1814 og hljódandi til réttargángs-forms. — (En um þad mun varla

gjørdir og krofur um svør til manna nefndar, m. fl.

Kaupmannahøfn, þann 8da Janúarii 1823.

Svo ad vissar borgaralegar gjørdir nái tilætludum áreidanlegleika og einkanlega til ad ná fullvissu gégn efasemdum, sem eptir daudann mann uppkoma kunna um hans auglýsta seinasta vilja, hefir Konúngur fundid hæfa hér med ad fyriskipa, sem fylgir:

§. 1. Framvegis þarf ecki ad búast vid, ad Stadfestíng veitist nockru Testamenti edur Gjafaskjali, sem sérlegrar stadfestíngar vidþarf, nema sá Embættismadur, er gégnir Notarii publici verkum, hafi vitnad um, ad skjøl þau innihaldi hlutadegenda vilja, hvern þeir alheilir rænu sinnar hafi í ljósi látid, ellegar ad þetta sañad verdi med þíngsvitnum.

§. 2. Verdi sídasta áqvardan dauds manns ecki ødruvísi sønnud, enn med Píngsvitni, ber þetta ad senda Cancellíi, svo þar verdi ad álitum gjort, hvert því svo haldna Testamenti megi stadfestíngu veita edur ecki.

(Þó veitir Kóngsbréf frá 5ta Apr. 1826, sem býdur; ad þetta Plakat gylda skuli á

hafa vasi verid á Islandi nú í 28 ár, þó hún ecki sé fyrir Yfirréttum birt.)

Islandi, eins og þad nú hér prentast ümbreytt í §§. 2, 5 og 8, Amtmønnum hér á landi myndugleika til í þeim tilfellum, sem þessi §. 2. tiltekur, ad veita stadfestíngar Testamenta.

§. 3. Eins og þær Testamenta-gjørdir, sem á undan auglýsíngu þessarar Tilskipunar samdar eru, halda sínu gyldi, sé þeim annadhvert veitt allranáduguſt stadfestíng, ellegar þær séu í Løgum og Tilskipunum heimiladar, ellegar med fengnu leyfi til ad rádstafa eigum sínum eptir sig (facultas testandi), svo má og enn þá vænta stadfestíngar þegar gjørdra Testamenta, samqvæmt híngad til gyldandi reglum, verdi þau send því konúngl. danska Cancellíi innan 6 mánada frá auglýsíngu þessa Plakats, hafi daudi þess, er eptir sig gáf, eda annad ásigkomulag verid þess ollandi, ad hann ecki mátti ítreka sídustu rádstøfun sína þanninn, sem eptir áqvørdun §. 1, hefdi naudsyn tilborid.

§. 4. I einstøkum tilfellum vill Konúngur og hafa sér geymt, ad gjøra undantekníngu frá fyrrnefndum áqvørdunum, þegar Testamentisbréf, hvers allranáduguſtu stadfestíngar er beidst eptir dauda gjafarans, ber augljósann vott þess, ad þad gjørvallt ritad er med hendi þess dána og þar hjá sérleg atvik mæla fram med þeirri undantekníngu.

§. 5. Þegar Testamentis-gjørd er gyld án konúnglegrar Stadfestíngar,

ber eins ad sanna áreidanlegleika hinnar, eins og §. 1. fyriskipar.

§. 6. Vid Svara-krøfur (til Manna-Nefnda) skulu munnleg andsvør hlutadeganda, ef þessir fyri synja, ecki gjørast ad álitum, nema Svara-krafan sé framsett af Notario Publico, (opinberum Skrifara *).

§. 7. Undir straungustu Embættis ábyrgd sé Notario, uppálagt, sjálfum ad framqvæma þau verk og medtaka þær skírslur, um hverjar hann ber vitni. Þó má, ef vidþarf, annar áreidanlegur madur í Kaupmannahøfn setjast af því konúngl. Cancellíi og fyrir utan Kaupmannahøfn af vidkomanda Amtmanni, til ad framqvæma verk hans í forføllum þessa Embættismanns og ber þess í gjørdunum, sem útgéfast, ad géta, er þau verk af þvílíkum útréttast.

§. 8. Loksins ber Notario til alls, er honum vidkémur ad framqvæma, framvegis tvø vitni til stadfestíngar ad brúka, og í því tilliti er honum af Konúngi veitt $\frac{1}{8}$ launa vidbót vid Auka-tekja gjøld þau, sem Reglugjørd þar um

*) Notarii Publici eru konúnglegir Embættismenn, hverjum løg ætla, ad taka og bera sérlega vitnisburdi um merkis samninga, gjørdir og mál mana, fyrir sérleg løgtekin laun; einninn ad útleggja þaradlútandi skjøl á ønnur túngumál. Fyrir þeim verkum standa hér Undirdómarar, svo sem Býfógeti og Sýslumenn, hverr í sinni Sýslu.



fyrir Island gyldandi ætlar honum, en sjálfur borgi hann vitnunum ómak þeirra.



# Kóngs-Bréf

til Amtmanna

Býdur: ad Kóngs-bréf frá 3ja Júnii 1785 til Stiptamtmanns og Amtmanna á Sjálandi megi ná til Islands.

Kaupmannahöfn, þann 8da Janúar. 1823.

Med þessu sídarnefnda baud Konúngur Amtmönnum ad sekta þá, sem forsóma greidt ad framflytja eda óskilsamlega medfara þeirra Umburdarbréf í Embættis erindum, hæfilega eptir atvikum, þó má sektin ecki yfir gánga 2 rbdli, og eins seinlæti manna med skírslur og ávísanir, sem Amtmenn embættis vegna krefja, og á þad sektafé ad falla til fatækra sjóds.



# Konúnglegt
# Opid Bréf,

## Um afhendíngu Uppbods- og Protabúa, eptir útgéfid Laga-fyrikall (Proclama), med sambycki lánar-drottna.

Kaupmannahøfn, þann 14da Maji 1823.

**Vér Friderik enn Sjötti, af Guds-nád Konúngur, etc.**

Gjørum vitanlegt: Ad Vér fundid høfum henta til fráma Uppbods- og Protabúa med laga-úrskurdi ad leysa úr þeirri spurníngu: hvert útgéfid, en þó ecki enn þá útrunnid logafyrirkall (Proclama) hindra megi, ad búid, med sambycki þeirra lánar-drottna, sem hafa géfid sig fram í búinu, afhendist þeim, er þad uppbaud eda vard gjaldþrota; hvers vegna Vér allranádugast viljum hafa fyriskipad og áqvardad:

Ad útgáfa laga-fyrikalls (Proclamatis) í búi, sem framselt er til Skiptagjorda, ecki skuli hindra mega búsins afhendíngu til þess, er þad uppbaud ellegar gjaldþrota vard, þegar allir þeir lánardrottnar, sem hafa géfid sig fram, verda

þará sáttir þó fyrikalls fresturinn eptir Próclamatinu sé útrunninn.

Eptir hverju allir vidkomendur skuli sér allraundirgéfnast haga *).

# Kóngs-Bréf

til Stiptamtmanns og Amtmanna

## áhrærandi breytíngu Hórdóms-straffa á Islandi.

Kaupmannahøfn, þann 21ta Maji 1823.

Býdur, sem almenna reglu um ad hverju leiti hórdóms-straff á Islandi í einstökum tilfellum megi uppgéfa ellegar lina, og hversu þær, fyrir framinn hórdóm í fyrsta og ödru sinni, áqvördudu bætur, þá fé skortir til þeirra lúkníngar, skulu afplánast:

§. 1. Ad hér eptir skuli Amtmönnum á Islandi sem Yfir-Yfirvöldum, sérhverjum í þeirra Amti, eptirlátid vera, ad uppgéfa helmíng þeirra bóta, sem Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808

*) Á Islandi innleidt med Kóngsbr. frá 5ta Apr. 1826.

áqvardar fyrir framinn hórdóm í fyrsta og ödru sinni, nefnilega: 9 og 18 rbdli, sem hverju þeirra hæfa, þegar þeir finna efni þeirra seku svo rír, ad helmíngur bótanna verda megi ánægjanlegt sekt. Þarámót nær sú linan alls ecki til þeirra bóta, sem hærstnefnt Kóngsbréf (frá 1808) leggur til Júſtitz-kassans *).

§. 2. Amtmönnunum géfst þar hjá myndugleiki til ad uppgéfa straff fyrir hórdóm, þegar sú (med honum) áreitta ektapersóna vill framhalda hjónabandinu og bidur þeim seka vægdar og þegar ad ödru leiti annars eckert finnst þar á móti, né ad sú fyrirbón gjörd sé í lastverdum tilgángi.

§. 3. Bætur, sem Kóngsbréf frá 25ta Júlii 1808 áqvardar fyrir hórdóm í fyrsta og ödru sinni framinn, skulu, þegar sektafé skortir, afplánast med vandarhöggum, med 10 fyrir hórdóm í fyrsta, en med 18 í ödru sinni framinn; þar á mót straffast þad brot, ef optar skédur, beint eptir allrahærstnefndu Kóngsbréfi (frá 1808), samanbornu vid Kóngsbréf frá 3ja Maji 1816, og vill Konúngur þar hjá allranádugast: ad lögsókn, Réttvísinnar vegna, fyrir framinn hórdóm í fyrsta og ödru sinni á Islandi megi — í medhaldi Kóngsbréfs frá 3ja Maji 1816, §. 6. — undanfellast í því til-

*) Mildandi Laga-ástædur til linunar hórsekta, frambödur seinni Tilskipan frá 24da Septembr. 1824 í §. 4.

felli, ad hinn seki beidist þess og tjái sig fúsann til ad lúka — auk fullra lögtekinna sekta — svo mikinn hluta af auka-sektunum til Júístits-kassans, sem Yfir-Yfirvaldid, eptir hlutadegenda Sýslumanns skírslu, finna kann hæfa efna ástandi þess seka; og er þá audvitad, ad þau málalok ega sömu verkun ad hafa, verdi honum sem yfirsjón optar á, eins og þó Dómur hefdi hann sakfellt.

---

# Rentukammers Plakat,

dagsett 31ta Maji 1823.

## birtir gefid Konúngs Leyfi:

Ad Önudarfjördur í Ísafjardar Sýslu, megi vera lögtekinn Kaupverdslunar-stadur, þó hann ecki nefnist svo í Tilskipun frá 11ta Sept. 1816.

---

# Stiptamtmanns Moltkes Plakat,

dagsett 18da Júlii 1823.

## eptir bodi Rentukammersins frá 24da Maji sama ár; innihaldandi Registur myntadra peninga, sem

gjaldgengir eru á Islandi í allar Reidusilfurs lúkníngar*).

| | Ríkisbánka peníngar Reidusilfurs. | |
|---|---|---|
| | Rbdlr. | Rbß. |
| Heil Specía gyldir vid . . . . | 2 | — |
| $\frac{2}{3}$ Speciu eda 80 ßa peníngur . . | 1 | 32 |
| Heil Cróna edur gømul 4 mørk dønsk | 1 | $12\frac{4}{5}$ |
| Hálf Specía . . . . . . . | 1 | — |
| Ríkisbánkadalur . . . . . . . | 1 | — |
| $\frac{1}{3}$ Speciu edur 40 ßa peníngur . . | — | 64 |
| Hálf Cróna edur gamalt Túmark . | — | $54\frac{2}{5}$ |
| Fimm Ríkisort á Speciu; verdur þá eitt Ríkisort . . . . . . | — | $38\frac{2}{5}$ |
| Sjettúngur Speciu edur 10 Schilling schleswig holsteinisch Courant . | — | 32 |
| 32 Ríkisbánka-skildínga peníngur . | — | 32 |
| Fjórdúngur Crónu edur gamalt einmark | — | $27\frac{1}{5}$ |
| Fimtán-skildínga peníngur Courant . | — | 24 |
| Tískildíngur Courant . . . . . | — | 16 |
| Eins — 5 Schilling schleswig-holsteinisch Courant . . . . . | — | 16 |
| Sextán Ríkisbánka-skild. peníngur. | — | 16 |
| Sjøttúngur Ríkisdals Courant, edur Einmarks peníngur Courant frá 1808 og sídar . . . . . . | — | 16 |

*) Þetta er ad skilja í opinber inngjøld øll, en ecki í (privat) innbyrdis vidskipti og reiknínga manna, eptir Rentukammers auglýsíngu þann 1ta Maji 1824 (sjá Alpóst 1826 bls. 78 í Nótu).

| | Ríkisbánka peníngar Reidusilfurs. |
|---|---|
| | Rbß. |
| Attskildíngur Courant . . . . . . . | $12\frac{4}{5}$ |
| Hálfur 10 skildíngur, edur $2\frac{1}{2}$ Schilling schleswig-holsteinisch Courant . . | 8 |
| Atta Ríkisbánka-skildínga peníngur . . | 8 |

Framar er þess ad géta: ad Ríkisbánka-sedlar, sem hljóda uppá einn eda fimm dali hverr, og áteiknadir erú annarsvegar á Islendsku, erú ad løgum gjaldgengir til Nafn-verds lúkninga; sømuleidis gamla danska Courant skildínga myntin, þad er ad segja: 4, 2 og 1-skildíngar, eptir þeim jøfnudi: ad 5 skildíngar Courant gylda vid 8 ríkisbánka-skildínga. Þessir íminduðar peníngar takast samt sem ádur aldrei til lúkningar þar, sem reidusilfur á ad gjalda, en silfurs skuldir géta þar á mót med þeim lokist, eptir gyldanda silfurs gángverdi því, er samqvæmt auglýsingunni frá 11ta Máji 1819, áqvardast med þeim auglýsingum, er útgéfnar verda til gyldis hvert missiri um silfur gángverdid, hvert nú, sem stendur, er slíkt: ad 250 ríkisbánkadalir Nafn-verds jafnast vid 100 Speciur edur 200 ríkisbánkadali silfurs, og gétur þá 1 rbdlr silfurs lokist med 1 rbdal

24 rbsk. Nafn-verds. Nafn-verds lúkníngar géta einnig greidst med silfurmyntar peníngum þeim, er til reidusilfurs heyra, og teljast þeir þá til Nafn-verds eptir ofannefndu silfur-gángverdi *).

---

*) Med Rentukammers-bréfi til Hra. Stiptamtmanns Hoppes frá 10da Maji 1828, er enn framar bodid ad auglýsa Vidkomendum, ad eptirskrifadar framandi Myntir, ef standa fulla vigt, megi fyrst um sinn medtakast í Islands Jardabókar-kassa vid inngjöld til hans, nefnilega:

Jafnt vid 2 rbdli reidu-silfurs medtakist:
Spanskir Pjastrar.
Engelskar Crónur.
Frönsk Sex-fránka Stycki. (Laufdalir)
Nidurlendsk þriggja Gyllina Stycki.
Svenskar Speciur.

en jafnt vid 1 rbd. reidu-silfurs:
Hamborgar,-Meklenborgar,-Lüneborgar og saxiskir Zweidrittler (tveggja þridjúnga Stycki), og hollendskir Albertsdalir.

Þó mega þessar myntir ecki aptur útgéfast af Jardabókar-kassanum, heldur, eins og Crónu- og smáskildínga-myntir, sendast út til Kaupmannahafnar til umskipta fyrir myntir, sem standa uppá ríkisbánka-peninga.





# Cancelli Plakat,

fyri Danmörku,

dagsett 4da Októbr. 1823.

áhrærandi umbreytíngu í þeim Opnu Laga-bréfum frá 14da Sept. 1798 og 1ta Júlii 1813*), birtir bodord Konúngs þann 24da Sept. sama ár.

Ad enn þótt Konúngur vilji ad þessi Plakat, sem auglýsa verdlauna-heit Hans þeim til handa, er bjarga nockrum, er sýnist vera druckn-adur, megi af líkum ástædum heimfærast til þess, er frelsar einhvern úr druckunar háska, þó ecki sýnist hann þegar druckuadur, skuli samt hvörki heitin verdlauna minnispeníngur edá full peninga verdlaun í þeim tilfellum veitast bjarg-vætti, nema hann þar vid látid hafi í ljósi sérlega hugprýdi edur hardfengni, en samt megi honum, eptir Cancelliisins áliti, hlutur veitast af fyrrnefnd-um verdlaunum í peníngum, þyki vidburdir hans ecki ad sídur vinna til upphvatníngar og umbuna.

---

*) Lögleidt á Íslandi med Cancelli-bréfi frá 31ta Júlii 1824.

# Rentukammers Plakat,

Dagsett 23ja Decembr. 1823.

## áhrærandi friun Kaupstada-Borgara á Islandi frá útgjøldum um tíma til Konúngs; birtir úrskurd Hans af 3ja sama mán.

Ad allir, sem nú eru Borgarar í einhverjum Kaupstad Islands, ellegar innan 20 ára frá þeim Urskurdi, fá sér bólfestu í þeim Kaupstad einhverjum, skuli, um þau 20 ár, friadir vera frá tíunda gjaldi til Konúngs af fasteign og lausafé, skatts, gjaftolls-Løgmanns-tolls og ødru útsvari til Ríkisins þjónustu, ad því leiti þessi gjøld øll bæri ad lúka bædi af jørdum, sem eptir Fyrirskipun frá 17da Nóv. 1786 i §. 4. eru géfnar, ellegar framvegis géfast kunna Kaupstødunum, og af qvikfé, skipum og ødru, sem tédir Borgarar sjálfir halda og brúka á þessum jordam, ellegar af ødrum eigum. Þar á mót skal frían frá þeim útgjøldum ecki ná til þessara Borgara búnadar brúkunar á eginlegri bænda-eign, og allteins bèr Borgurunum hlutdeild ad taka bædi í venjulegu almennings þarfa útsvari og framvegis í útgjøldum til sveitar-fátækra framfæris, þar árlegt tillag til fátækra á Islandi af Konúngs sjódi, sem Plakat frá 18da Aug. 1786 í §. 22. áqvardar, framvegis hættir.

Mt



# Konúngleg Tilskipan,

## áhrærandi Embætti Prestanna í Hjónabanda tilliti*).

Kaupmannahøfn, þann 30ta Apr. 1824.

Vér Friderik enn Sjötti, af Guds náð Konúngur Danm. etc.

Gjørum vitanlegt: Að Vér høfum fundið vel henta, að ámálga það allt og í eina Fyrirskipun að safna øllu því, sem løg fyrirskipa um Embætti Presta í Hjónabands tilliti, og enn framar að viðauka nockrum frekari áqvørðunum, sem Vér henta finnum til að afstýra óyfirveguðum hjónabøndum.

Í því tilliti bjóðum Vér, sem fylgir:

§. 1. Prestar ega við hjónavígslur, að fylgja þeim fyrirskipuðum (kirkju) siðum.

§. 2. Aður enn hjónavígsla má framfara, ber á fyrirskipaðann hátt, í 3 Sunnudaga í røð, við hámessu af Prédikunarstóli, að lýsa viðkomenda hjónabands áformi, við brúðurinnar sókn-

*) Innleidd á Íslandi með Kóngs-bréfi frá 7da Decembr. 1827.

ar-kirkju. Þó sé það tilfelli undanskilid, hvar brúdguminn er Adals- edá Rangs- (tignar) madur; ellegar, sem Sonur Embættismanns, hvers Embættis tign er í 3ur efstu flockum (Rang Tilskipunarinnar); nýtur Adalsréttar. Med þá, sem eru af sjóar hermanna stétt, fari framm eptir Strídsartíkulabréfinu um Landþjónustu vid Sjóar hermanna stétt. Loksins er sjálfsagt, ad lýsíng af Prédikunarstólnum undanfellist, hvar Konúngs leyfi veitir vidkomendum fríun frá henni.

§. 3. Ecki ber Présti med hjónaefnum ad lýsa, nema hann hafi fyrst litid eptir, hvert eckert meini þeim áformad hjónaband; skal þá einkum adgæta:

a.) Ad karlmadur ecki sé ýngri enn 20, eda kona 16 árum ýngri.

b.) Ad bædi séu konfirmerud og hafi til altaris verid.

c.) Ad hverigt þeirra bundid sé vid undanfarid hjónaband eda leggylda skuldbindíngu, til ad géfa sig í annad hjónaband; hvar vid einkum ber þess ad gæta: ad sá, sem skilinn er vid sinn fyrri ektamaka, sýni annadhvert skilnadar-dóm, sem leyfi honum nýtt hjónaband, eda leyfi til algjørlegs hjónaskilnadar, med álíku giptínga leyfi.

d.) Ad þau ecki séu svo skyld eda tengd, ad Tilskip. frá 23ja Maji 1800 meini þeim

hjónaband saman, ellegar, ad því leiti und-
ántekníngu má fá med Konúngs leyfi, ad þau
hafi þvílíkt.

e.) Ad Eckjumadur, ad minnsta kosti í 3 mán-
udi, en eckja, ad minnsta kosti árlángt frá
dauda þess fyrri ektamaka, bídi ógipt. Þó
skal bændum og almúgafólki, hverra kjör og
ástand ecki leyfir þeim lengur ad bída ógipt,
leyst vera innan skémra frests ad giptast á
ný, nefnil: eckjumanni 6 vikum eptir dauda
konu hans, en eckju 3ur mánudum eptir
dauda bónda hennar; henni þó í því tilfelli,
einúngis med skilordi, ad vissa sé fyrir, ad
hún ecki sé ólétt af hennar sáluga manns
völdum.

f.) Ad brúdirin, sé hún eigi eckja, hafi foreldra
ellegar annara hlutadegenda samþycki, nema
svo sé, ad afsögn þeirra sé af Yfirvaldinu ó-
gyld metin. Sama gyldi og um brúdgum-
ann, sé hann ecki fullmyndugur.

g.) Ad þeir af Hermanna stétt, sem eptir lögum
vidþurfa giptínga leyfis, hafi ödlast þetta.
(Nær valla til Islands.)

h.) Ad hórsekar persónur saman, komi ecki sam-
an í hjónaband.

i.) Ad vitskérdtir ecki géfist í hjónaband.

k.) Ad enginn, sem áformar hjónaband, njóti,
eda frá því hann, sem barn, komst úr ómegd,
hafi adnotid nockurskonar óendurgoldins styrks

af fátækra sjódi; því annars leyfist þvílíkum ecki hjónaband, nema Sóknarinnar fátækra Forstjórar þar, hvar madurinn á sveit, lýsi, ad hvad áhrærir fátækra stjórn, finnist eckert, sem því hjónabandi mótmæli.

l.) Loksins ber (eptir Kóngsbréfi frá 7da Dec. 1827) ad hlýdnast forbodi því, sem allrahærst Kóngsbréf frá 28da Martz. 1776 inniheldur mót giptíngum spitelskra á Islandi og þeirra, sem þar á sér bera nockur líkindi til þess sjúkdóms, svo ad engum Presti skal leyft vera þvílíka ad ektavígja, undir þá sekt, sem Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 (um hjónabandsmál) í §. 2 tiltekur.

§. 4. Prestum ber ad útvega sér fullgyld skilríki um öll fyrrnefnd atridi, ad því leiti edli þessara leyfir; ad ödru leiti ber honum, til vissu fyrir, ad eckert annad hindri persónanna hjónaband, krefja þær um ad útvega sér gylda Svaramenn. Enginn skal annann til fyrisvars taka, enn þann, sem annadhvert er konúnglegur Embættismadur, ellegar sá búandi madur, hvers áreidanlegleika ecki sé orsök ad tortryggja. Þeir Svaramenn egu ecki, hverr fyri sig, ad svara fyrir annadhvert hjónaefnanna, heldur bádir ábyrgjast ad engin lögmæt hindran géfist mót því áformada hjónabandi. Presturinn á, hvar naudsyn vyrdist til, eptir Svaramanna þeckíngar ástandi og borgaralegri stödu, alvarlega brýna fyrir þeim þá hördu ábyrgd,

sem lög leggja vid fyrisvari um hjónabanda mál. Þegar hlutadegandi persónur á löglegann hátt verda fríteknar fyrir Svaramanna útvegum, med skilyrdi ad þær innan Réttar vinni eid um, ad hverki úndanfarid hjónaband, né adrar orsakir leggi neina lögmæta hindrun fyrir þeirra áformada hjónaband, ber Prestinnm ad krefja náqvæm skilríki um, bædi þeim veitta fríteknínguna og þeirra eptir henni unninn eid.

§. 5. Lýsíngar af Prédikunarstóli ber nockrum dögum ádur ad beidast hjá Prestinum, sem brúdguminn almennast á í egin persónu ad gjöra; þó má, sé hann Prestinum kunnugur, hennar og skriflega beidast; líka má brúdguminn, í forföllum sínum, senda til Prestsins þessum kunnugann og áreidanlegann mann, til þess ad útrétta og afgreida þad, sem vid þarf. Svaramenn ega, annadhvert í Kirkjubókinni eda med sérlegu skjali, ad votta ábyrgd sína, en Presturinn fá sér fullvissu um, ad undirskrift þeirra sé viss. Undir eins og lýsíng af Prédikunarstóli verdur pontud, ritast þad í Embættisbókina.

§. 6. Svo framt brúdhjón, sem hafa látid lýsa med sér af Prédikunarstóli, ecki láta sig samanvígja innan 3gja mánada þar eptir, skal lýsíngu gjörda med þeim marklausa meta, en nýar lýsingar framfara, girnist þau sídarmeir samanvigslu.

§. 7. Adur enn Prestur framqvæmir nockra hjónavígslu, ber honum alls þess ad gæta,

sem §. 3. fyrirskipar, ad því leiti þetta ecki verdur óþarfi, vegna adur fenginna skírsla eñ lýst var af stólnum.

§. 8. Préstinum ber enn framar varast, ad vígja persónur saman, mót hverra hjónabandi hlutadegandi Réttarins Embættismadur hefir forbod - lagt, verdi því forbodi leglega framfylgt, og þad ecki hafid med Dómi, edur á annann gyldañ hátt. Þar hjá er audvitad, ad bædi forbodid og framfylgd þess vid Sættanefnd og Réttinn, ber ad tilkynna vidkomanda Sóknarpresti.

§. 9. Hverki Eckja né Eckill mega géfast í nýtt hjónaband, fyrr enn ad minnsta kosti birjad er leglegt skipti vid erfíngja hins dána ektamaka, nema med gyldu Testamenti edur á annann lögmætann hátt, sé skiptum undanskilid. Þegar Eckja edur Eckill, eptir leyfis-bréfi, skiptir med adstod náfrænda, ber þess ad gæta, ad samfrænda skipta-bréfid sé sendt vidkomanda Yfirvaldi ádur enn hjónavigsla framfer, því þessa vitnisburd, um aflokin skipti á leglegann hátt, ber til skilríkis fram ad leggja.

§. 10. Enginn Prestur má hjónaefni samanvígja, nema bædi brúdgumi og brúdir sanni, ad þau hafi barna-bólu fengid, ellegar þeim sett verid kýrbóla.

§. 11. Í þeim tilfellum, hvar brúdguminn, eptir sinni borgaralegu stedu, er skyldur til ad leggja inn í Eckju-kassann, ber Prestin-

um náqvæmlega ad gæta Tilskipunar frá 4da Aug. 1788 undir þar áqvedid straff.

§. 12. Eins á Presturinn og þess ad gæta, ad brúdhjónin lokid hafi þeim gjøldum, sem brúdhjónum álegd eru þar, sem þau vígjast ega.

§. 13. Adur enn vígja megi kathólskann mann saman vid konu, er jatar almennri Landsins trú, ber Prestinum adgæta, ad hinn skriflega skuldbindi sig til, ad láta øll þau børn, er þanninn aflast þeim, mentast í evangelisk-lútherskrar kirkju trúar-lærdómum, hverja skuldbindíngu rita skal í Kirkjubókina og hana útbúa bædi med brúdhjónanna og þeirra svaramanna undirskriftum. Til ad varna afbroti mót þessu, má enginn kathólskur Prestur nockur hjón ektavígja fyrr enn Cancelliinu sé fráskírt og þess samþycki þar til fengid.

§. 14. Hjónavígsla tilkémur ætíd þeim Sóknar-presti, hvar brúdirin á kirkjusókn*). — Lútherskum Presti tilkémur þó ad vígja lútherskann sóknarmann sinn, þegar brúdirin er kathólsk. Einninn má, sem ádur, leyfis-bréf framvegis ødlast til vígslu af óvidkomanda Presti. Þó skal í því tilliti sá Prestur, hverjum vígja bar, njóta sømu borgunar,

*) Hér úrfellist klausa um Presta vid Hermanna sóknir, fyrst enginn þvílíkur Prestur eda Sókn er á Islandi.

sem hann vígt hefdi (og eckert heldur missast kirkjunnar þjónum eda ødrum af rétti þeirra, hvers vegna vitnisburdur úm, ad allir vidkomendur hafi sitt ødlast, skal framleggjast ádur enn þanninn vígja megi*). Aldrei má sá heldur hjón vígja, sem ecki er settur Prestur vid neina vissa Sókn. En þared þeim Presti, sem hjón samanvígir, ber vid þad ad ábyrgjast, ad alls, sem løg bjóda um hjónavígslur, sé gætt, ber og vidkomendum ad færa honum øll naudsynleg skilríki um, ad brúdhjónin fullann rétt hafi til ad géfa sig í hjónaband saman, og honum því ad færa til sína Svaramenn. Sidan ber honum annast um, ad hjónavígslunnar sé til hlýtar gétid í Embættis-bók hans vid þá kirkju, hvar hann Prestur er, en ad sá Prestur, hverjum ad laga fyrimælum vígslan bar, strax fái ávísun um hana, svo ad þessi um hana fái ritad naudsynlega skírslu í Embættis bók sína. Loksins ber vidkomanda Presti í vitnisburdí þeim, hvern hann, eptir fyrrsøgdu, géfa á þeim óvidkomanda Presti, ádur enn hann vígja má hjón, ásamt ad géta þess, hvert nockud sé þad fyrr framkomid, sem tálma megi brúdhjónanna vígslu; hvers vegna sérhverr, sem þykist hafa nockur løgleg mótmæli mót hjónabandi, á ætíd ad láta þad forbod, sem honum þykir sér bera, birta Presti þeim, sem hjónavígslan ad løg-

---

**) Gjøld vid Hjónaband til annara Kirkjuþjóna enn Prestsins, eru hér ecki løgskipud.

um ber, þó leyfi kunni veitt vera, ad hún haldist af óvidkomanda Presti.

§. 15. Hjónavígsla framfari almennast í Kirkjum, nema leyfi sé veitt til vígslu í heimahúsum.

§. 16. En ef nockurr á sóttarsæng sinni beidist ad verda ektavígdur, og kríngumstædur ecki leyfa ad bída Konúngs leyfis til þess, skal þetta ecki tálma vígslunni, hver þá einninn má framfara án undangénginna lýsinga af Prédikungrstóli; hvarámót allt annars fyrirskipad til vissu um løgmæti hjónabandsins, adgæta ber; líka skal Prestsins skylda vera med medalgaungu sinna Yfirvalda, ad skíra Cancelliinu frá þvílíkri vígslu.

§. 17. Í Kaupstødum mega hjónavíglur framfara einúngis á virkum døgum, en á landinu mega þær og leyfast á Sunnu- og helgidøgum. Annars mega þær gjerast á sérhverri tíd dagsins og ber Prestinum, ad því leiti verdur, þar med ad haga sér eptir ósk hlutadegenda. Sjálfur á hann og ferd ad kosta til hjónavígslu, þegar hún framfer á ødrum enn messu-døgum, vilji vidkomendur ecki gódmótlega flytja hann (heim og heiman.)

§. 18. Eins og Presturinn vid hvert hentugt tækifæri á ad leitast vid ad lýsa verdi og helgi hjónabanda fyrir Søfnudi sínum, svo ber honum einkum vidleitnin ad eyda tvídrægni, hneixlandi og ókristilegu framferdi í hjónabandi, hvar þetta vitnast. Þegar hjón, vegna lángframa

sundurþyckju, girnast skilnad frá bordi og sæng, ellegar algjørlegann adskilnad, á eckert bónarbréf þar um ad álítast, nema Sálusorgari þeirra á þad bónarbréf hafi ritad vitnisburd um, ad hann hafi tækifæri fengid til ad reyna hvert hann med gudlegum fortølum, gæti áunnid, ad þau framvegis lifa skyldu saman í eindrægni og kristilegu hjónabandi, í hverju tilliti vidkomendur, þá fyrikallast, ega hjá honum ad mæta, annadhvert saman eda hvert sérílagi, eptir því, sem hann heldur henta, til ad ná gódum tilgángi sínum. Dvelji hjón 4 mílum eda fjær hvert ødru, á hvert þeirra ad kallast fyrir sinn Sálusorgara. Eins og hverr Prestur yfir høfud, sem sætta á ósamlynd hjón, hefir rétt og er skyldur til ad framhalda tilraunum sínum á ný, ad stipta kristilega hjóna-sambúd á medan nockur von er um ad slíkt takist, svo á í þessu tilfelli, sá Prestanna, sem þad haga þykir til ad ná takmarkinu, ad skrifast á vid hinn til þess bædi ad ødlast og géfa þær skírslur, sem verka megi betur til sætta.

§. 19 Sømuleidis á hverr sá, er girnist Konúngs leyfi til hjónaskilnadar, ad útvega vitnisburd Sálusorgara síns um hegdun sína, medan þau hjón adskilin lifdu og bodord þau, sem D. L. 3 B. 16 K. (N. L. 18 K.) — 15 heldur um Presta vitnisburd, hvar hjónaskilnadar Dóms er beidst, ad vera í gyldi.





# Cancelli Plakat,

fyrir Danmerku,

dagsett 1ta Maji 1824.

## um afdráttar rétt milli Danmerkur og þeirra hertogalegu Holsetu-lands-Aldinborgar landa; birtir auglýsíngu Konúngs frá 28da Janúarii sama ár:

Ad afdráttar réttur af erfum og eigum þegna, er flytjast milli allra þeirra konúnglegu dönsku landa, er ecki liggja undir samband Þýdskalands, og allra þeirra hertogalegu Holsetulands og Aldinborgar landa, sé vid Sáttmál á milli þessara landa Stjórnenda, eldúngis aftekinn frá 1ta Jan. þ. á. (Eptir Cancelli-bréfi frá 5ta Marß 1825.)



# Kóngs-Bréf

til Amtmanna og Biskups á Islandi,

## um frekari ákvördun þess hlutar, sem med Tilskipun frá 27da Maji

1746 er af fiski og fuglum áskil- inn Hospítølum á Islandi.

---

Kaupmannahøfn, þann 26ta Maji 1824.

§. 1. Býdur: ad af allskyns fuglnm, sem veidast á Islandi, skuli lúkast 4 af hundradi, edur $\frac{1}{25}$ af allri ársveidinni til nærsta Hospítals, eptir frekari áqvørdun Forstjóra Spítalans.

§. 2. Ad af hverjum 10 Hákellum, sem veiddir verda frá einu vorþíngi til annars, sømuleidis gjaldast skuli nærsta Spítala 1 pottur lýsis og hálfur fjórdúngur af verkudum Hákalli, þó, svo, ad skip þau, er ádur goldid hafa Spítalanum hlut af fiski-abla á þeim tíma, sem Tilskipan 27da Maji 1746 í §. 19 tiltekur, séu þad sama ár undanskilin hins hlutar skiptum, svo ad þau einúngis lúkist af eigendum þeirra skipa, sem annadhvert verda útgérd einúngis til Hákalla-veida, ellegar sama árid til Þorsk-fiskis útgérd, en øbludu svo lítils, ad ecki ákomu skiptum til Spítala; og

§. 3. Ad Spítalar, samqvæmt Tilskip. frá 27da Maji 1746 §. 19, fái hlut af øllum bátum, sem árlega stunda Hrognkélsa veidar, þegar og svo framt þeir hafa ecki ádur sama árid skipt þeim hlut af Þorskabla.

---



# Cancelli Plakat,

dagsett 19da Júnii 1824.

Birtir auglýsíngu Konúngs um aftekníngu alls afdráttar-réttar arfa og eigna, er flytjast á milli Danmerkur landa og fríiſtjórnar Stadarins Hamborgar. (Cancelli bréf frá 5tá Martz 1825.)



## Konúngleg
# Tilskipan

fyri Danmörku,

dagsett 27dá Aug. 1824.

Ad afdráttar-réttur eigna, sem flytjast frá Danmörku til Hertogadæmanna Slesvíkur og Holsetulands, skuli framvegis vera aftekinn. (Canc. br. frá 5ta Martz 1825.)



## Konúngleg
# Tilskipan,

med hverri straff med Búslódar töpun og bótum eptir ítrustu för-

megun, ásamt ødrum ábeckum strøffum, er sumpart aftekid og sumpart umbreytt.

---

Kaupmannahøfn, þann 24da Sept. 1824.

# Vér Friderik enn Sjötti, af Guds náð Konúngur, etc.

Gjørum vitanlegt: Ad vid yfirvegun ymislegra vandræda, sem leida af strøffum med Búslódar tjóni, sem løg og lagasetníngar hér og hvar áqveda, høfum Vér fundid Oss hrædda til oldúngis ad uppgéfa þad straff i vissum tilfellum, en í ødrum ad breyta því í annad, sem framar á vid tilgáng straffa. Eins høfum Vér hentugt fundid á líkann hátt ad breyta bóta-sekt eptir ítrustu formegun, sem løg á einstøkum stødum tiltaka, ásamt sérhverju því straffi, sem áqvedur vissann hluta af búslód ens seka, hvar hjá Vér og viljum oldúngis afmá þad straff, ad fasteign sé fyrigért, sem á stundum sameinast lífs- og búslódar-tjóni.

J fyrrnefndu tilliti bjódum Vér því og skipum, sem fylgir:

§. 1. Straff med Búslódar tjóni skal framvegis oldúngis aftekid vera í þeim tilfellum, hvar løgin sameina þad med lífs og

og lima, ellegar æfilaungu frelsis eda fridar og landsvistar tjóni. Sømuleidis skal og burtfalla sekt med høfudlódar tjóni, sem (D. og NL.) 6—6—21 áqvedur. J ødrum tilfellum, hvar løg og Fyriskipanir leggja vid búslódar sekt, skal, í hennar stad, dæma þann seka til erfidis, eptir málavext-um frá einu áti til þriggja, almennast í betr-únar-húsi, en í tuktzhúsi, hvar hinn seki ásamt verdur ærulaus.

§. 2. Straff med bótum eptir ítrustu formegun skal og framvegis afmád vera, hvar á mót þeim seka, í stadinn fyrir ad dæmast til þess, skal hegna med fángelsis straffi vid vatns og brauds vidurværi frá 2svar 4um til 4sinnum 5 daga eptir málavextum.

§. 3. Hvar løg annars hafa áqvardad straff, sem tiltekur tjón viss hluta af búslód ens seka, ber í þess stad þad straff ad velja, sem samqvæmt er því í §. 1. áqvardada fyrir þann, sem ad løg-um átti ad hafa allri búslód sinni fyrirgért*).

---

*) Med Bréfi Sinu frá 7da Dec. 1827, sem hér innleiddi þessa Tilskipun frá 24da Sept. 1824, hefir konúngleg Hátign bodid: ad þessi lagasetn-íng gylda skuli á Jslandi, þó med þeirri umbreytingu: „ad þáu strøff, sem eptir henni „ber ad áqvarda í stad þeirra med þessari Til-„skipun afteknu, skuli á þessu landi áqvardast ept-„ir sama hlutfalli, sem allrahæst Kóngsbréf frá

§. 5. Straff med tjóni fasteigna, sem í vissum tilfellum er sameinad straffi med lífs- og búslódar-tjóni, skal framvegis aftekid vera.

Eptir þessu ber øllum vidkomendum allraundirgéfnast ad breyta.

---

# Rentukammers Plakat,

dagsett 28da Sept. 1824.

## birtir bodord Konúngs þ. 22ann s. mán.

Ad Stapá Kaupverdslunar stadur í Snæfellsness Sýslu skuli nidurleggjast, og hann úrgánga verdslunar-plátza tølunni, sem Tilskipan frá 11ta Sept. 1816 leyfdi.



---

„3ja Maji 1816 fyrileggur, en ad þær Íslands „géfnu sérlegu laga áqvardanir um strøff fyr„ir hórdóm skuli framvegis vera í gyldi." Eptir hverju Konúngsins bodi strøffin hér á landi nú breytast, í þeim hér í §§. 1—3 nefndu tilfellum, eptir málavøxtum, í þau vid Kóngsbréf frá 3ja Maji 1816 fyrilsøgdu, þvi framar, sem það í §. 2. tiltekna straff med fángelsi vid vatns og brauds vidurværi, er med Kóngsbréfi frá



# Konúngleg
# Tilskipan
## fyri Danmørku,
## sem aftekur upplestur lagasetnínga og lýsínga um verdsleg efni af Prédikunarstólum*).

Kaupmannahøfn, þann 8da Okt. 1824.

Vér Friderik enn Sjøtti, af Guds nád Konúngur, etc.

Gjørum vitanlegt: Þar Vér fundid høfum, ad sá híngad til tídkanlegi upplestur lagasetnínga og lýsínga um veraldleg efni á Prédikunarstólum, verdur ad orsaka ruglandi verkun á þad andaktarfulla hugarfar, sem opinber Gudsþjónusta midar til ad ørfa, høfum Vér álitid naudsynlegt ad umbreyta þeim híngad til gyldandi laga áqværdunum í fyrrsegdu tilliti. Því bjódum og skipum Vér, sem fylgir:

---

25ta Júlii 1808 í §. 9. øldúngis aftekid. En §. 4. þessarar Tilskipunar um strøff fyrir hórdóm, fellur hér øldúngis úr, þar Kóngsbréf frá 21ta Maji 1823 er þar um á Islandi gyldandi.

*) Innleidd hér med Kóngsbréfi frá 7da Dec. 1827.

§. 1. Eins og upplestur á Prédikunar-stólum hefir ecki í Danmørku verid fyrirskipadur, sem venjulegur máti til ad kunngjøra Løg og Fyrirskipanir, heldur ad eins vidhafdur í einstøkum sérlega fyriløgdum tilfellum, er nú sá vilji Vor, ad hann framvegis øldúngis afleggjast skuli. Pad híngad til fyrilagda um vissra Lagasetnínga og Fyrirskipana árlegu auglýsíngu á vissum tímum, á eptir þessu framvegis ad vera aftekid. Ecki heldur skulu Prestarnir í nockru tilfelli á Prédikunar-stólum géfa neckra skírslu um innihald útkominna Fyrirskipana. Par á mót haldist bodord þess allra-hæsta Kóngs-bréfs frá 22rum Apr. 1740, um ad þær Fyrirskipanir, sem beinlínis áhræra almúgann, skuli á landsbygdinni einninn upplesast eptir messugjørd utan kirkju, auk þess ad þær á venjuleganu hátt auglýsist á þíngum, sem, eins og fyrri, vera skal sá almenni og alla skuldbindandi háttur. Fyrir lestrinum utan kirkju standi Forsaungvarinn, en Presturinn géfi søfnudinum ávísun um hann eptir messulokin. Einninn skal framvegis vidhafa sérhver ønnur híngad til vidtekin medøl til ad kunngjøra almenníngi Vorar Fyrirskipanir á allann møgulegann hátt.

§. 2. Hvad bodid er í ýmsum eldri og nýrri Fyrirskipunum um auglýsíngar og lysíngar á Prédikunarstólum veraldleg efni áhrærandi, sé hér med upphafid, og skal framveg-

is med þesshattar efni svo fara, ad Yfirvøld í Stødunum standi fyrir þeim auglýsíngum og lýsíngum eins og venjulegt er um opinberar auglýsíngar, en þar á móti á landsbygdinni Forsaungvarinn, sem ókeypis skal á mannfundum vid kirkju kunngjøra og lýsa því, sem Yfirvøld og Réttarins þjónar (til þess) láta senda honum.

§. 3. (Vidkémur Slesvík en ecki Íslandi).

---

Konúnglegt

# Opid Bréf,

med hverju áqvardast, ad enginn, sem straffadur er med opinberu erfidi, megi Borgara-rétt ødlast í nockrum Kaupstad.

---

Kaupmannahøfn, þann 29da Okt. 1824.

Vér Friderik enn Sjøtti, af Guds nád Konúngur Danm. etc.

Gjørum vitanlegt: ad þar Vér høfum nytsamlegt fundid med frekari áqvørdun ad úrskurda, hvert straff med opinberu erfidi

megi útilóka nockurn frá Borgara-rétti í Kaupstodum, viljum Vér allranádugast hafa fastsett: ad enginn, sem innsettur hefir verid í eitthvert Strøffunar-hús til lerfidis, megi odlast Borgara-rétt í nockrum Kaupstad og ad sá Borgari, sem framvegis dæmdur verdur til þvílíks straffs, skuli hafa sínum Borgara-rétti fyrigért*). Samt viljum Vér veita hlutádegandi Yfirvøldum þann myndugleika, ad eptirláta þeim, sem þannig er straffadur, rétt til ad stunda einhvern af þeim óálitlegri bjargrædis útvegum, þó svo, ad hann útilokist frá øllum persónulegum Umbods sýslunum, en sé annars skuldbundinn ad bera øll borgaraleg þýngsli. Einkum má svo strøffudum manni leyft vera þanninn ad ødlast leyfi til ad stunda þad handverk med egin høndum, í hverju hann annadhvert var Meistari ellegar var hæfur til ad verda þad. (Innleidt vid Kóngsbréf frá 7da Dec. 1827.)

---

*) Þar Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808 og 3da Maji 1816 á Islandi hafa fyrirskipad hegningu med vandarhøggum í straff-erfidis stad í fángahúsum, er audvitad ad hin hefir sømu afleidingu sem þetta í ofannefndu tilliti.





# Cancelli Plakat,

dagsett 20ta Jan. 1825.

áhrærandi breytingu §. 3. i Konúngs Urskurdi frá 29da Júlii 1818, auglýstum med Cancelli Plakati degi sídar, um reglur, hverjum fylgja ber vid áqvørdun Ríkisbánkasedla Qvartals gángverds;

birtir bodord Konúngs þann 8da sama mánadar, svo látandi:

„Med tilliti til þess, ad Gángverdsins breytíngar eru því tilfinnanlegri, sem þetta nálægist meir pari (edur jafngyldi), og til þess ad fyrribyggja of stórkostlegann mismun á løgteknu gángverdi í silfurgjøld og því verulega, vill Konúngur allranádugast hafa þeirri áqvørdun, sem finnst í §. 3ja af konúngl. Urskurdi frá 29da Júlii 1818, auglýstum af Cancellíinu þann 30ta nærst eptir: „ad Qvartal-gángverdid setjast skuli til þeirrar tølu-upphædar, sem gángi upp med 12½," svo umbreytt, ad Qvartal-gángverdid framvegis, þegar og á medan þad eptir híngad til gyldandi reglum setja ber lægra, enn ad 250 rbdlir sedla samgyldi 100 Specíum edur 200 rbm S., áqvarda skuli til þeirrar upphæd-

ar, sem gángi upp med minna deilir, edur 6¼, án þess ad nockur frekari affellíug megi gjørast ad álitum, enn sú, sem þar af leidir. Ad ødruleiti standi vid adrar forskriftir um Qvartals-gángverdsins áqvørdun."

---

# Cancelli Plakat,

Dagsett 11ta Martz 1825.

## ad Kúabólu-setningar umsjón felist framvegis á hendur því konúnglega Heilbrigdi-rádi.

Birtir bodord Konúngs þann 7da sama mánadar, eptir framvarpi Cancellíisins: „ad sú allranádugast tilskipada Nefnd manna um Kúabólusetníngu skuli afskipud vera, en umsjón med Kúabólu-setníngu framvegis felast á hendur því konúnglega heilbrigdi-rádi."

„Eptir þessari umbreytíngu, ber Listana yfir Kúabólu-setníngar, sem gjørast eptir gyldandi fyriskipunum, framvegis ad tengja vid þær Lækna-skírslur, sem sendast ega Phýsícó og frá honum aptur med sjálfs hans, á venjulegann hátt, heilbrigdi-rádinu."

---



# Konúnglegur
# Urskurdur,

dagsettur 2ann Apr. 1825.

Býdur: „ad aflétt vera skuli um 5 ára tíma, frá birjun ársins 1825, því 5 rbdla reidusilfurs afgjaldi til Konúngs fjárhirdslu, sem álagt var sérhverja kaupfara-lest med Tilskipun frá 11ta Sept. 1816 í §. 17, í kaupferum þegna Konúngs, sem útsendast til framandi þjóda beinleidis frá Islandi, en, ad adrar lagasetníngar um Islands Kaupverdslun gylda skuli".

---

# Cancelli Plakat,

fyrir Danmörku,

dagsett 7da Apr. 1825.

Birtir auglýsíngu útgéfna 13da Janúar 1823 af bádum hlutadegendum, um alls Afdráttarréttar afteknìngu, Afgjalds-penínga, Tíundar-penínga, eda burtfærslu afgjalda, hverju nafni sem heita, nema almennra gjalda til egin Landsherra í þeim tilfellum af sérhverjum eigum, sem flytjast frá Danmörk og Slesvík til Nassau's Hertogadæmis, eda gjaldast af þess þegnum af erfum þeirra í Danmörk og Slesvík og eins af eigum og erfum, er flytjast frá

nefndu Hertogadæmi til Danmerkur og Slesvíkur.

# Plakat,

fyrir Danmørku,

dagsett 20ta Apr. 1825.

## um máls=kostnad í beneficerudum málum.

Til þess ad fullvissa bædi almenníng og vidkomandi Réttarins þjóna og málsfærslu=menn um hvad þeim beri í beneficerudum málum, þegar mótparturinn skyldast med dómi til ad standa málskostnad edur talsmennsku kaup, hefir Kóníngurinn allranádugast bodid:

1.) Í stadinn fyrir þegar, í beneficerudu máli, mótpartur þess beneficerada parts, híngad til hefir verid dæmdur ad gjalda málskostnad, þessi þá eptir dómi fallid hefir til þess beneficerada parts, hvers vegna sá partur, eptir Beneficii (Veitíngar=bréfsins) uppáhljódun, hefir tilskyldast, ad því leiti nefndur kostnadur ad øllu eda nockru leiti fengist hefir, eptir sømu tiltølu ad gjalda Réttar=tekjur og Skrifaralaun (*), skal framvegis dæma opinberum sjódi í þeim tilfellum, áminnstar réttar=tekjur og

skrifaralaun (*), ellegar vidkomanda réttar Þjóni, hvar réttar-tekjur og skrifaralaun ecki falla til Konúnglegs sjóds.

2.) Svo framt nefndar réttartekjur og skrifaralaun (*) ecki verda útgreidd af vidkomendum innan þess tíma, sem dómurinn tiltekur um hans fullnustu-gjørd, ber Þau med sama hætti ad útheimta, sem bodid er um bætur og ber einninn, ef um er bedid, á sama hátt ad innkalla Þad kaup, sem dæmt er talsmanni þess benefícerada málsparts samqvæmt Tilskip. frá 3ja Júnii 1796 í §. 42.

3.) Ad Því leiti full gjøld fyrrnefndra útláta ecki verda fáanleg hjá vidkomendum, ber eptir tiltølu útlag ad gjøra fyrir réttartekjur og skrifaralaun, hvert sem Þetta ber Konúngi eda hlutadeeganda Réttar Þjóni og fyrir Þad talsmanninum dæmda kaup*) (á undan ødru).

4.) Vid Þá Rétti, hvar réttartekjur falla til Konúngsins sjóds, ber á Því, sem eptir fyrrsøgdu géldst Þessum sjódi, ad standa tilhlýdileg skil ásamt Þeim reikníngum, sem fyrir Auka-

*) J Þessu Placati, sem hér á landi er løgleidt med Cancelli-bréfi frá 17da Marts. 1827, er med Þessu bodid: ad hér ógyldt vera skuli, hvad í Því nefnist um brúkun stimplads pappírs, sem Þess vegna hér er úrfellt Þar, sem ein (*) í Því vísar til í útleggíngunni af hennar fyrstu 3ur greinum.

tekjur, standa ber; vid adra Rétti á þvílíkt ad inntakast í hlutadegandi Réttar-þjóna reikninga fyrir pro mille tekjum og ødrum þeim inngjøldum til Konúngs sjóds, sem leida af Réttarins framqvæmd *).

# Konúngleg
# Tilskipan,
## um (trasserud) útgéfin Vexil-bréf.

Kaupmannahøfn, þann 18da Maji 1825.

Eins og konúngleg Hátign fann vel henta med Tilskipun frá 26ta Júnii f. á. med vissum skilordum ad veita leyfi til ad útgéfa og hagnýta sér þá fyrrmeir øldúngis fyrirbódnu innanbæá vexla, eins hefir Hann snúid yfirvegun Sinni til laganna um trasserada (útgéfna) vexla, en med því Hann fann þær Fyriskipanir, sem DL. 5—14—8 til 28 greinar (NL. 5—13—

*) Þó þessi 4da grein ecki, nú, sem stendur, verdi hér heimfærd um réttar- og pro mille tekjur eda adrar, sem hún tilnefnir, Konúngs sjódi til handa, er samt þessi grein óbrjálud hér útløgd, ef ské mætti ad ný løg um aukal-tekjur seinna meir giøri hana ad nockru eda øllu hér heimfærandi.

6 til 26 greinar) í sameiníngu med einstökum ýngri lagasetníngum, innihalda um þessi fyrir kaupverdslun svo markverdu skuldabréf, eptir þær mörgu breytíngar ásigkomulagsins, sem sídan hafa á komid, ecki eru fullnógar, né ad öllu leiti samqvæmar kaupverdslunarinnar þörfum, hefir Kongúngurinn ásett sér, ad skipa þessum málefnum med skilmerkilegum og fullkomnum lagabodum, medal hverra Hann hefir valid þad til af híngad til gyldandi legum, sem framvegis skal vidhaldast, en breytt því eda ítarlegar áqvardad þad, sem fannst breytíngar vidþurfa eda frekari áqvördunar og bætt ítarlegri forskriftum vid, áhrærandi spurníngar þær, er vidkoma vexlanna efni, sem ádur vóru búrleystar med úthryckilegum legum. Eins og þessa vegna allar ádur géfnar laga-áqvärdanir um útgéfna vexla vid þessa burtfalla, svo ber þar á mót, ad fyrrnefnd Tilskipan um innanbæar vexla framvegis haldist í gyldi, þó svo, ad samqvæmt hennar §. 5, þær reglur, sem í nærverandi lagasetníngu fyriskipast, einninn séu heimfærandi uppá leysda innanbæa vexla, ad svo miklu leiti þessara edli og þar um géfin sérleg bodord leysa þvílíka heimfærslu.

Því býdur og skipar Hann, sem fylgir:

1.) Trasseradur (útgéfinn) Vexill er skjal, med hverju Utgéfarinn (Trassentinn), úthryckilega nefnir þad vexil og skuldbindur sig til, ad láta annann mann (Trassatus) og

á ødrum stad, gjalda þeim vissa summu peninga, sem med tilhlýdilegri heimild hefir skjalid í høndum.

2.) Enginn innlendskur madur má útgéfa vexil uppá sjálfann sig, þó hann annarsstadar í ríkinu, enn á heimili sínu, útgéfi vexilinn*). Sé á móti þessu breytt, ber vexilinn ad stimpla til þess fastsetta taxta fyrir skuldabréf, sem skrifast ega á pappír af þeim fyrsta flocki, og hlutadegendur ad sekta fyrir þad eptir Tilskip. frá 25ta Maji 1804 §. 17.

3.) Sé nockurt skjal samid í trasserads (útgéfins) vexils formi, án þess þad þó sé verulega útgéfid og medtekid til ad framleggjast og útborgast á ødrum stad (til dæmis: sé þad útgéfid í uppdiktudu nafni eda hljódandi uppá útsvar af þvílíku) þá er þad málamindar-vexill (pro-forma) og skal hverr, sem á einhvern hátt tekur hlutdeild í þvílíku afbroti, bæta helmíngi þess, sem vexillinn uppá hljódar, af hverjum bótum helmíngur ber þeim, er því uppkémur; en helmíngur Konúngs sjódi.

---

*) Øll líkindi vyrdast til þess, ad þad eptirfylgjandi af þessari 2ri grein ecki sé heimfærandi á Íslandi, hvar sú tilnefda Tilskip. frá 25ta Maji 1804, hverki er birt né løgleidd, en landid med Fyrirskip. frá 17da Nóv. 1786 í §. 3 og fleirum fritekid frá brúkun stimplads pappírs (sjá sama hér um í Canc. br. 17da Maji 1827, nefndu í Nótu *) vid Placat 20ta Apr. 1828 á bls. 202).

4.) Hverr, sem gyldur er og myndugur til ad útgéfa skuldabréf, má framvegis eins og híngad til, útgéfa vexla, undirgángast þeirra útgjald (acceptera) og vísa ødrum til þess (endossera þá). Skorti einhvern þeirra, sem hlut ega ad vexlinum fyrrnefnda eiginlegleika, breytir þad samt eckert hinna skuldbindíngu, hverra nøfn á vexlinum finnast.

5.) Trassentinn má útgéfa vexilinn svo, ad hann hljódi uppá sjálfs hans ellegar annara fyrisøgn um betalínginn. I sídara tilfellinu ber ad géta þess, hvert Utgéfarinn medtekid hefir hans andvyrdi; samt heldur vexillinn sínu fulla gyldi, þó þessa sé ecki gætt, en Trassentinn má þá innkalla andvyrdid hjá þeim, sem hann féck vexilinn til eignar, géti sá ecki ødruvísi sannad, ad hann goldid hafi andvyrdi hans.

6.) Vexill má og stýlast uppá hans útborgun til þess, sem hann hefir í høndum; skal hann þá útborgast hverjum þeim, sem leggur hann fram, án þess ed sá þurfi adra heimild ad sýna, þó verdur, ef þvílikur vexill sídarmeir med uppáskrift affalast (endosserast) vissum manni, naudsynlegt, ad sá, vilji hann aptur affala sér til annars manns rétt sinn eptir vexlinum, riti þad affal uppá hann.

7.) I sérhverjum vexli skal standa dagurinn nær og stadurinn hvar hann útgéfinn er og hvar hann útborgast á. Þessi sídasti má annars vera annadhvert sá, hvar Trassatus (sá er

útborga á) — hvern audvitad er ad nefna ber — hefir heimili, ellegar annar stadur. Einúngis í sídarst nefndu tilfelli ber útborgunar stadinn útþryckilega ad tiltaka, því, sé ecki annar borgunarstadur tiltekinn, má vænast, ad útgjaldid vera skuli ad heimili Trassatí (þess, er borga á). Upphædina ber tvisvar ad nefna, einusinni med bókstøfum og i ødru sinni med tølustøfum. Veri þessum tveim upphædar skírslum, hverra ønnur finnast kann í yfirskriftinni, í einhverju ecki saman, er Utgéfarinn einúngis skyldur ad gjalda þá minni summu af þeim tilnefndu, verdi þad ecki upplýst, ad sú meiri í raun og veru hafi tilætlud verid. Sé þar á mót undirgengist ad útborga vexilinn eptir stærri summunnar uppáhljódun, verdur þad þessa vegna uppá þess egin ábyrgd, sem þad undirgengst.

8.) I sérhverjum vexli skal áqvardad vera, nær hann útborgast egi, þó þarf hann ecki ad hljóda uppá vissann gjalddaga, ellegar vissann tíma frá hans dagsetníngu, heldur má hann og hljóda uppá ad útborgast, annadhvert, þegar hann sýndur verdur, ellegar ad áqvednum fresti eptir þad hann sýnist.

9.) Vexla, sem hér innanríkis útgéfast, má ecki stýla uppá lengri frest, enn 3ja mánada, eptir dagsetníngu eda sjón þeirra, hvert sem þeir útgéfast uppá innan= eda utan=rík-

is

is stad (til útgjalds þar *). Þó mega vexlar, sem útgéfast á Íslandi, ellegar hljóda uppá betalíng í því landi, stýlast uppá 6 mánudi, og vexlar, sem útgéfast á Færeyum, ellegar þar útborgast ega, uppá 4ra mánudi frá þeirra dagsetníngu eda sjón (af þeim er útborga, à viso). Vexlar, sem útborgast ega í Nordurálfu, mega frá Konúngsins Vestindía Eyum, stýlast uppá 6 mánudi og frá eignum Hans í Austurindíum ellegar Guíenu uppá 1 ár, eptir þeirra dagsetníngu eda sjón. Sami frestur gyldi, þegar vexlar í Danmørk útgéfast uppá Colonial-løndin. Um vexla, sem útgéfast í framandi løndum, nægir, ad þessir, hvad vidvíkur þeirra útgjalds fresti og øllu ødru, séu lagadir eptir þeim reglum, sem gylda, hvar þeir útgéfast, þó séu þar frá undanskilin þau tilfelli, hvar einhverr danskur þegn, á medan hann dvelur í útløndum, semur um vexilskuld vid annann danskann þegn, því þá ber dønskum løgum ad fylgja.

10.) Sømuleidis ber med vexla, sem hljóda uppá Ríkisbánka-sedla og teikn, ellegar uppá silfur, sem útgreida má (í þeim) eptir Qvartals-gángverdi, hvert sem þeir útgéfast í Konúngsins løndum, ellegar fyrir utan þau, í øllu tilliti ad breyta eptir Cancellí-

*) Seinna konúngl Placat frá 21ta Sept. 1825 leyfdi ad stýla vexla uppá betalíng útanríkis, uppá 6 mánudi frá dato, þó ecki uppá sedla eda silfur-verd.

Placati frá 22rum Marts 1813, án þess að þær í §. 9 (hér) gjörðu áqvarðanir megi um þess-háttar vexla að álitum gjörast *).

11.) Þessi grein, sem áhrærir stimpil-afgjöld af vexlum og útskriftir þeirra á stimpladann pappír, samqvæmt Tilsk. 25ta Maji 1804 §. 7, þegar þeir framleggjast í rétt — úrfellist hér — sem Íslandi óviðkomandi, hvað brúkun stimplaðs pappírs áhrærir eptir áðurtöldum ástæðum í Nótum til bls. 202 — 203.

12.) Endossera eður afsala öðrum, má sérhvern vexil, án sérlegs afhendíngar-bréfs, með einfaldri uppáskrift hans. Afsalist vexill svo vissum manni, ber útþryckilega að nefna, hvert sá, er hann afsalar sér (Endossentinn) hefir andvyrði hans meðtekið, hvert heldur vera kann í peníngum úti hend ellegar í reikníngi.

Vanti játníngu um meðtekið andvyrði, er afsalið (Endossementið) einúngis að álíta, sem fullmakt; en tiltaki það, að andvyrðið sé fengið án þess þó að tilgreina, hvert heldur er í

O

*) Þetta Placat bauð í No. 2 að innan-ríkis vexlar, sem hljóða uppá lúkníngu í ríkisbánka-peníngum R. V. og S. V. (sem lúkast má eptir ríkisbánka seðla gángverði í þeim og R V. teiknum) útgéfast mættu uppá 8 daga frest frá sjón þeirra, eða framleggíngu og hafa þeir 3 hlaupadaga. (Canc. Ursk. frá 2rum Apr. 1825).

peníngum eda reikníngi, álítst hid fyrrnefnda vera. Annars má vexils affalid audt standa (in blanco), ellegar svo gjørast, ad sá, er affalar hann (Endossentinn) einúngis riti (aptan) á hann nafn sitt; álítst þá sérhverr, sem hann í hendi hefir, ad vera vexils eigandinn, og þarf hann þá ecki ad sanna, ad hann sé vel ad vextinum kominn og hafi andvyrdi hans fyrir hann af hendi látid.

13.) Sá, er sér affalar vexil til annara, er skuldbundinn sameginlegum seinni eigendum hans, sem skuldunautur, eptir vexlarétti.

14.) Sá, sem kaupir vexil uppá annars reikníng og affalar hann (endosserar) honum, verdur vexil-skuldunautur allra, sem eptirá (endossera) affala sér, en samt ecki þess, fyrir hvers reikníng hann vexilinn keypti, nema hann undirgengist hafi ad standa hans ábyrgd (del credere).

15.) Séu fleiri útgáfur sama vexils skrádar, ber í sérhverri þeirra ad tilgreina, hvert sú sé prima (hin fyrsta), secunda (ønnur), og svo frv. Forsómist þetta, gyldir hver sú útgáfa gégn þeim, er hana af hendi lét, sem vexill út af fyri sig, þó svo, ad hafa megi adgáng til þess, sem sannast sekur í misbrúkun.

16.) Sé einni útgáfu vexilsins útborgunar vidgánga veitt (acceptation), ellegar hún sé til þessarar send, en ønnur útgáfan endosserist (affalist, gírerist), skal á henni tilnefna, hvar hin sé og fáist.

17.) Jafnvel einber útskrift af vidteknum (acceptcrudum) ellegar til vidgaungu burtsendum vexli má affalast (endosserast). En þá skal aptaná (in dorso) tilgreina, hversu lángt útskriftin nær, og hvar á ný uppruñaleg affel (Endossement) taki vid; eins ber á útskriftinni ad tilnefna, hvar frumritid fáist.

18.) Sá, sem vanrækir ad uppáskrifa það í §§. 16 og 17 fyrirlagda, skal ábyrgjast hvad af því leidir.

19.) Hverr, sem einúngis hefir vexil í höndum, hefir fullann rétt til ad krefja vidgaungu hans til útborgunar.

20.) Sá, sem hefir í höndum til útgjalds vidgengna, ellegar til vidgaungu burtsenda útskrift af vexli, án þess sú sé honum endosserud (affölud), er skyldur til ad skila henni þeim, sem med fullum rétti í höndum hefir þá gírerudu (af fleirum afsöludu) útgáfu, ellegar gírerudu útskrift (vexilsins).

Verdi ecki vexillinn af honum krafinn ádur enn hann útborgast á, ellegar afsagdur, vegna skortanda betalíngs (de non solutione) á hann, ef í Kaupmannahöfn útborga skal, beidast af þeim, sem útgreida á vexil-summuna; ad andvyrdid setjist til geymslu inn í þjódbánkann, og bresti þá innsetníngu, lýsa umqvörtun sinni þar yfir (Prótesti). Fyrir utan Kaupmannahöfn, hvar enginn álíkur geymslustadur finnst, burt-

fellur sú skuldbinding; samt er sá, sem (vexilinn) hefir í hendi réttbær til ad krefja andvyrdid sendt til geymslu Þjódbánkanum, vilji hann standa þar af leidandi kostnad, ellegar þola hann afdreginn andvyrdinu.

21.) Ecki einúngis sá, sem berlega hefir skuldbundid sig til ad acceptera vèxil, er þar til skyldur, en í kauphøndlunar-standinu skal sá, sem hefir peninga í høndum fyrir annann, honum skuldbundinn vera, ad undirgángast útborgun (acceptera) þess vexils, sem fyrir þeim verdur uppá hann stýladur, svo framt gjalddagi þeirrar summu sé kominn, ádur enn gjalddagi eptir vexlinum áfellur. Alík verdur og skylda manna, sem ecki teljast í kauphøndlunar stétt, svo framt Trassent og Trassatus ádur hafi í venju leidt sín á milli, ad sá fyrrnefndi med vexli nálgast hafi frá þeim sídarnefnda, hvad hann hjá honum átti inniſtandandi og eckert sídan hafi á milli komid, sem votti ad Trassatus ecki framar klára vildi skuld sína med því móti. Svo framt Trassatus í þeim tilfellum, sem skylda hann til ad undirgángast útborgun vexilsins (acceptera) hlidrar sér þar hjá, skal hann ábyrgjast allann þar af leidandi skada.

22.) Þegar í vexlinum tilnefnist ávísan (advis), ber ad Trassatus ecki undirgángist hans útborgun (accepteri) fyrr enn hann medtekur hina. Breyti hann þar á móti, er þad á hans egin ábyrgd.

23.) Hafi þeim, sem vexilinn fær (Remittentinum) verid trúad fyrir ávísunar bréfinu, ber þessum ásamt ala önn fyrir, ad þad tímanlega komist Trassato í hendur, ellegar hafi hann skada í heimgjald.

24.) Þegar undirgengist er ad útborga (acceptera) vexil, ritast þetta uppá sjálfann vexilinn ásamt undirskrifudu nafni. Standi hann uppá gjalddaga eptir sjón (hans), á vidgaungu-(acceptations)-daginn ad tilgreina. Annars er sá, sem (útgjaldid) undirgengst (Acceptantinn) skyldur ad útborga hann, eins og vexil stýladann uppá gjalddaga frá hans dagsetníngu (à dato). Egi vexilinn annarsstadar ad útborga enn á heimili Trassati, skal ásamt domiciliera hann, þad er: tilnefna mann, sem á þeim tiltekna stad ali önn fyrir útborguninni.

25.) Trassatus má undirgángast útborgun vexilsins (acceptera) ad nockrum hluta þeirrar upphædar, sem hann uppá hljódar, en þá ber þeim, er hann framleggur (presenterar), ad láta lýsa ósátt sinni (prótestera) um þad, er tilvantar. En bæti Trassatus nockrum skilmála vid án samþyckis þess, er vexilinn lagdi fram (presenteradi), álítst sá skilmáli, sem óskrádur. Fallist Presentantinn (framleggjarinn) á þann skilmála, hvad svo álítst vera, láti hann ecki ósátt sinni lýsa med vexilinu, á hann, ellegar, sé hann umbodsmadur annars, þá sá, er honum umbaud, ad

berá allann skadann, sem afrís, en þessi skal hafa sinn adgáng ad hinum (Presentantinum).

26.) Hafi Trassatus einusinni ritad vidgaungu sína á vexilinn (Accept), er hann þar vid óraskanlega skuldbundinn, án þess ad géta, med útstrikun Acceptsins, ónýtt þá skuldbindíngu sína.

27.) Eins og sú er skylda þess, sem vexil hefir í höndum, stýladann uppá útborgun innan viss tíma frá hans dagsetníngu (à dato), ad umannast framkomu hans svo tímanlega, ad hann ecki einúngis verdi framlagdur (presenteradur) fyrir hans gjalddaga, heldur, ef naudsyn krefur, í sídasta lagi þennann dag afsagdur (prótésteradur), eins ber þeim, er vexil hefir í höndum, stýladann uppá sjón hans, þad er: útborgun vid edur eptir framleggíngu hans, svo tímanlega ad framsenda hann, ad hann fyri þann í nærstfylgjanda §. tiltekna gjalddaga, verda megi framlagdur fyrir Trassatum.

28.) Vexill, sem stendur uppá útborgun vid sjón ellegar í vissann gjalddaga eptir hans sjón, skal vera framlagdur til útborgunar, ellegar vidgaungu (Accepts) innan 3gja mánada, sé hann útgéfinn frá einhverjum stad í þessu ríki (Danmerkur) ellegar í Hertogadæmunum og, sé hann útgéfinn frá útlendum stad, innan 6 mánada, allt reiknad frá útgáfu hans; þó séu frá þessu undanskildir vexlar, sem útgéfast frá Islandi eda Færeyum eda þángad, ellegar frá

plátzum fyrir utan Norðurálfuna og til þessara, fyrir hverja vexla gjalddagar lengjast mega til árs-frests og séu þeir útgéfnir á milli Kon-úngsins austindísku eigna og Hans landa í Norðurálfu, allt að 2gja ára fresti.

29.) Skyldur er Trassatus innan 24 klucku-stunda að auglýsa, hvert hann vill útborgun (vex-ilsins) undirgángast ellegar ecki. Undirgángist hann ecki innan nefndra 24 stunda, ber vexilinn innan annara 24ra stunda að affegja, vegna skortanda loforðs um hans útgjald (de non acceptatione), hvað allteins ber að gjøra, þegar vexill verður til útgjalds að nockrum hluta þess, er hann stendur uppá, viðurkénndur, að því leiti hitt mótmælta hans snertir. Þó skal það nóg vera, sé vexillinn framlagður fyrr enn nauðsyn bar til, eptir §§. 27 og 28, að afføgn hans sé lýst innan þess í þeim §§. (greinum) til-tekna tíma. Svo framt þann tíma, á hverjum svar um ellegar afføgn vexils, framkoma átti, ber uppá Sunnu- eða Helgi-dag, géfist frestur þar með til næsta virks dags þar eptir. Játi Trassatus Mósis trúar-lærdómi, má ecki af honum heimta viðgaungu vexils á Laugar-ellegar annann, eptir trúarbrøgðum hans, helg-ann dag, og géfst þá sømuleiðis frestur með hana til næsta virks dags þar eptir.

30.) Afføgnina (Prótestið) skal Notarius Publicus, ellegar sá Embættismaður fram-qvæma, sem eptir Løgum og Tilskipunum stend-

ur fyrir Notarial verkum. Veri svo til, ad þvílíks Embættis-manns adstod ecki tímanlega nóg ødlast megi, þá mega tvø leggyld vitni til þessarar gjørdar brúkast.

31.) Nægileg er munnleg krafa til þess eda þeirra, sem afsøgn vexilsins (Prótest) framqvæma ega og hans afhendíng (til þeirra).

32.) Afsøgnina skal framfæra á milli þess kluckan er 8 ad morgni til þess hún er 8 ad qvøldi og á sú gjørd ad innihalda, auk fullrar útskriftar af vexlinum og øllum hans uppáskriftum, tímann og stadinn, hvar sú gjørd er framqvæmd. Einninn ber á ad minnast, hvert vexillinn er sýndur sjálfum Trassato, ellegar hverjum helst ødrum manni, sem menn fundid hafa á heimili hans eda verdslunar skrifstofu, hann sýndur er, og hverju Trassatus, ellegar sá madur, sem menn fundu í hans stad, hefir ansad til. Eins ber, þegar Trassatus øldúngis ecki finnst og eckert bú (Etablissement, adsetur, næríngar-veg) hefir þar á stadnum, afsagnar-gjørd ad framqvæma, sem þá má ské á Notarii skrifstofu.

33.) Þó Trassatus á medan afsagnar-gjørd vexilsins framfer, mælist til ad Framleggjarinn aptur komi fram vid edur fyrir gjalddaga, er þessi samt ecki skyldur til þess, og engann rétt hefir hann til þessa vegna ad skjóta á frest því, sem hér eptir fyriskipast, um skylduverk þau, sem Framleggjaranum vidkoma eptir framfarna afsagnar-gjørd (Prótest).

34.) Um afsagnar=gjördina ber Framleggjaranum (Presentantinum) ad géfa hverjum þeim ávísun innan 24ra kluckustunda, hjá hverjum hann gánga vill eptir betalíngi sínum, búi sá á sama stad, en annars med fyrstu Póstferd, sem fellur ad 24um kluckustundum lidnum; en sé hann einúngis (annars) Umbods=madur, ber honum med sömu Póstferd, ellegar, sé afsagnar=gjördin fyrir burtför hinnar ecki fullskrád, þá med næstu Póstferd þar eptir, ad senda þeim, er honum umbaud, þann medtekna vexil med hans afsagnar=gjörd*). Sá Endossent (sali) ad hverjum Framleggjarinn (Presentantinn) hefir snúid sér (um borgun), er öldúngis eins skyldur til ad géfa (hér um) ávísun hverjum þeim af formönnum hans, til hverra hann hyggst ad halda sér um útgjaldid.

35.) Forsómi Framleggjarinn á nockurn hátt eptirbreytni þess hér fyrilagda um vexilsins framleggíngu, ellegar hans afsagnargjörd, ellegar ávísun til hlutadegenda um þessa, hefir hann fyrigért vexil=rétti sínum og þar med allri ákjæru gégn Endossentunum. Samt heldur vexillinn sínu gyldi gégn Trassentinum,

*) Þetta bodord: um sendíngu med póstferdum, sýnist eptir þeim sjaldgæfu póstferdum á Íslandi, fyrir þetta land þurfa umbreytíngar, vid og ella orsaka óhaganlega bid med vexil=skulda=kröfur. M. St.

sem einfaldt skuldabréf, svo framt upplýst verdi ad þessi eckert tjón bedid hafi af framinni forsómun vidvíkjandi því, sem honum og Trassato fer á milli.

36.) Svo framt Trassatus, eptir framfarna affagnargjørd (Prótest), en samt á medan Framleggjarinn enn þá hefir vexilinn í høndum, býdst til ad undirgángast hans útborgun, ber ad eptirláta honum þad med skilyrdi, ad hann standi kostnad affagnar-gjørdarinnar og ønnur útgjeld, sem Framleggjarinn kann ad hafa haft, til þess ad útvega sér ellegar ødrum hlutadegendum vissu gégn Trassentinum ellegar einhverjum Endossenti. Svo framt vexillinn var stýladur uppá sjón (útborgun vid hans framleggíngu), á vidgánga hans svo ad lagast, ad vexillinn hafi ecki lengra umhlaupstíma (frest til útgjalda), enn þó honum hefdi verid vidgánga veitt vid fyrstu framleggíngu. Vilji Trassatus, eptir vidgaungu hjáhlidrun, útborga vexilinn á gjalddegi, ber honum þad ad eptirláta med fyrrsøgdu skilordi.

37.) Sé vexillinn útbúinn med vara-bónbréfum (neydar-bónbréfum), er sá, sem hann, í høndum hefir, svo framt Trassatus neiti hans útborgun, skyldur ad láta vexilinn framleggja fyrir þann eda þá, sem í því tilliti tilnefndir eru. Séu fleiri neydar-bónbréf til, ber helst ad fylgja því, sem stendur uppá vexilsins vidgaungu fyrir Trassentinn, og sídan því,

sem beidist verilsins vidgaungu fyrir þann, sem fyrstur endosserar (affalar sér) hann. Svo framt sá eda þeir, hverjum verillinn þanninn sendist, neita um útborgun hans, ber verilinn í hans eda þeirra tilliti ad láta afsegja og vidkomendum þad ad tilkynna.

38.) En vilji nockurr, sem ecki er nefndur á verlinum, eptir þad um vidtøku hans til útgjalds er af vidkomendum synjad, undirgángast hans útborgun uppá Trassentsins reikníng, ellegar nockurs Endossentanna (per onore, vid Intervention, millikomu í virdíngar-skyni) hvers vidgánga áleggur honum sømu skyldur, sem verillinn hefdi álagt Trassato, er samt sá, sem verilinn hefir í høndum, ecki skyldur ad eptirláta þad. En láti hann sér þá millikomu (Intervention) lynda, er hann samt þarvid ecki laus vid þær skyldur, sem honum eru fyrilagdar um affagnar-gjørd verilsins og ávísun þá, er um hana ber ad géfa vidkomendum. Beri svo vid, ad Trassatus neiti ad undirgángast útborgun (Accept) vegna þess, ad Trassentinn hafi bannad sér hana, er øldúngis ecki leyfilegt ad þyggja Intervention (millikomu) vegna Trassentsins. Þar á mót má ødrum jafnan leyfast, ásamt Trassato ellegar þeim, sem eptir neydar-bónbréfi er med honum til vara tilnefndur, ad undirgángast útborgun verils. Sá, sem þanninn tilkémur, er skuldbundinn ásamt þeim, er fyrstur undirgéckst sameginlega (solidarisk, þ. e. einn fyrir báda og bádir fyrir einn, ef annann skortir fé).

39.) Vilji Intervenientinn (sá millikomandi) strax útborga þad fulla andvyrdi, sem vexillinu uppá hljódar, ber því í ollu tilliti vidtoku ad veita, svo framt sá, er vexilinn hefir í hendum hafi þá heimild fyrir honum, ad hann sé rétt borinn til vidtoku andvyrdisins.

40.) Þegar affagdur vexill verdur innleystur per onore (í vyrdíngar-skyni) þá skal ásamt vexlinum afhenda Intervenienti (þeim millikomanda) affagnar-gjordina; þá hefir hann sinn adgáng med vexilrétti til þess, fyrir hvern hann útgjalds vidgaungu veitti og allra formanna þessa, þó svo, ad því fyrirskipada um tímanlega ávísun um affagnar-gjordina, sé af honum fullnægt.

41.) Vilji sjálfur Trassatus per onore undirgángast vexil-útgjaldid, annadhvert á Trassentsins eginn reikníng, sé vexillinn uppá annars manns reikníng útgéfinn, ellegar vegna einhvers Endossentanna, skal þá vidgaungu þyggja, þó svo, ad §. 37 sé hlýdt, ad því leiti neydarbónbréf frá Trassenti finnast, ellegar frá einhverjum fyrri Endossenti. Annars álítst Trassatus í því tilnefnda tilfelli, sem hverr Intervenient (millikomandi) hvar af leidir, ad vexilinn samt sem ádur ber ad affegja og þar um ad géfa vidkomendum ávísun.

42.) Svo framt Trassatus, eptir þad vexlinum er mótmælt, en honum sídan vidgánga veitt per onore, enn vill hans útgjald undirgángast samqvæmt innihaldi hans, ber þeim, sem hefir

þad per onore undirgengist (accepterad) og eins Framleggjaranum ad láta þetta framfara og þeim fyrsta þá ad útstrika sitt Accept (vidgaungu sína), nema þegar sé ávísan géfin einhverjum vexilinn vidridnum um hvad framkomid er.

43) Interveníentinn (sá millikomandi) á ætíd vid vexils vidgaungu ad tilgreina, fyrir hvern hann undirgengst útgjaldid, því annars álítst þad vera Trassentsins vegna.

44) Undir eins og vexill er, eins og ber, affagdur, vegna hans vidgaungu skorts [de non acceptatione], fær hans egandi rétt til ad krefja borgun af Trassentinum ellegar Endossentum, án þess hann skyldur sé ad bída þess tíma, sem í vexlinum kann ad vera tiltekinn. Hann má halda sig til hvers, sem hann vill, af øllum þeim, sem hafa bundid sig vexil-skuldbindíngu, án þess ad vera bundinn vid nockra vissa rød þar vid, ellegar tapa adgángi sínum til þeirra, sem seinastir tilkomu, þó hann fyrst hafi løgsókt þá vexilinn fyrr vidridnu. En hafi hann nockrum leyft ad útstrika nafn sitt, verda þar vid allir þeir fríir, sem eptir hann tilkomu.

45.) Auk vexilsins eginlegu upphædar á Trassentinn, ellegar sérhverr annar, gégn hverjum ákjæra ber eptir vexil-rétti fyrir affagdann vexil, ad gjalda $\frac{1}{2}$ af 100 [pro Cento] fyrir umstáng sitt og til medalgaungu umbunar [Provision og Courtage] auk affagnar-gjerdar (Prótests) kostnadar, póst-peninga af bréfum og út-

gjalds til stimplunar, hvar þetta üppákémur. Sømuleidis er skuldunautur skyldur ad gjalda rentur 1 af 100 á hverjum mánudi í þá fyrstu 6 mánudi, en sídan ½ af 100 üm sérhvern mánüd. Vexilinn ber jafnan ad innleysa med þeirri peninga-tegünd, sem hann üppá hljódar.

46.) Med vexla, sem útgéfnir eru á Kon-üngsins vestindísku Eyum, en sem aptur-koma med afsagnar-gjørd de non acceptatione (vegna neitadrar vidgaungu), skal framfara eptir Kóngsbréfi frá 22rum Sept. 1769 og Plakati frá 8da Nóv. 1799 *).

---

*) Þetta Kóngsbréf baud: 1.) ad undir eins og vexill apturkémur med afságnargjørd vegna hans vidgaungu neitunar, skal Trassentinn strax verá skyldur til ad afgreida; auk þeirrar upphædar, sem hann stendur üppá, 10 af 100 í Recambium (mótvexil eda hervexil, sem stendur üppá sømu Summu, sem hinn, ad vidbættu rentugjaldi og øll-um ødrum — hér í §. 45 nefndum: vexilkostn-adi, sem þetta Kóngsbréf fyrir ræka Vestindía vexla fastsetur allann til 10 af 100), eins og vidgengsi med mótmælta vexla á enskum Cóloni-al-løndum í Vestindíum. — En Placat frá 8da Nóv. 1799 leggür þessi mótvexils (recambii) gjøld eptir þessu Kgsbr. svo út, ad þau einúngis gjaldast skuli eptir inngángi þess til §. 1 í þeim tilfellum, ad gløgglega ráda megi, ad Trassent vexlls þar megi fyrirfram vitad hafa, ellegar ad líkindum mátt vidbúast, ad sá vexill yrdi afsagd-

47.) Þegar Acceptant vexils (sá er útborgun undirgengst) uppbýdur bú sitt ellegar þrot verdur í því til skuldalúkninga (fallit) fyrir vexil-gjalddaga, má strax affegja láta vexilinn, eins og honum ecki hefdi verid vidgánga veitt.

48.) Þegar vexill stendur uppá mánadatal, þá verdur gjalddagi hans sama dag mánadar, sem honum er vidtaka veitt (Accept), ellegar hann er dagsettur (ad borgast à dato), án tillits til mánadanna ýmislega dagatals. Þess vegna er gjalddagi vexils, sem útgéfinn er 28da Febr. og stendur uppá útborgun um 2 mánudi frá hans dagsetníngu, sá 28di Aprílis. En finnist sá dagur, frá hverjum telja ber, ecki í þeim mánudi, sem vexils-gjalddagi verdur, á seinasti mánadardagurinn ad verda réttur gjalddagi. Því verdur 28di Febr. ellegar í hlaupári sá 29di réttur gjalddagi fyrir 2gja mánada vexil, dagsettann 29da, 30ta eda 31ta Decembr. Hvar

---

ur og mætti mótmæltur, vegna neitadrar vidgaungu (de non acceptatione) væntast apturrækur. 2.) ad Trassentinn gjalda skuli, bædi af vexilsins og mótvexilsins (recambii) upphæd 1 af 100 hvern mánud frá gjalddaga, uns sú Summa útborgast og þad um fyrstu 12 mánudina, en sídan ½ af 100 hvern mánud og 3.) gjalda affagnargjørdar-kostnadinn skadlaust, en ad ødru leiti skyldi þar um framfara eptir DL. og vexil-rétti.

vexill tiltekur hálfann mánud, teljast jafnan 15 dagar til hans.

49.) Standi vexillinn uppá dagatal, teljast þessir frá hans útgáfu eda vidtoku (Acceptations) degi til gjalddaga, ad bádum medtøldum og øllum þeim Sunnu- og Helgi-døgum, sem í millitídinni tilfalla.

50.) A sjálfann gjalddaga ber þeim, sem vexilinn hefir í høndum og er réttbær til ad innkalla hans andvyrdi, ad krefja þann um betalíng, sem þenna undirgéckst, ámóti því ad hann, med áritadri Qvittanzíu, afhendi vexilinn.

51.) Utborgi sá, er þad undirgéckst, nockurn vexil fyrir gjalddaga, stendur hann ábyrgdina, ef sídan framkémur, ad útborgad sé ødrum enn réttilega ber, eins þó ad enginn sjáanlegur brestur vid vexilinn finnist.

52.) Eptir gjalddaga bera þeim, er vexilborgun undirgéckst (accepteradi) 8 hlaupadagar*). En innleysi hann ecki vexilinn ádur enn sá frestur útrennur, má sá, sem vexilinn hefir í høndum enn þá bída annars dags þar eptir; en afgreidist andvyrdid ecki ámedan, ber honum fyrir lok fyrrnefndra 2gja daga ad láta vexilinn afsegja vegna skortanda útgjalds hans (de non solutione).

---

*) Sjá Nótu til §. 10 um Canc. br. 2ann Aug. 1825.

53.) Sé seinastur hlaupadagannahelgi-dagur, þeirra, sem eptirlátast þeim, sem verkinum vidgaungu veitir, ber verilinn ad útborga nærsta virkann dag fyrir. Játi sá, er hann undirgéckst, frábrugdinni trú, sem heldur adra daga helga enn þá, sem Landslogin heimila, ber honum samt ecki þessa vegna nockurr frestur med útgjaldid.

54.) Verí seinna daginn af þeim (tveim) frest-dogum (Respit-dogum), sem §. 52 eptirlætur þeim, er veril hefir í hondum, til ad láta hann affegja, uppá Sunnu- eda Helgi-dag, ber ad láta veril-affognina framfara á nærsta virkann dag fyrir og þad allt eins, þó einn af þeim (8) hlaupadogum, sem þeim bera eptir §. 52, sem veril-útgjaldid undirgéckst (accepteradi).

55.) A vista verla (sem borgast vid þeirra sjón, (framleggíngu) skal útborga 24um kluckustundum eptir þeirra framleggíngu.

56.) Med affagnar-gjord de non solutione (vegna betalings brests) skal annars í ollu framfara, eins og vid affagnar-gjord vegna vidtoku brests [de non acceptatione]. Hana skal framqvæma, sé verillinn vidtekinn til útgjalds á odrum stad enn þeim, hvar sá, er hann undirgéckst, býr, þar sem hann útgjaldast átti. Ef nockud forsómast, annadhvert vid hennar framqvæmd, ellegar med þá ávísun, sem

samqvæmt því fyrirlagda í §. 34, á hlútadegendum ad géfast, hefir það sömu afleidíngar í Trassentsins og Endossentanna tilliti, eins og þó forsómud væri affsagnargjörd de non acceptatione (vegna vexil-vidtöku brefsts) þó heldur vexil-eigandinn rétti sínum mót þeim, er hans útborgun undirgéckst.

57.) Séu neydar-bónbréf ritud á vexilinn, skal sá, er hann hefir í höndum ennþótt Trassatus sjálfur hafi honum vidgaungu veitt, samt, þegar hann ecki útborgar í tíma, leita þess, eda þeirra manna, sem þanninn eru í hans stad tilteknir, til þess ad reyna, hvert hjá þeim megi betalíngi ná, en bregdist það láta affsagnargjörd (vexilsins) í því tilliti framfara; samt fríar það hann ecki frá á fyriskipadann hátt ad láta affsagnargjörd framqvæma hjá þeim, er hann undirgéckst ellegar þarum ad géfa vidkomendum skírslu. Annars ber, séu neydar-bónbréfin fleiri, þeirri röd ad fylgja, sem §. 37 fyrirskipar.

58.) Þegar sá, er veitti vexli vidgaungu, ellegar annar, býdur fram borgun af nockrum hluta vexilsins upphædar, skal sá, er hañ í höndum hefir, veita því vidtöku og afskrifa það á vexlinum, en um hitt, er tilbrestur, láta affsagnargjörd framfara.

59.) Þegar affsagnargjörd vegna betalíngs brefsts (de non solutione) er framfarin, hefir eigandi vexilsins sama rétt mót Trassentinum og sérhverjum Endossenti, eins og þá

vexill er mótmæltur vegna hans vidgaungu brefts (de non acceptatione) eptir §§. 44 og 45 og má þá samt, vilji hann það, halda sér til þess, er hann undirgéckst.

60.) Eins og það leidir af edli málsins, ad sérhverr Endossent, sem útleysir afsagdan vexil, ødlast sama løgsóknarrétt, sem vexilsins fyrri eiganda bar, bædi mót formønnum Endossentsins, og mót þeim, er vexil-útgjaldid undirgéckst, eins ber Trassentinum, þegar hann innleyst hefir vexilinn, vexilréttur gégn þeim, er undirgéckst hans útborgun. Ef þessi segist uppá lán hafa undirgengist hana, verdur það ecki ad álitum gjørt í máli, sem høfdad er honum á móti til innlausnar vexilsins, en honum ber ad framfylgja rétti sínum í því tilliti med løgsókn sérílagi.

61.) Svofremt sú útskrift vexilsins, hvará vidgánga hans (accept) ritud finnst, ecki ásamt inniheldur heimild þess, er hann i hendi hefir, til andvyrdisins medtøku, ber — auk þessarar útgáfu — einninn þá, sem med sér ber alla rød Endossentanna, ad afhenda Acceptantinum, þegar hann útborgar. Sama gyldir og, þegar vidtekinn (til útgjalds) vexill á ad innleysast af Trassentinum, ellegar einhverjum Endossenti, og í því tilliti ber ásamt ad afhenda afsagnargjørdina vegna betalíngs-brefts (de non solutione).

62.) Sé einhver af þeim nefndu útskriftum töpud, skal Acceptantinn eingu ad sídur, eptir bón þess, sem sannast hafa vexilinn í höndum haft, ellegar framlagt hann, setja andvyrdi hans inn í Þjódbánkann í Kaupmannahöfn til geymslu, þó svo ad hverr, sem krefur þá innsetníngu til geymslu, útgjaldi sérhvern af henni, og frá stödum fyrir utan Kaupmannahöfn, af innsendíngunni leidandi tilkostnad. Einninn ber honum, ádur enn hann megi krefja summuna sér útgoldna, annadhvert ad hafa útvegad þá töpudu útskrift, ellegar dóm um hennar ógyldi (mortification).

63.) Þegar afsagdur vexill, vegna hans vidtökubrests (de non acceptatione) er krafinn innleystur af Trassenti ellegar Endossenti, er nóg, ad ásamt afsagnargjördinni, sú mótimælta útskrift vexilsins afhendist, svosem sú einasta, eptir hverri heimta má útborgun.

64.) Verdi géngid frá nockurri undirskrift, sem á vexlinum finnst, má hann eins fyrir þad ná gyldi mót hinum, sem ritad hafa nöfn sín á vexilinn. Þó er audvitad ad þeim, sem sekur finnst í misverki, ber ad standa öllum þeim til ansvara, sem þarvid bidu skada.

65.) Sá, sem vidgaunguveitir (accepterar), ellegar eptir réttann gjalddaga útborgar vexil, sem kominn er í rángar hendur, á ecki ad bída tjón vid þad uppákomna misfelli, sé vexillinn og hans Affalanir (Endossement)

í réttu formi. En sé hann ádur enn hann veitir þeim vidgaungu, af hlutadegendum þar um fræddur, ber honum ecki ad undirgángast hans útborgun. Sé þarámót vexlinum þegar vidgánga veitt, ber þeim, sem stendur uppá, ad hann sé í ránga hendur kominn og þessvegna hindra vill útborgun hans til þess, er hefir hann í höndum, ad framqvæma lögmætt forbod. Á medan ber ad innsetja andvyrdid, sé þess af nockrum hlutadeganda óskad, til geymslu í Þjódbánkann og naudsynlegum tilkostnadi í því tillitt ad apturhalda af andvyrdinu.

66.) Discontó-launin*) skal framvegis, sem híngad til, vera vidkomendum sjálfum eptirlátid um ad semja, án þess ad lögtekin rentu-regla þar vid gjörist ad álitum.

67.) Sá, sem skuldbundinn er, eptir vexilrétti og ecki strax gétur útborgad, á, eptir vexil-skuldaheimtarans kröfu, án tafar ad takast til fánga og eigur hans ad kyrrsetjast. Hverr sá, hverjum lént er nádar,

*) Discontó kallast afdráttur af höfudsummu penínga vid útgjöld, fyrir rentur. En venjulegast kaup þad, sem annadhvert sá, er undirgengst vexils útborgun, eda annar óvidkomandi áskilur sér í rentu skini fyrir útborgun vidtekinna vexla fyrir gjalddaga þeirra. Þetta kaup breytist eptir tímunum, en er, nú sem stendur, optarst 4 af 100, stundum 5 og 6 af 100.

bréf, sem undanskilur hann fánga tekt, skal, med því ad hafa útgéfid vexilbréf, því vidgaungu veitt, ellegar þvílík afsalad ødrum (endosserad) álítast sem sá, er þann rétt hafi afsalad sér eins fyllilega og þó hann útþryckilega hefdi frásagt sér þad frelsi frá faungun. En hafi nockurr framselt bú sitt, á sú frían, sem honum kann veitt vera frá faungunar háska, og ad mega vidstaddur vera einninn ad ná til vexil-skulda.

68.) Fógetinn á ecki ad krefja skuldaheimtumann um neitt ved til ad framqvæma fyrrnefnda faungun (eda kyrrsetníngu), nema sá ákjærdi neiti undirskrift sinni, ellegar framfæri ønnur mótmæli, sem vid vexil løgsókuina koma kann til álita. Annars ber Arrestinu (á persónu eda eigum) strax (til dóms) framm ad fylgja til þínga.

69.) Mál, sem høfdast gégn Trassentum, Endossentum, ellegar Acceptøntum vexla til þessara innlausnar, skulu undanskilin vera medferd vid Sættanefndir. Vid medferd þvílíks máls mega, auk mótmæla þeirra, sem áhræra sjálfs vexilsins form og innihald, ellegar þá medferd, sem fyriskipud er, til vidhalds vexil-krefunnar (gyldis) engin ønnur mótmæli gjørast ad álitum enn þau, ad undirskrift þess innstefnda sé raung, ellegar ad hann, þegar hann þá gjerdi, ecki var bær um og myndugur til þanninn ad skuldbinda sig, ellegar ad følsun einhver sé í vexilbréfsins innihald innkomin, eptir þad hann und-

irritadi þad. Þó ber ad tilgreina önnur mótmæli, á hverjum sá stefndi byggja vill lögsókn um skadleysu adgáng sinn, ellegar ad minnsta kosti ad áskilja sér þau (seinnameir) geymd. Sóknaranum ber ecki þvílíkra áskildra mótmæla vegna, nockurt ved ad setja, heldur vidkémur þeim stefnda hverninn sem fer, ad leita sér veds med kyrrsetníngu (arresti), og þar vid adgæta DL. 1 B. 21 Kap. (NL. 1 B. 19 Kap.).

70.) Án samþyckis Sóknarans má ecki veita þeim ákjærda lengri frest enn í 8 daga, til ad framfæra tilsvar sitt í málinu, nema glöggt upplýsist, ad lengri frestur sé honum naudsynlegur til hans lögmætu varnar.

71.) Dóminn ber, hafi málid ecki ordid lángordara, enn venjulegt er í vexil-málum, ellegar annad sérlegt ásigkomulag hindri, ad uppsegja 8 dögum eptir málsins tekt undir dóm, en annars svo brádt verda má. Eins ber dóminn og dóms-gjördirnar án tafar útgéfa fullskrifud eptir beidni þar um, allt undir þá sekt, sem Tilskipan frá 3ja Júnii 1796 í §§. 35 og 39 áqvarda um skipud málefni. Sé sá í Laganna 1—5—8 tiltekni frestur til dóms uppsagnar forsómadur, ber þar áqvedna sekt ad úrskurda.

72.) Sé dómur í þesshＡttar málum fallinn og verdi hann áfríadur af þeim dómfellda, ber DL. 1—6—23 (NL. 1—6—21) og Tilskipun frá 13da Jan. 1792 ad heimfæra, þó dóminum ecki verdi beinlínis stefnt fyrir Hæsta-rétt; má

Því framqvæma útlags- ellegar í öllum tilfellum kyrrsetníngar-gjörd, med þeim í nefndri Tilskipun áqvednu skilordum, þó stefna til áfrífunar úttekin sé.

73.) Vexil-krøfur skal í seinasta lagi til lögsóknar leggja innan 5 ára frá þeim tíma afsagnar-gjörd um hvern vexil framfór. Ad þeim fresti lidnum, skal krafan vera öldúngis dádlaus og ógyld.

---

# Stiptamtmanns Hoppes
# Plakat,

dagsett 1ta Júnii 1825.

## um veidar, skot og Ædarfugla fridun á Islandi.

Til almennrar eptirbreytni og til minnis auglýsir Stiptid:

I.

Vid Tilskipun frá 13da Júnii 1787, vidvíkjandi íslendskri kaupverdslun og skipa-ferum, er í 3ja Kap 7da §. bodid: ad enginn, hverki útlendur né innlendur megi skjóta Ædarfugla ellegar med hundum eda netum veida þá eda tortýna þeim, undir 3gja marka sekt fyrir hvern fugl, en sá, sem med var og ecki strax sagdi frá

Þvílíku, bæti hálfu minna; fær sá, er frá segir $\frac{2}{3}$ þar af, en sveitar fátækir $\frac{1}{3}$, ad frádregnum kostnadi til málsins ransóknar, nema þetta sé framid á egin lód svo, ad enginn nábúa bídi tjón af. Fremji þar á mót nockurr þvíumlíkt á annars eganda lód, sem sérlegann tilbúníng kostad hefir til ædarfugls fridunar, hvert heldur er med hólma tilbúníngi í stöduvötnum ellegar hreidra umbúnadi fyrir fugla og þesshättar, þá gjaldi hann skadabót ad lögum; en hverr, sem reyniſt af illvilja ad spilla ellegar eyda þesshättar umbúníngi, sektist ofríkis bótum (samanb. NL. 6—14—1, sem setur þær, auk skada-bóta, þrenn fjörutíu lód silfurs).

Egg má heldur enginn nema egandinn lesa, og hvar fleiri samegendur eru, enginn nema med allra sameginlega samþycki á tilteknum dögum og þó aldrei lengur frameptir sumri enn til vikulokanna nærstu fyrir Jóns-messu vikuna.

Þegar vart verdur vid, ad Ædarfugl fer ad draga sig ad einhverjum hólma ellegar ödrum stad, sem ecki er eginlega annars eign og búa þar um sig til varps, ber fyrst um sinn ad géfa fugli þar eptir eggin, svo ad hann því heldur hæniſt þar ad og fjölgi, uns fjölgunin aukast má svo þeckjanlega, ad egg megi taka skadlaust fjölguninni. En ef nockurr af nábúum ellegar ödrum brýtur gégn þessu, sektist sá um 1 rdl, hvar af sá, er því uppkémur, fær $\frac{2}{3}$, en sveitar fátækir $\frac{1}{3}$, ad frádregnum réttar-tekjum. Þar á mót ödlast

þeir, sem kosta þvílíkann umbúníng, þau verðlaun, sem konúnglegur Urskurdur frá 22rum Júnii 1785 hefir áqvedið *).

II.

Með konúnglegum allranádugasta Urskurdi frá 17da Júlii 1816 er enn framar skipad:

1. Hleyppi nockurr af byssu-skoti, án lóðar-eigandans leyfis, þar, sem varppláz eru eda tílbúin fyrir Ædarfugla, skal hann bæta 3 rbdm S. V. fyrir hvert skot, sé skotið á varptíma, nefnilega: frá 30ta Apr. til 1ta Aug. ár hvert, en 2 rbd. S. V., sé þar skotið á ødrum árstíma.

*) Aptan vid fyrrtéda allrahærstu Tilskipun frá 13da Júni 1787 finnst medal hennar fylgiskjala á bls. 83—84. auglýsíng: ad Konúngur med Urskurdum, frá 19da Apr. 1784 og 22rum Júni 1785 hafi heitid verdlaunum fyrir frømun ædarvarps, svo ad fyrir fjølgun 50 ædar-hreidra, hvar ádur orpid hefir, gjaldist 2 rbd. (nú 2 rbd. S.), fyrir 100 hreidra 4 rbdr, fyrir 150 hreidra 6 rbdl. og svo framv., en tvøfaldt fyrir hverra 50 hreidra fjølgun á eyum og hólmum, hvar ádur ei varp; áttu þau verdlaun ad haldast um 3 ár, frá því eigandinn féck svo fullgjørt þann umbúnad, ad hann mætti launa beidast. Á nýbygdar hólmum mátti verdlauna beidast fyrir fjølgun færri ædarhreidra í fyrstu og skirslan hér um stadfest vera af trúverdugustu dánumønnum.

2.) Sérhverjum er fyrirbodid, nema í naudsyn, ad hleypa af nockru fallstycki hálfri mílu, ellegar byssu fjórdúngi mílu nær varpplátzum Ædarfugla, hverjum plátzum þess vegna ber ad þínglýsa eptir rádstøfun Yfirvaldsins, ellegar, sem vel hentar ødruvísi, svo ad hverr og einn afviti, því hverr, sem breytir þessu gagnstædt, skal, nema hann í førum sé og ecki hafi enn á land komid og þess vegna álítast megi ófródur vera um þad forbod, bæta um varptímann 1 rbd. 48 ß. S. V. fyrir hvert skot, en á ødrum tímum 1 rbd. S. V.

3.) Ad Yfirvaldid skuli, þó ad bón vidkomenda, einninn láta árlega fridlýsa varpplátzum, hvar álitleg varp=hlunnindi géfast af ødrum varpfuglum enn ædarfugli, þanninn, sem í No. 2 er fyrirskipad og skal þá hverr, sem þar á engann veida=rétt, en veidir þó sídan í þeim plátzum, bæta 2 rbdm S. V. fyrir hvert skot, verdi honum sú yfirsjón á venjulegum varptíma, en á ødrum tíma 1 rbd. S. V.

4.) Ad hverr, sem af ásettu rádi skýtur sé á annars lód eda fjøru, skuli bæta 2 rbdm S. V. fyrir hvert skot, hafi lód þeirri eda fjøru løglega fridlýst verid, en annars 1 rbdl S. V.

5.) Ad hér ad ofan áqvednar bætur skulu vid hverja ítrekun þessara yfirsjóna tvøfaldast,

uns þær hlaupa til 50 rbdla S. V., hverja Summu hinn seki, þegar bætur hans einusinni hafa þvílíkri náð, sídan skal gjalda fyrir sérhverja álíka ítrekada yfirsjón.

6.) Ad auk bótanna skuli hinn seki, ad því leiti med byssu var skotid, hafa byssunni fyrigért.

7.) Ad af øllum fyrrnefndum bótum skuli sá, er frá segir, eignast ⅓, en fátækra sjódur í hverri sveit ⅔, ásamt því forbrotna byssu verdi, en ad þar á mót fuglar eda selir þeir, sem med óløglegum skotum verda drepnir, séu þeirra eign, á hverra lód eda fjøru þeir skotnir eru, og ad lódar-eiganda þar hjá í sérhverju tilfelli ber bót af þeim seka, eptir óvidkomandi manna mati, fyrir skada þann, er hann hér af beid — og

8.) Ad nú gyldandi áqvardanir nm veidar á Islandi skulu ad ødru leiti haldast.

III.

Birtir þetta Placat, ad í nánd vid Reykjavíkur høfn séu fridlýst varp-pláts á Eyunum: Videy, Engey og Akurey.






# Cancelli Plakat,

dagsett 23ja Júnii 1825.

Birtir Samníng konúnglegrar Hátignar til Danmerkur og konúnglegrar Hátignar til Nidurlanda þann 30ta Apr. s. á. um af- tekníngu alls afdráttar-réttar, af- gjalda og svo frv. af sérhverjum erfum, gjefum og eigum, sem útflytjast úr nefndum Konúnga- ríkjum beggja þeirra ríkja á milli. (Sama innihalds, sem Cancellí-Plakat frá 7da Apr. s. á. hér á undan prentad á bls. 200—1).



# Cancelli Plakat,

Dagsett 15da Okt. 1825.

## áhrærandi afdráttar-réttarins af- tekníngu milli Konúngs-ríkisins Danmerkur og þess sameinada Konúngs-ríkis Stórbretalands og Irlands.

Sem afleidíng af vidbættri Sáttmáls-grein til kaupverdslunar samníngs, er fullgjördist þann 16da Júnii f. á. milli þeirra konúnglegu Hátigna Konúngsins í Danmörku og Konúngsins í því

sameinada Stórbretalands og Jrlands Konúnga-ríkjum, á, vid útflutníng eigna frá þeim konúnglegu dønsku løndum til Konúngs-ríkisins Stórbretalands og Jrlands, hvert sem þvílíkur útflutníngur orsakast af utanferdum, ellegar af ørfum, fjárgjøfum til opinberra þarfa, heimanfylgjum (medgjøfum), gjøfum ellegar ødruvísi, framvegis enginn afdráttur þeirra ad gjørast, né burtfærslu afgjald ad lúka, hver afdráttar fríun má álítast ødlast hafa gyldi frá fyrrnefndum 16da Júní f. ár. Annars eru þau afgjøld af arfi, sem, án tillits, hvert hann verdur í landinu, ellegar ecki, gjaldast ega jafnt af inn- og út-lendum, ecki þar med aftekin í Stórbretalands þegna tilliti.

---

# Kóngs-Bréf

til Amtmanna á Jslandi, dagsett 9da og Landsyfirréttinum sendt med dagsetníngu þann 11ta Nóvembr. 1825.

## hversu fara skuli med yfirgéfinn arf á Jslandi.

Býdur, sem reglu, framvegis á Jslandi, ad sá arfur, sem vid skipti verdur útlagdur erfíngja, sem annadhvert sjálfur ecki hefir mætt eda mæta látid vid skiptin, skal, eins og bod-

id er fyrir Danmerkur ríki, med Tilskip. frá 2rum Apr. 1817 §. 2, ef hann ecki innan 15 ára frá því arfurinn féll, géfur sig fram til hans medtøku, útgreidast børnum hans, foreldrum eda systkynum, án frekari sønnunar um fráfall hans, séu þeir erfíngjar til, hvar vid adgjætandi er: ad arfurinn álitst, sem ad nýu fallinn á því augnabliki þau 15 ár eru útrunnin, og skal í øllu tilliti svo med hann fara, hvad løg-skipud afgjøld af arfi og annad áhrærir; en ad arfinum, hvert sem þvílíkir erfíngar vitanlega til eru edur ecki (sem fyrst sé inngoldinn til Íslands-Jardbókar-kassa), skuli móttøku veita í þann fjársjód, sem ætladur er til opinberra þarfa, af hverjum gjáldist í arfsins rentu 4 af 100 frá því hann medtekinn verdur, hvert sem arfurinn útgreidist sjálfum erfíngjanum, géfi hann sig fram innan þeirra tilteknu 15 ára, ellegar hann, fyrrtédu samqvæmt, ad þeim 15 árum lidnum verdur afgreiddur ádurnefndum erfíngjum, ellegar eptir sérlegum kríngumstædum frá Cancellíinu veitast kynni allranádugast leyfis-bréf — mót vedsetníngu — ádur enn 15 ár séu umlidin ad útgreida þeim arfinn *).

---

*) Af framantøldum lagasetníngum fyrir 1825, edur frá bls. 198 — 238, eru allar, sem eptir þeirra tilliti og sérlega innihaldi ecki æru bersýnilega fyrir Ísland útgéfnar, þar innleiddar med Cancelli-bréfi frá 17da Martz 1827.



# Rentukammers Plakat,

dagsett 22ann Martz 1826.

## birtir bodord Konúngs þann 22ann Febr. sama ár.

Ad Stúdentar í Gudfrædi, sem útskrifadir eru frá þeim lærda Skóla á Íslandi og samqvæmt Tilskip. frá 3ja Maji 1743 framhalda Gudfrædi ydnum og æfíngum í geistlegum verkum og sanna þetta fyrir vidkomendum, megi framvegis og Eckjur þvílíkra, halda sömu afgjalda fríheitum, sem híngad til, hvad áhrærir skatt, Kóngs-tíund, gjaf-toll, Lögmanns-toll og manntals-fiska, en ecki innihalda gjöld til Prests, kirkju edur fátækra, ne heldur Sakamála kostnad eda önnur samfélags útgjöld. Þar á mót skuli þeir Stúdentar, sem framvegis verda útskrifadir frá þeim Skóla, greida sérhver þau gjöld, sem eptir almennum reglum lúkast ega af þeirri stéttarstödu, sem þeir í komast og af eigum þeirra. Þar hjá býdur Konúngur, ad sömu áqvardanir gylda skuli um núverandi Candidata (Attestatos) í Gudfrædi, ad því leiti, sem þeir dvelja á Íslandi annadhvert búfastir ellegar í annari stödu, en þau fríheit ecki heldur ná til þeirra, sem framvegis í Gudfrædi taka Embættispróf (Examina).

---





# Konúnglegt Opid Bréf

fyrir Danmörku,

## vidvíkjandi umbreytingu Tilskipunar frá 29da Júnii 1764 og Kóngsbréfs frá 3ja Martz 1774.

Kaupmannahöfn, þann 19da Apr. 1824.

6.

**Friderik enn Sjötti, af Guds nád Konúngur, etc.**

Gjörir vitanlegt: ad med því óskaldan vidber, ad um viss tímabil ecki géfast í sérhverri festíngu hentugleikar til vinnu starfsemi fyrir fleiri Præla, enn sem ádur eru þángad innsettir, en ad þó sú rádstafan, ad Prælar eptir fyrimælum Tilskipunar frá 29da Júnii 1764 og Kóngsbréfi frá 3ja Martz 1774, dæmast ega til Prældóms í tiltekinni vissri festíngu, orsakar flutníng þeirra fyrst þángad um sinn, hvar af kostnadur rís, til ad koma Prælum þadan inní þær festíngar, sem géta notad sér þá (til þrælkunar), hefir Konúngur fundid vel henta, ad afskipa fyrrnefndar rádstafanir, en þar á móti ad bjóda, sem fylgir:

Hvar sem nockurn eptir løgum og tilskipunum ber ad straffa med festíngar-erfidi, skulu Réttirnir einúngis dæma hann til þessa straffs, yfir høfud ad segja, án þess ad nefna til í Dóminum nockra vissa festingu, hvar á mót vidkomanda Yfirvalds skylda er, ad rádstafa þeim dæmda til innsetníngar í þá festíngu, hvar hann notadur verdur, og hvadan hann sídan, eins og híngad til, flytjast kann, eptir rádstøfun General-Commissariats Rádsins þángad, sem betur henta vyrdist. Þó annars alla, sem dæmast til fyrrnefnds straffs, í fyrstu beri ad innsetja í Kaupmannahafnar Festíngu, mun samt med tímanum, þegar kríngumstædurnar gjøra kunna adra rádstøfun naudsynlega, vidkomandi Yfirvøldum þar um verda ávísan gefin frá fyrrnefndu Stjórnar-rádi.

---

# Cancelli Plakat,

dagsett 28da Sept. 1826.

## um aftekníngu afdráttar-réttar á milli Danmerkur Konúngs-ríkis og þeirra sambundnu Ameriku Frílanda — auglýsir:

Ad sú sé afleidíng 7du greinar þess almennilega vináttu- kaupverdslunar- og skipa-

ferda-Sáttmála á milli Hans Hátignar', Danmerkur Konúngs og þeirra sambundnu Ameríku Frílanda; bundins þann 26ta Apríl sama ár; ad vid útflútníng eigna frá Konúngsins dönsku Löndum til Ameríku sambundnn Landa, hvert sem þær flytjast út, sem Arfar, fé-gjafir (til opinberra þarfa), heimanfylgjur (medgjafir), gjafir, ellegar ödruvísi, beri framvegis engann afdrátt ellegar útflútníngs afgjöld ad lúka; hvers afdráttar frían álítast megi ákomin frá 26ta Apr. þ. á. Annars eru þau afgjöld af arfi, sem lúka ber jafnt af inn- og út-lendum, hvert sem arfur svo lendir í landinu edur ecki; þessum sáttmálum vid Ameríku sambundin lönd undanskilin.

---

# Cancelli Plakat,

fyrir Danmörku,

dagsett 27da Dec. 1826.

## áhrærandi aftekníngu afdráttar-réttarins á milli Danmerkur og Konúngs-rikjanna Svíaríkis og Norvegs.

Vidtengd er auka-grein þann kaupversl-unar sáttmála, sem bundinn var í Stockhólms stad þann 2aun Nóvembr. þ. á. af Hans Hátign Konúnginum í Danmörku og Hans Hátign Konúnginum í Svíaríki og Norvegi, um aftekníngu ad beggja hálfu Afdráttarréttar á milli nefndra þriggja Konúnga-ríkja, hverjar áqvardanir hér med kunngjörast til ávísunar og tilhlýdilegrar ad-gjætslu:

Eins og vid 8du grein fridarsáttmálans, sem bundinn var í Jonkjóbings Stad þann 10da Decembr. 1809, er vidtekid, ad afdráttar-rétturinn á milli Konúngs-ríkisins Danmerkur annars vegar, en hinumegin Svía Konúngsríkis skuli aftekinn vera, ad því leiti hann undir þessar tvær Konúnga-krónur híngad til borid hafdi, ellegar þær höfdu látid hann medtaka, hefir nú þeim tveim Háu umsemjandi Málsadegendum komid ásamt um, ecki einúngis ad heimfæra ofannefnda áqvördun uppá Norvegs Konúngs-ríki svo, ad afdráttarrétturinn skal öldúngis aftekinn vera á milli þessa Konúngs-ríkis og Danmerkur Konúngs-ríkis, heldur skal sú aftekníng ad beggja hálfu ná til þess afdráttarréttarins hluta, sem Stad-irnir, Samfélög manna, ellegar önnur prívat Yfirvöld í vissum tilfellum medeiga; hverjum þessa vegna skal hætta hédan í frá eptir ad gánga,

ad beggja leiti, í þeirra tveggja Ríkisstjórna hverratveggja þegna tilliti.

Annars er áqvardad, ad þessi útvídkan fríunar afdráttarins, sem ádur á milli ríkjanna vidtekinn var, skuli gyldi ná frá 1ta Janúarii 1827 *).

# Cancelli Plakat,

dagsett 27da Febr. 1827.

## birtir bodord Konúngs þann 14da sama mánadar:

Ad Ungmenni, sem sett verda undir Laga-ákjærur innan þeirra fulla tvítugs aldurs, fyrir afbrot, sem eptir Lagasetníngum olla þeim hegníngar med festíngar-erfidi, framvegis dæmast skuli til Tukthúss-vinnu, svoframt þeir sekir verda til æfilángs erfidis ellegar ærutjóns, en til betrunar-húss vinnu, þegar þeir sekir verda til fyrrgreinds (festíngarerfidis) straffs um vissann tíma, en halda þó ærunni.

*) Þau hér næst á undan prentudu 3 Placat frá 1826 eru á Íslandi lögleidd med Cancelli-brési frá 5ta Maji 1827.



# Cancelli Plakat,

fyrir Danmørku,

dagsett 7da Júlii 1827,

## áhrærandi aftekníngu afdráttar-réttarins milli Danmerkur annarsvegar, en hins Rússlands og Pólínalands velda.

Sú er afleidíng samkomulags milli Hans Hátignar Danmerkur Konúngs og Hans Hátignar Rússlands Keisara og Pólínalands Konúngs, um Aftekníngu Afdráttar-réttarins ad beggja hálfu, ad þegar arfur ellegar adrar eigur, sem tilheyra rússiskum eda pólskum þegnum flytjast út úr Konúngsins dønsku løndum, skal engann afdrátt þeirra ellegar burtflutníngs afgjald þar af lúka, ad því leiti þetta, eptir híngad til gyldandi reglum, bar Konúngs sjódi; þar á mót á þvílíkt afgjald, ad því leiti þetta lagt er til Samfélaga, ellegar prívat manna, ellegar lúkast átti af eigum danskra þegna, sem úr landinu útfærast, eins þó þetta svo beri Konúngs sjódi, framvegis ad vidhaldast. Annars ber ádurnefnda áqverdun um aftekníngu afdráttarréttarins ad heimfæra, ecki einúngis uppá eigur þær, sem útflytjast eptir þær þann 18da Maji þ. á. framfornu afhendíngar (beggja Málsparta) á þar um út-

géfnum auglýsíngum, heldur einninn í øllum tilfellum þar, sem Afgjaldid ecki fyrir þenna ádurnefnda dag, hefir verulega medtekid verid af hlutadegandi Embættismønnum.

---

# Plakat

## fyrir Danmørku,

## dagsett 23ja Nóv. 1827.

## um medøl til ad frama innlausn veitingar-bréfa frá Stjórnar-rádunum (Collegiis).

Þar ed sú fyrisøgn, sem inniheldst í Placats frá 27da Dec. 1803 (eptir Kónúngs skipun frá 23ja Dec. þad ár) §. 4da, ecki reynst hefir fullnóg til ad frama innlausn veitingarbréfa frá Stjórnarrádunum hefir Konúngur hugsad sér ønnur medøl, med hverjum þeim tilgángi enn vissar ná megi.

J því tilliti skipast hér med:

1.) Sérhverr, sem ødlast hefir konúnglegt veitingar eda nádarbréf, hvert sem þad er medal þeirra, sem undirskrifast af sjálfum Konúnginum, ellegar hinna, sem ad bodi Konúngs (ad mandatum) útgéfast frá

Stjórnarrádunum, skal skyldur vera í seinasta lagi innan 6. vikna frá þeim' tíma, sem hann féck ávísun um útgáfu veitíngarbréfsins ad útleysa þad.

Þó má undantekníng frá þessu leyfast, hafi hann þar adsetur, sem gjøra kann honum naudsynlegann lengri frest, í hverju tilfelli þad Stjórnar-rád, frá hverju veitíngin útgéfin verdur, skal myndugleika hafa til ad tiltaka þann frest í ávísuninni um veitínguna.

2.) Láti hann þann frest útrenna, án þess ad gjøra naudsynlega rádstøfun um útlausn veitíngar-bréfsins, á vidkomandi Stjórnar-rád ad umannast, ad lausnargjaldid verdi útheimt annadhvert med rádstøfun hjá vidkomanda Rádi, ad andvyrdi þess verdi afdregid Embættis-launum hlutadegenda, ellegar, hvar þvílíkt ecki á heima, þetta gjald med adfør úttekid. Samt ber í þessu sídara tilfelli skipun til þess ætíd ad útgéfa frá því danska Cancellíi, hvers rádstøfunar hin Stjórnarrádin, þá naudsyn krefur, þar um leita skulu.

3.) Þar, sem ecki tekst ad innkalla lausnar-gjaldid med neinum af þeim í §. 2. tilnefndu medølum, á vidkomandi Stjórnar-rád annadhvert ad ónýta veitíngar-bréfid, sé þad þesshattar, sem eptir skipun (ad mandatum) útgéfst, en ella ad tjá Konúnginum málavext til úrskurdar.

4.) Í þeirra veitíngar-bréfa tilliti, sem Kaupmannahafnar Stadar-yfirvoldum og Amtmønnum er veittur myndugleiki til ad afhenda, ber þessum Yfirvøldum ad tjá því konúnglega danska Cancellíi, þegar útlausnin afrækist innan þeirra 6 vikna, sem §. 1. tiltekur, hvar eptir Cancellíinu ber frekari naudsynlega rádstøfun ad gjøra.

5.) Hvad þau nádar-bréf áhrærir, hverra veitíngu fylgir sérlegur kostnadur, t. d.: adals-stéttar veitíngu, þá er sá þar med nádadi skyldur til, innan þess í §. 1. tiltekna frests, ad leggja svo út til þessa fyrirfram, sem af hlutadeganda Stjórnar-rádi áqvardad verdur, en sídan innan sama frests, eptir þad hann fær ávísun um, ad þad nádar-bréf fullbúid sé, ad útleysa þad, og ber í hverjutveggja tilliti fyrrtédum medulum ad beita, svo framt hann ecki géldur hvad honum ber.

6.) Hafi nockurr í einstøkum tilfellum ødlast frest med borgun lausnar-gjaldsins, og afgreidi þettad samt ecki í áqvedinn gjalddaga, ber ad setja honum nýjann frest samqvæmt §. 1 og sídan ad framfara eptir ødrum fyrrnefndum reglum.

7.) Adurtaldar áqvardanir skulu ecki einúngis vera heimfærandi uppá þau veitíngar- og nádar-bréf, sem framvegis veitast einhverjum, heldur allteins uppá þau þegar útgéfnu, þó í þessara tilliti med þeirri linun, ad þvíng-

unar-medøl eptir þessari fyriskipun ecki megi vid hafa, fyrr enn lidid sé 1 ár frá þeim tíma veitíngar- edur nádar-bréfid er vidkom-endum útgéfid; líka ber, þó ádur sé ávísan útgengin, ný auglýsíng eptir §. 1 á undan ad koma, fyrr enn þvíngunar-medølum eptir §. 2 beita megi.

8.) Ad ødru leiti standi þetta vid þess í Placati frá 27da Dec. 1803 auglýsta Urskurd-ar frá 23ja í sama mánudi §. 3 *). Ecki held-ur skal nockurr uppá einbera ávísun um hon-um unnta veitíngu, mega hagnýta sér hana vid dómstólana, ellegar nockur rádstøfun af Embættismanni eptir henni gjørast, ádur enn veitíngar-bréfid er af hendi látid, hvert þess vegna einninn skal framleggja edur sýna **).

---

*) Sú 3ja grein (Placats frá 27da Dec. 1803) hljódar: „ad sérhverr, sem Embætti þadan í frá ødlast, skuli skyldur til, ádur enn hann gengur ad Embættis síns umsýslun eda launum, ad innleysa hon-um veitt Embættisbréf og sýna þad sínum nærsta Yfirmanni.“

**) Þessi 3 Plakøt frá 1827 eru hér á Islandi løgleidd med Cancelli-bréfi frá 17da Majii 1828, en um gyldi margra annara merkilegra Lagasetn-ínga frá 1827—28, bídur enn frekari fyriskip-unar þessa Stjórnar-ráds; hvers vegna rød Laga-setníngarnna, sem Lands-Yfirréttinum er bod-





# Cancelli Bréf

(til Conferenceráds og Justitiarii *Dr. Juris* M. Stephensens).

dagsett 2ann Augústi 1828.

Conferencer. hefir í þócknanlegu bréfi, dagsettu 9da Marts nærstlidna, gétid þess, ad á Islandi sé mikill efi*) milli Dómara og Yfir-

---

id ad auglýsa á Islendsku, þegar um sérhverrar gyldi á Islandi er þadan útgengin fyriskipan, sem misseint útkémur til vor, ecki gétur ordid samqvæm tímatalinu, hvad Lesarar sjálfir þess vegna athuga og laga þurfa.

*) Þenna efa voktu — auk margra Undirréttar dóma — Landsyfirréttarins og sjálfs Hæstaréttar ýmsir Dómar í blód-skammarmálum um lánga tíma, svo sem Landsyfirréttarins þann 1ta Nóv. 1804, stadfestur í Hæstarétti þann 6ta Nóv. 1805; eins sá, er í Landsyfirrétti féll 29da Jún. 1806, ad öllu stadfestur í Hæstarétti þann 25ta Apr. 1819. Enn þá einn Landsyfirréttarins, fallinn 10da Júnii 1822, stadfestur í Hæstarétti þ. 4da Okt. s. á. og Landsyfirréttar Dómur þann 3ja Marts 1823, er dæmdi 2 Systkyni frá lífi, fyrir blódskömm, þá seku Systur til skérpts dauda-straffs, fyrir ásamt framid dulsmál vid

valda um, hvert Stóridómur ellegar Tilskipan frá 23ja Maji 1800 skuli álítast ad vera gyldandi um Legorda-mál í meinum, einkum í blódskammar-málum, hvers vegna hann óskad hefir ad náqvæmar áqvardast mætti, hvert Stóradóms bodord um meinbugi og þarí tiltekid blódskammar-straff, ecki mættu álítast ad vera sett úr gyldi med Tilskipun frá 23ja Maji 1800 1ta Kap. §. 1, en þessi lagasetníng ad öllu leiti álítast gyldandi á Islandi og hvert straff liggi vid ólögleg um mægdum (í meinum) í þeim tilfellum, hvar Konúngs leyfi þarf til hjónabanda, svo sem med tveim brædrum eda systrum samtída á lífi.

Eptir þad Cancellíid hefir um þetta málefni útvegad Justitiarii og annara Tilskipadra í Hæstarétti álit, meddeilist hér med þénustusamlegast þetta eptirfylgjandi:

---

barnsfædíngu hennar og bana barns síns, en Hæstiréttur dæmdi þann 8da Dec. 1823 bædi til lífs- og búslódar-tjóns, henni med dreckíngu eptir Stóradómi, eins og í öllum fyrrtédum blódskammar-málum, ólíkt straffi eptir Tilskip. frá 23ja Maji 1800, sem tiltók einfaldt lífsstraff, en eckért búslódar-tjón.

Hvad nú fyrst áhrærir þá almennu spurníngu: hvert heldur Stóridómur, ellegar Tilskipan frá 23ja Maji 1800 skuli álítast gyldandi á Islandi í þeim tilnefndu málum? þá sýnir, ecki einúngis sú af sjálfu Conferencer. nefnda ástæda, ad nýnefnd Tilskipan, árid sama, sem hún útgéck, er auglýst á Islandi, heldur einkum áqvardanin í 3ju greinar 4da No. í Tilskipun frá 30ta Apr. 1824, sem — eptir auglýstum Urskurdi Konúngs frá 28da Nóvembr. 1827 — med Kóngsbréfi frá 7da Decembr. sama ár er lógleidd á Islandi*), ad Tilskipanin frá 23ja Maji 1800 þar verdur (nú) ad vera reglan um, í hverjum lidum hjónabönd séu meinud skyldum ellegar mægdum.

Vidvíkjandi blódskammar-straffinu hefir Tilskipan frá 23ia Maji 1800 einúngis

---

*) Allrahæstnefnt Kóngs-bréf frá 7da Dec. 1827, kom fyrst til Islands um sumarid 1828; laungu eptir þad fyrrnefnd Fyrispurn var gjörd, og er þad til ársloka 1828, enn óþínglýst í Landsyfirrétti; því mátti Tilskip. frá 30ta Apr. 1824 §. 3 No. 4 (eda lit. d) ecki fyrri aftaka vafa um gyldi Tilskipunar frá 23ja Maji 1800 §. 1 um meinbugi.

tiltekid, ad af þessu afbroti leidi dauda-straff, en eckert áqvardad um daudda gann; en hvad sérílagi áhrærir straffid med búslód-ar-tjóni, sem Stóridómur leggur vid blódskømm, þá er þettad aftekid med Tilskip. frá 24da Sept. 1824, sem eptir fyrrnefndum allrahærstum Urskurdi frá 28da Nóv. s. á. á gyldi ad ná einninn á Íslandi*).

Í alls framanskrifads tilliti og þess, ad Hans Hátign Konúngurinn, eins og alkunnugt er, ecki er vanur ad leyfa daudastraff fyrir þetta afbrot, heldur Hærstiréttur ecki þørf á med laga-setníngu ad lýsá Stóradóm í søgdu tilliti ad vera afmádann.

Ad því leiti Conferencer. þessu nærst óskad hefir laga áqvørdunar um: hver straffs sekt liggi vid óløglegum mægdum (í meinum) í þeim tilfellum, sem krefja Kóngleyfi til hjónabanda, svo sem med tveim enn lif-andi brædrum eda systrum, heldur Hærsti-réttur, ad umgétinn vafi í þessu tilliti hverfa

*) Um þessa Tilskipun er nú sama athugandi, sem í nærstundangenginni Nótu er ávikid, ad hún nádi hér fyrst gyldi um midsumar 1828.

megi, eptir því hér á undan framfærda, þegar adgætist, ad Tilskip. frá 23ja Maji 1800 gyldir (nú) á Islandi, því eptir nefndri Tilskipun, samanbórinni vid (DL.) 3—16 (NL. 18)—9 §. 5 og vid Tilskip. frá 14da Dec. 1775, mega óløglegar (meina) mægdir álítast hamla ega hjónabøndum í øllum þeim tilfellum, hvar løglegar mægdir hafa þá verkun. Þar nú Tilskipan frá 14da Dec. 1775 tjáir fáanlegt leyfi til hjónabands, med al- eda hálf-systur dáinnar Konu manns, en Tilskip. frá 23ja Maji 1800 hefir afskipad þau bønn, sem Tilskip. frá 14da Dec. 1775 tilnefndi, ad leyfi mætti fá til ad afmá, svö vard med Tilskip. frá 23ja Maji 1800 hjónaband manns, med systur Konu sinnar umsvifalaust leyfilegt; en óløglegar mægdir í sama lidi, mega því ecki saknæmar metast. Med bródurs eckju þar á mót, má hjónaband, án Konúngs leyfis, ecki binda, en ad sama gylda egi um hjónaband þess med Konu, hvers enn þálifandi bródir, utan hjónabands hefir átt barn med, leidir af fyrirsøgdu um afleidíng-

ar

at skyldra (meina) mägda*). Ad sämt sú almenna straffs-ákvardan fyrir blódskømm ecki sé heimfærandi, þegar þvílík hjónabønd stiptast løgum gagnstædt án Konúngs leyfis, leidir af því, ad Tilskipan frá 23ja Maji 1800 Cap. 1ta §. 1 berlega hefir ákvardad, í hverjum tilfellum D. og N. Laga 6 — 13 — 14 heimfærast egi, hverju samkvæmt Hæstaréttar Dómur frá 17da Aug. 1802 fann nefnda lagagrein óheimfærandi uppá Legords brot med tveim brædrum**).

*) (Sjá Canc. br. 23ja Febr. 1813).

**) Til upplýsingar um vafasama meinbugi má vera: ad Cancellibr. frá 2rum Okt. 1802 og 4da Júlii 1815, segja leyfi óþarft til hjónabands med systur Stjúpfødurs og Canc. br. 11ta Dec. 1802 sama um hjónaband med seinni Konu Stjúpfødurs. Ecki þarf heldur leyfi til ad ekta konu med hverrar stjúpdóttur sami madur fallid hafdi í lausaleik. (Cancelli br. 29da Júlii 1817); en aldrei gefst leyfi til ad ekta Stjúpbarn sitt, því legords-brot med því gyldir lífsstraff. (Canc. br. 15da Apr. 1817).

Videyar Klaustri, 1828.
Utgéfid frá þeim konúnglega íslendska Landsyfirrétti og prentad á konúnglegann kostnad
af Fakt. og Bókþryckjara Schagfjord.

Hið konúnglega danska Cancellí hefir, þann 26ta Sept. 1829, eptir því allranádugast veittum myndugleika, þann 6ta Júníi 1821, úrskurdad: ad auk framantaldra almennra Lagasetnínga, útgéfinna 1825, skuli eptirfylgjandi tvær enn framar gylda á Íslandi.

---

# Konúngleg Tilskipan,

dagsett 20ta Apr. 1825.

## Um straff fyrir þá, sem hafa ýmislega hlutdeild í víkingskap og medferd mála um það illvirki, sem á Vestindía eyunum fyrikoma. (svo ad — heitir það — ef nockurt þvílíkt mál fyrikjæmi á Íslandi, hún fái vegleidt til straffsins áqvordunar.)

---

Vér Friderik enn Sjötti, af Guds nád Konúngur, etc.

Gjörum vitanlegt: ad eins og Vér höfum þegar varid samegínlegri vidleitni med ödrum Ríkjum, er halda úti skipaferdum, til ad stemma stiga fyrir þeim víkíngskap, sem ydugl-lega fyrifellur á Vestindía skipaleidum, finn-

um Vér enn framar henta, med þeirra mála til-liti, sem áhræra víkingskap og koma kunna undir laga medferd á Vorum vestindísku Eyum, ad fyrirskipa þad Réttargángs form, med hverju þau, sem hradast verdur, megi til lykta leidast; og, þó almennt sé vidurkénnd sú grundvallar-regla, ad víkingskapur sé íllvirki, sem á daudastraff skilid, álítum Vér samt hæfa vid þetta tækifæri framar ad áqvarda, hversu ýmislegum hluttákendum í þvílíku íllvirki beri ad hegna; því bjódum Vér, sem fylgir:

1.) Sérhverr, sem reyniſt ad hafa bendlad sig sambandi, til skips útgérdar í víking, edur þjónad á þvílíku, sömuleidis sérhverr, sem vísad hefir víkingum á herfáng, ellegar á annann áþeck-ann hátt verulega framad eda reynt til ad frama víkingskap, á ad straffast med gálganum, hvar hjá þetta straff skérpist svo fyrir þann, sem reyniſt ad hafa verid höfundur sambandsins, elleg-ar foríngi á víkinga-skipinu, einnig fyrir þá, sem þátt hafa tekid í mordi eda misþyrmíngu manna, hafi til verulegra árása komid gégn nockru skipi, ad hinn seki skal hengjast í járnhleckja-festi á útströnd landsins þar, sem Vor *General-Gouverneur* fyrirskipar, án þess ad kroppur-inn verdi úr gálganum ofantekinn og jardadur.

2.) Þarámót skal hegna þeim med nock-urra ára festíngar erfidi ellegar eptir málavextum æfilángt, sem med minna fylgi hafa medsekir gjörst í íllverkinu.

3.) Verdi víkinga-skip hertekid og flutt til Vorra vestindísku Eya, ellegar þar annars géfist orsök til ad legsækja nockurn til hegníngar, eptir þessari Vorri Fyriskipun, ber málid tafarlaust ad prófa af hlútadegandi Dómara, hvar hjá Vor *General-Gouverneur*, hverjum strax ber málid ad tilkynna, má skipa einhvern Sjóar-*Officéra*,] eda hverja menn adra, sem hann finnur hæfa, til ad láta hlut taka í þess ransókn.

4.) Undir eins og prófid er til lykta leidt, ber þess gjørdir ad senda Vorum *General-Gouverneur*, sem gjørir þá rádstøfun ad málinu strax verdi stefnt fyrir Vorn Landsyfirrétt, sem sjálfur skal dæma þesshattar málefni, sem ad ødru leiti ega þar ad medhøndlast eptir almennum gyldandi reglum um Réttarins tilhlýdilegu og fljótu framqvæmd í sakamálum. Og ber þessum Dómstóli sem alvarlegast ad alaønn um, ad eckert óþarft uppihald lídist í málsins flutníngi.

5.) Ad føllnum Landsyfirréttarins Dómi, ber Réttinum tafarlaust ad senda málsgjørdirnar Vorum *General-Gouverneur*, sem hefir myndugleika til, strax ad láta Dóminum fullnustu veita, svo framt hann ecki finnur neitt sérlegt tilefni til ad stefna málinu fyrir Vorn Hærstarétt.

6.) Sá, sem med uppljóstun ellegar ødruvísi styrkir til ad tálma víkingskapi, ellegar til ad fá þá handtekna og hegnda, sem sekir gjørst hafa í þessu íllvirki, má vænta sér hæfilegrar umbunar eptir áqvørdun *General-Gouver-*

*neursins*, hverja umbun greida skal af Almenníngi, svo framt hún ecki verdi fengin af fé ens seka. Hafi hinn sjálfur medsekur ordid í íllverkinu, er *General-Gouverneurnum* veittur myndugleiki til, eptir málavextum, jafnvel ad frítaka hann fyrir ákjærum og straffi.

7.) Finnist nockurr á Vorum fyrrnefndu Eyum, sem í framandi landi og sem þegn í framandi ríki, hafi hlutdeild tekid í ofannefndu íllvirki, skal hann handtaka og yfirheyra og leita þeirra annara upplýsínga, sem þar á stadnum eru fáanlegar, en sídan ber ad tilkynna Yfirvaldi hans málid, og krefji þá þetta hann sér frammseldann, ber þad ad verda. Annars skal málinu gégn honum framfylgja eptir þessarar Fyriskipunar áqverdunum.

Hvar eptir öllum vidkomendum ber allraundirgéfnast ad breyta.

---

# Cancelli Plakat,

dagsett 28da Maji 1825.

## Birtir bodord Konúngs þann 28da Maji sama ár.

Ad þegar kona, sem utan hjónabands hefir barn alid og leitar Yfirvaldsins adstodar um uppfósturs styrk af þeim lýsta barnsfødur, án

þess ad vissa sé fyrifram um, ad hann réttilega álítast megi, sem þvílíkur — ber Yfirvaldinu ad gjøra rádstøfun um medferd málsins vid þann Pólití-rétt, í hvers umdæmi hann er, hverr Réttur, verdi málid ecki gódmótlega afgjort, á þanninn, sem fyrilagt er um medferd prívat Pólití-mála, ad ransaka og úrskurda málid og taka þann eid, sem eptir samníngi eda dómi kann bera ad vinna. Þar hjá skal Rétturinn ef — eptir málalokum — Yfirvaldinu ber ad áqvarda uppfóstursins styrk, tilkynna þessu allt hvad naudsynlegt vyrdist af því, sem fram hefir farid. Ad odru leiti á í fyrrnefndum málum vid Undirrétt, eckert kaup ad útgreida, hverki Dómara, Skrifara eda Stefnuvottum, en — ad því leiti málinu verdur skotid til ædri Réttar, skal í einu og ollu framfara eptir vanalegum reglum.





Þann 28da Sept. 1829 hefir háttnefnt Cancellí úrskurdad, ad eptirfylgjandi almennar Lagasetníngar, útgéfnar árid 1828, gylda skuli á Íslandi.

---

# Cancelli Plakat

fyrir Danmørku,

dagsett 4da Martz 1828.

## áhrærandi afteknìngu Afdráttar-réttarins á milli Danmerkur og Sardiníu.

Eptir útgéfinni auglýsíngu þann 23ja Decemb. 1826, hafa þær konúnglegu dønsku og sardinísku Ríkisstjórnir komid sér saman um eptirfylgjandi greinir:

1.) Allur afdráttar-réttur, burtfærslu afgjald og øll ønnur afgjøld, sem vidkoma efnum, er flytjast frá einu þessara Ríkja til annars, eru og skulu vera øldúngis aftekin á milli Danmerkur og Sardiníu Konúnga ríkja. Hér med undirskilst einnig sá svo nefndi Krónunñar arfafalls-réttur (*droit d'aubaine*), sem annars ecki heldur hefir bádummeginn í gyldi verid til þessa.

2.) Þessa vegna mega sérhvers þessara Ríkja þegnar frítt og án nockurs afgjalds útflyt-

ja eigur, sem þeir hafa ablad í hins lønd-
um, hvert sem þessar eru med arfi, gjøfum, skipt-
um ellegar á nockurn helzt annann hátt fengnar.

3.) Þessar áqvardanir áhræra ecki einúngis afgjeld og álegur af fyrrnefndu tagi, sem Rík-is-sjódinum bera, heldur og þau, sem híng-ad til fallid hafa til einstakra manna, Hérada, Bæa, Løgsagna, Samfélaga og Almenninga.

4.) Undanskilin skulu frá þessum áqvørdunum afgjøld þau, sem, hvert heldur til gagns fyrir Stjórnina, eda prívat-menn løgd eru eda verda á arf í ødru skini, enn útflutníngs, og sem lúkast jafnt af inn- og út-lendum.

5.) Áqvardanir þær, sem undanfarnar greinir innihalda, skulu gyldi ná frá þeim degi, sem stadfestíngum þeirra verdur víxlad — sem vard í Wíennu-borg, þann 27da Okt. 1827 — en, svo ad beggja Ríkjanna þegnar, sem brádast má, notid fái góds af innihaldi þessarar auglýsíngar, skulu þau efni, sem fyrr hafa hlotnast þeim í vidkomandi Ríkis løndum hvers um sig, en sem ennþá ecki eru útflutt, njóta þeirra fastsettu afgjalda fríheita um tilfallandi eignir eptirleidis.

---



# Tilskipan
## fyri Danmørku,
dagsett 7da Maji 1828.

## áhrærandi Forbod mót Eptirprenti Rita, til hverra framandi ríkja þegnar hafa Forlags-rétt.

Enn þótt Eptirprent annara Forlags-bóka því nær aldrei hafi hér í Ríkinu haft stad, hefir þó Konúnginum virdst vel henta, med útþryckilegu lagabodi, ad gjora þad forbod, sem Tilskipan frá 7da Jan. 1741 inniheldur, mót eptirprenti bóka, en — sem helzt midar til bóka, til hverra einhverr hér í landi hefir forlags-rétt, gyldandi einnig þegnum annara Ríkja til góds, í hverjum forlags-réttur Konúngsins þegna allteins nýtur verndar. Því skipast:

Þad Forbod, sem Tilskipan frá 7da Jan. 1741 inniheldur mót Eptirprenti, skal, med þeirri strafs ábyrgd, sem þar í áqvedud er, einninn heimfærast til þeirra Prent-rita, til hverra þegnar framandi Ríkja hafa Forlags-rétt, ad svo miklu leiti, sem í þeim Ríkjum aptur á mót er eda bannad verdur ad eptirprenta bækur, hverra forlag Konúngsins þegnar hafa kostad.

---

# Konúngleg Tilskipan

fyri Danmørku,

dagsett 4da Júnii 1828.

## med hverri Laganna 5—2—30, 31 umbreytast.

Konúngur hefir tekid til yfirvegunar, hversu á-qvardanir Laganna í 5—2—30, 31, ad því leiti þær útiloka barn, sem deyr ádur enn þad medtekur Skírnar Sakramentid, frá arfi eptir þess ádur burtdána Fedur eda Módur, kunna, í vissum kríngumstædum, olla því eptir-lifanda foreldri allt eins óverdskuldad og tilfinn-anlegt tjón. Til þess nú framvegis ad fyribygg-ja þetta, hefir Konúngurinn bodid: ad fyrrnefnd-ar Laga-greinir skuli svo umbreyttar vera, ad barn, þó þad deyi ádur enn þad ødlast skírn, ecki skal álítast útilokad frá arfi, hafi sá til-tekni tími til skírnarinnar framqvæmdar, eptir Tilskipun frá 30ta Maji 1828 í §. 1., ecki ver-id útrunninn; þó er þad sjálfsagt, ad náqvæm-lega ber ødruvísi ad sanna, ad barnid hafi lif-andi fædt verid og yfirlifad þann, eptir hvern arfur er fallinn.



# Cancelli Plakat,

fyri Danmerku,

dagsett 2ann Septembr. 1828.

Eptir fullgjört samkomulag um aftekníngu Afdráttar-réttarins bædi á milli þeirra konúnglegu dönsku landa og þess schweitz-erska Sambands ríkis 22gja Cantóna á bádar sídur, verda þær áqvardanir, sem innihaldast í þessum samníngi, hér med auglýstar, til ávís-unar og tilhlýdilegrar adgætslu, ad því leiti Danmerkur Konúngs ríki áhrærir;

1.) Vid útflutníng eigna, af hverju helzt tagi sem eru, frá Konúngs-ríkinu Danmörku, Hertogadæmunum Slesvík, Holsetulandi og Lauenborg til þess schweitzerska Sambands-ríkis 22gja Cantóna, ellegar frá þess schweitzerska Sambands-ríkis 22ur Cantónum til Konúngs-ríkisins Danmerkur, Hertoga-dæmanna Slesvíkur, Holsetu-lands og Lauenborgar, skal enginn af-dráttur (*gabella hereditaria*) ellegar utanferdar afgiald (*census emigrationis*) lúkast, hvert held-ur útflutníngur verdur vid leyfilega utanferd,

ellegar vegna arfs, Legaks, heimanmunds, gjafar, kaups, makaskipta, ellegar á annann hátt.

2.) Þessi fríheit skulu ná bædi til þess afdráttar og þeirra utanferdar afgjalda, sem annars mundu innrenna í Landsherrans sjódu, og til þess afdráttar og utanfarar afgjalda, sem ella mundu hlotnast Sjóstødum, Héredum, Stadarsjódum, Stiptum, Klaustrum, Kirkjum, erfda Løgsognum, Samfélogum, Landegendum, ellegar hverjum helzt ødrum prívat mønnum, þar til bornum.

3.) Þó skulu þau afgjøld, sem løgleidd eru eda verda kunna, annadhvert í einu eda ødru af þeim Ríkjum, sem hér um semja, eptir kaupi, makaskipti, arfi, Legati eda gjef, og sem einninn lúka ber af þegnum þeim, sem í landinu kyrrir verda, án tillits til eigna útflutníngs, hér med vera óupphafin.

4.) Allar fyrrtaldar áqvardanir skulu ná bædi til allra þegar fyrikominna tilfella, vid beggja (hlutaregenda) afhendíngu hér um samínnar auglýsíngar — sem skédi 12ta Jan. þ. á. — og til allra komandi tilfella.

 

Konúnglegt

# Plakat,

dagsett 29da Okt. 1828.

## Um Rang (upphefdar stig) Conferenceráda og Høfdíngja Kaupmannahafnar Pólitíis og Sjáfarstranda Pólitíis.

**Vér Friderik enn Sjötti,** af Guds nád Konúngur, etc.

Gjörum kunnugt: ad Vér allranádugast høfum áqvardad, ad Vor Conferencerád hér eptir skulu njóta sømu upphefdar (Rang), sem No. 12 í 2rum flocki, eins og Vér þarhjá viljum unna Høfdíngja Kaupmannahafnar Pólitíis og Sjáfarstranda Pólitíis, Embættis upphefd (Rang) med No. 5 í 2rum flocki í Rangtilskipuninni, eins og þessum flocki er nidurskipad med Vorri auglýsíngu þann 12ta Aug. 1808.

---

Videyar Klaustri, 1830.

Utgéfid frá þeim konúngl. íslendska Landsyfirrétti og prentad á konúnglegann kostnad,

af Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

